# Tímarit

Þjóðræknisfélags
Islendinga

IV. AR.

---

WINNIPEG MANITOBA
1922



# THE VULCAN IRON WORKS Limited

FYRSTA JÁRNBFRÆÐSLU-VERKSMIÐJA í VESTUR-CANADA. — (Stofnuð 1874).




**Búa til "Return Tubular Boilers", Stál-reykháfa, Stálþrór, Spangajárn, Járnsmiðjuáhöld öll, Aflleiðsluvélar, Brúa-járn og Byggingajárn og Stál, o.s.frv.**

**WINNIPEG—MANITOBA**

# Skraut Girðingar úr Járni



Haganlegar til að girða með í kringum íbúðarhús, kirkjur, skólahús, grafreiti, leikvelli, verksmiðjur, eða hvaða staði sem eru, þar sem setja skal varanlegar og ódýrar girðingar og járnhlið.

"Mission" munstrið (sjá myndina) er hið vinsælasta nú, í einfaldar girðingar. Er smíðað eingöngu úr bezta járni, og er hver rim hnoðuð í þverslána. Sökum þess, hve það er sterkt og varanlegt, en selt þó á lágu verði, leyfum vér oss að mæla sérstaklega með því í girðingar umhverfis grafreiti eða íbúðarhús.

Vöruskrá, er skýrir betur hinar ýmsu gerðir skrautgirðinga, send eftir beiðni, þeim er vilja.

---

# Dominion Bronze & Iron Ltd.

**Pacific Ave og Yeoman St. Phone: A-8725**

WINNIPEG - MANITOBA

# Fjárhagsskýrsla Þjóðræknisfélagsins yfir árið 1921.

## I. AÐALREIKNINGUR.

*Inntektir*:

| | |
|---|---|
| Til góða frá fyrra ári | $ 479.83 |
| Viðtekið frá Fjármálaritara | 312.23 |
| Séra Guðm. Árnason (safnað nýjum félagsmönnum) | 124.35 |
| Ágúst Frímann (gjöf til félagsins) | 20.00 |
| Samtals | $ 936.41 |

*Útborganir* :

| | |
|---|---|
| The Viking Press, prentun á ársskýrslu | $ 6.63 |
| Séra Jónas A. Sigurðsson (fargjald á aðalfund 1921) | 25.00 |
| Ólafur S. Thorgeirsson (fyrir prentverk) | 22.22 |
| Icelandic Good Templars (húsaleiga fyrir ársþing 1921) | 70.00 |
| Jódís Sigurðsson (fjögra mánaða kenslukaup) | 200.00 |
| R. Beck (tveggja mánaða kenslukaup) | 120.00 |
| Séra Guðm. Árnason (ferðakostnaður og kaup) | 124.35 |
| The Viking Press (fyrir auglýsingar) | 10.50 |
| The Columbia Press (fyrir auglýsingar) | 7.65 |
| Voröld (auglýsing) | 4.00 |
| Pósthólf félagsins | 4.00 |
| Gísli Jónsson (1400 eintök stjórnarskrá) | 28.00 |
| Fred Swanson, fjármalaritari (frímerki o. fl.) | 16.10 |
| Endurborgað deildinni "Frón " (partur af félagsgjaldi) | 5.50 |
| 31. des. 1921 — til jafnaðar | 292.46 |
| Samtals | $ 936.41 |

## *II.* FJÁRHAGUR TÍMARITSINS.

*Inntektir* :

| | |
|---|---|
| Fluttur afgangur frá reikningi að framan | $ 292.46 |
| Tímaritasjóður frá fyrra ári | 274.98 |
| Inn komið fyrir auglýsingar í II. árgangi | 1,241.81 |
| Inn komið fyrir auglýsingar í III. árgangi | 177.38 |
| Viðtekið frá F. Johnson, skjalaverði, fyrir Tímaritið | 626.66 |
| Samtals | $2,613.29 |

*Útborganir* :

| | | |
|---|---|---|
| Ritlaun við II. árgang Tímaritsins | $ 196.21 | |
| Gísli Jónsson, eftirstöðvar fyrir prentun á II. árg. | 869.50 | |
| Brigdens, Limited (2 myndamót) | 11.39 | |
| E. Sumarliðason (sölulaun á Tímaritinu í Nýja Íslandi) | 20.00 | |
| Umbúðir og flutningsgjald á 414 eint. af II. árg. | 59.00 | |
| Viking Press (niðurborgun fyrir prentun á III. árg) | 277.25 | |
| 31. des. 1921 — í sjóði | 1,179.94 | |
| | $2,613.29 | $2,613.29 |

## III. ÓINNHEIMT OG ÓÚTBORGAÐ.

*Útistandandi* :

| | | |
|---|---|---|
| Óinnheimt fyrir auglýsingar í II. árg. Tímaritsins | | $ 48.00 |
| Óinnheimt fyrir auglýsingar í III. árg. Tímaritsins | | 1,201.50 |
| | | $1,249.50 |

*Óútborgað* :

| | | |
|---|---|---|
| Áætluð ritlaun fyrir III. árg. Tímaritsins | $ 125.00 | |
| Áætlað óborgað prentverk III. árgangs | 810.00 | |
| Til jafnaðar | 314.50 | |
| | $1,249.50 | $1,249.50 |

## V. FJÁRHAGUR FÉLAGSINS.

| | | |
|---|---|---|
| Peningar í vörzlum féhirðis | | $1,179.94 |
| Útistandandi fyrir auglýsingar umfram skuldir | | 314.50 |
| Samtals | | $1,494.44 |
| Kr. 619.20 á Landsbanka Íslands, Reykjavík, áætluð 20 cent í krónunni | | 123.84 |
| Samtals | | $1,618.28 |
| Eignir félagsins í bókum og öðru í Vesturheimi: | | |
| 31. des. 1921—807 eint. af I. árg. Tímaritsins, óinnheimt og óselt, að frádregnum 25% sölulaunum og 20% verðfalli | $ 484.20 | |
| 656 eint. af II. árg. óinnheimt og óselt, að frádregnum 25% sölulaunum og 10% verðfalli | 442.80 | |
| 1,350 eint. af III. árg., að frádregnum 25% sölulaunum | 1,012.50 | |
| Ritföng, bækur, myndamót o. fl. | 150.00 | |
| Eignir félagsins á Íslandi: | | |
| 31. des. 1920—228 eint. af I. árg. óinnheimt og óselt, að frádregnum 40% sölulaunum og 10% verðfalli, áætluð 20 cent krónan | 147.75 | |
| 400 eintök af II. árg., að frádr. 40% sölul. og 10% verðfalli | 259.20 | |
| | | $2,496.45 |
| Samtals | | $4,114.73 |

*A. P. Jóhannsson,* féhirðir.

**VOTTORÐ ENDURSKOÐUNARMANNA.**

Winnipeg, 17. febrúar 1922.

Hér með vottast, að við undirritaðir höfum nákvæmlega yfirskoðað framanritaðan ársreikning ásamt fylgiskjölum í öllum atriðum, og finnum hann réttan vera.

*B. Pétursson. Fr. Guðmundsson.*
endurskoðunarmenn.

# Þetta eru beztu farfa litir sem fást




**"COPALLINE VARNISH"**

er bezta litarolía á hurðir, gluggakistur og innviðu alla. Hún setur gljáa á þil og skýrir fjalirnar, svo hinn eðlilegi trjálitur nýtur sín sem bezt.

Hún þolir raka og bleytu. Hvítnar eigi undan þvotti eða mari.

**"LANGMUIR'S INSIDE FLAT FINISH"**

Bezti farvinn á kalkþynnuveggi og hvelfingar. Gljáalaus. Þolir þvott. Fer vel. Er drjúgur og endingargóður.




**"RIPOLIN ENAMEL"**




Á baðklefa, eldhús, svefnherbergi, forstofu, er óviðjafnanlegt. Það segja eigi einungis málarar, heldur húseigendur sjálfir, er það hafa reynt. Segja þeir það fari betur en allt annað mál, sem þeir hafa áður notað.

**COPALLINE á þil og inniviðu. LANGMUIR'S FLAT á veggi.**

**RIPOLIN alstaðar, utan eða innan á húsið.**

# The Western Paint Co. Limited

WINNIPEG - MANITOBA

# Félagatal fyrir árin 1921 og 1922.

*Heiðursfélagar.*

Séra Kjartan Helgason prófastur í Hruna í Árnessýslu.
Stephan G. Stephanson skáld. Bóndi við Markerville, Alta.
Vilhj. Stefánsson L.L.D. landkönnunarmaður. 3755 Broadway, New York.
Próf. H. Hermannsson, bókavörður við Fiskesafn Cornell háskólans, Ithaca, N. Y.
Frú Stef. Guðmundsd. leikkona. Reykjavík, Ísland.
Próf. Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld. Reykjavík, Ísland.

*Árborg, Man.*

Séra Jóhann Bjarnason.
Dr. S. E. Björnsson.
Mrs. G. Elíasson.
P. S. Guðmundsson.
Ingimar Ingjaldsson.
A. F. Reykdal.

*Baldur, Man.*

Christian Benedictsson.
Sigurður Finnbogason.
Séra Fr. Hallgrímsson.
Björg E. Johnson.
Guðmundur Johnson.

*Brown, Man.*

Sigurjón Bergvinsson.
Thorkell Bergvinsson.
J. S. Gillis.
Lovísa Gíslason.
T. J. Gíslason.
J. M. Gíslason.
Björgvin Hallgrímssson

Árni H. Helgason.
Guðm. J. Húnfjörð.
Miss Valgerður Ísaksson
Jón J. Húnfjörð.
Herbert Jónsson.
Jónína Jónsson.
Arnór Jóhannsson.
Jón B. Jónsson.
Gunnar Th. Oddson.
Helgi Kristjánsson.
Júlíana Kristjánsson.
Lovísa Kristjánsson.
Th. B. Líndal.
Árni Ólafsson.
Freyja Ólafsson.
Gísli Ólafsson.
Halldór Ólafsson.
Ólafur A. Ólafsson.
T. O. Sigurðsson.
Inga Tomson.
Árni Thomasson.
Pálína G. Thorláksson.

*Churchbridge, Sask.*

Magnús Hinriksson.
Pálína M. Jónsson.
S. Helga J. Jónsson.
Björn Th. Sigurðsson.
Elín Guðrún Sigurðsson.
Séra J. A. Sigurðsson.
Jón Sigurðsson.
Stefanía Sigurðsson.

*Dafoe, Sask.*

Kristján Johnson.
Björn Jónsson.
Jón Jónsson.
Jón Jónsson frá Mýri.
Bjarni J. Ólafsson.
G. J. Ólafsson.

*Edmonton, Alta.*

Ó. T. Johnson.
Mrs. O. T. Johnson.

*Framnes, Man.*

Thorgrímur Sigurðsson
Guðm. Vigfússon.

*Gimli, Man.*

Mrs. Ella Benson.
Mrs. Ella Benson.
Helgi Benson.
C. O. L. Chiswell.
Stefán Eldjárnsson.
Guðm. Fjeldsted.
Einar Gíslason.
Finnbogi Jónsson.
Séra Halld. Johnson.
Gísli Magnússon.
Guðm. Magnússon.
Séra Eyjólfur Melan.
Charles Neilsen.
Séra Sig. Ólafsson.
Björn B. Olson.
Helga Sólmundsson.
Julíus Sólmundsson.
Mrs. Guðr. Stefánsson.
Mrs. Kr. Stefánsson.
Gísli Sveinsson.
Bergþór Thordarson.
Guðni Thorsteinsson.
Hjálmur Thorsteinsson.

*Glenboro, Man.*

F. Frederickson,
Guðm. S. Heiðman,
A. E. Johnson.
Teodor Jóhannsson.
Guðm. Lambertsen.
G. J. Oleson.

*Goulbourne, Man.*

Guðrún Thorkelsson.
H. Thorkelsson.

*Grand Forks, N. D.*

Dr. G. J. Gislason.

*Gull Lake, Sask.*

Jóhann Stefánsson.

*Hallson, N. D.*

Pétur Jónsson.

*Hnausa, Man.*

Gunnar Helgason
S. J. Vídal.

*Hove, Man.*

Vilbald Frímann.
Andrés J. Skagfeld.
Steini S. Skagfeld.
Anton Sigurðsson.
Björn Sigurðsson.
Jóhanna Sigurðsson.
Jóhannes Sigurðsson.
Halldóra Vigfússon.
J. K. Vigfússon.
Kristján Vigfússon.

*Kandahar, Sask.*

Th. A. Björnsson.
Kristín Eyjólfsson.
S. B. Guðnason.
Andrés Helgason.
J. B. Josephson.
Guðj. J. Sveinbjörnsson.
Svb. J. Sveinbjörnsson.

*Lancers, Man.*

Carl J. Olson.

*Leslie, Sask.*

Björgvin Guðmundsson.

*Lillesve, Man.*

Jón Kristjánsson.

*Lundar, Man.*

Kristján Daníelsson.
Snæbjörn Einarsson.
Sigurður Gíslason.
Jón Guðmundsson.
Vigfús Guttormsson.
Halld. Halldórsson.
M. Halldórsson.
Sig. Júl. Jóhannesson.
Mrs. S. J. Jóhannesson.
Alex A. Johnson.
Friðrik A. Johnson.
Hermann Johnson.
Katrín Johnson.
Kjartan Johnson.
Mrs. Oddfríður Johnson.
Páll Johnson.
Sigríður Johnson.
Thorsteinn Johnson.
Valdemar K. Johnson.
Séra A. E. Kristjánsson.
Mrs. Anna Kristjánsson.
Hjálmar Kristjánsson.
Nanna Kristjánsson.
Sigrún Kristjánsson.
Daníel Líndal.
Oddur G. Magnússon.
Sigurður Magnússon.
Helgi Oddsson.
Eiríkur Scheving.
Bergþóra K. Sigurðsson.
Halldóra D. Sigurðsson.
Jóhann S. Sigurðsson.
Ragnheiður Sigurðsson.
Sigurður J. Sigurðsson.
Sigurður T. Sigurðsson.
Grímúlfur J. Sigurðsson.
Ingimundur Sigurðsson.
Mrs. A. Sigurðsson.
Skúli Sigfússon.
Jón Straumfjörð.
Guðjón Thorkelsson.
T. O. S. Thorsteinsson.

*Í bygðunum kringum Markerville, Alta.*

Jóhann Björnsson.
Sigurást Björnsson.
Jón Benidiktsson.
Christinn Christinsson.
Vésteinn H. Dofri.
Hóseas Eiríksson.
Mrs. Helga Einarsson.
Hróbjartur Einarsson.
F. H. Einarsson.
Albína Einarsson.
B. Einarsson.
Miss F. Einarsson.
Jónas J. Húnfjörð.
Bjarni Húnfjörð.
Jónas Þ. Húnfjörð.
Hannes H. Húnfjörð.
Pétur Hjálmsson.
Thory Johnson.
J. A. S. Johnson.
Niculás S. Johnson.
Mrs. Sigríður Johnson.
Sigurður Johnson.
Halldór J. Jóhannsson.
Sigtr. Jóhannsson.
Siggeir Jóhannsson.
Christján Jóhannesson.
Miss Guðrún Maxson.
Peter Maxson.
Stephan Maxson.
Mrs. Sigrún Plummer.
Tómas Rafnsson.
Jóhann Sveinsson.
Mrs. G. Stephansson.
Baldur Stephanson.
Jakob K. Stephanson.
Rósa Stephansson.
Mrs. Helga Stephansson.
Miss Jóný Stephansson.
Ethel Stephansson.
Florence Stephansscn.
Lillie Stephansson.
Jakobína Stephansson.
Benidikt Stephansson.
Jón Stephansson.
Helga Stephansson.
Hrefna Stephansson.
Stephan Stephansson.
Sigurlína Stephansson.
Bjarnína Sigurðsson.
Jórun G. Sigurðsson.
Ófeigur Sigurðsson.
Jóhann Thorpe.

*Markland, Man.*

Thórður S. Sigurðsson.
Ragnar Sigurðsson.

*Mary Hill, Man.*

Bergsveinn Eiríksson.
Jón Sigurðsson.

*Minneota, Minn.*

Gunnar B. Björnsson.
Séra Gutt. Guttormsson.

*Mountain, N. D.*

Joseph Myres.
Arnlj. Ólafsson.
Þorl. Þorfinnsson.

*Narrows, Man.*

S. Baldvinsson.

*New York. N. Y.*

Halldór He[illegible]sson.
Jóhannes Jósefsson.
Bjarni Björnsson.

*Oak Point, Man.*

Séra Guðm. Árnason.
Mrs. Sigríður Árnason.
Helga Árnason.
Hrefna Árnason.
Einar Árnason.
Daníel Halldórsson.
Jóhann Johnson.

*Otto, Man.*

Stefán Baldvinsson.
S. Benidiktsson.
J. Magnús Bjarnason.
Thorhallur Halldórsson.
Nýbjörg Halldórsson.
Gestur V. Jónasson.
Mrs. Margrét Jónasson.
Margrét S. Jónasson.
Kári Johnson.
Jónatan Johnson.
Sigfús Sigurðsson.
Kristján Þorvarðarson.
Þorsteinn Þorsteinsson.
Brynjólfur Þorláksson.

*Pembina, N. D.*

Thor. Bjarnason.
Concordia Eymundsson.
H. Halldórsdóttir.
G. V. Leifur.
Geo. Peterson.
Mrs. Geo. Peterson.
John W. Peterson.

*Porter, Minn.*

Bjarni Guðmundsson.

*Riverton, Man.*

Fred. Axford.
Gutt. J. Guttormsson.
Þorgrímur Jónsson.
S. Thorvaldsson.
Th. Thorvaldson.
Th. Thórarinsson.

*Reykjavík, Ísland.*

Óskar Borg.
Hólmfríður Árnadóttir.

*Selkirk, Man.*

Ásgeir Bjarnason.
Th. Bjarnason.
Bjarni Dalmann.
Guðjón Friðriksson.
Thorbergur Fjeldsted.
Frank A. Gemmel.
Runólfur Hinriksson.
Jón Hinriksson.
Mrs. María Hinriksson.
Runólfur Halldórsson.
Björgvin Jóhannesson.
Bjarni Jónasson.
Hinrik Johnson.
Klemens Jónasson.
Sigurbjörn Jónsson.
Jónas Jónasson.
Mrs. Jóhanna Jónasson.
Jóna Jónasson.
Páll Magnússon.
Benedikt Magnússon.
Lovísa R. Magnússon.
O. J. Olafsson.
Kristín Ólafsson
Mrs. Kristján Pálsson.
Jón Ólafsson.
Joseph Schram.
Th. Sveinsson.
Sigurður Sigurðsson.
Sigurgeir Stefánsson.
Jón Sigurðsson.
Bjarni Thorsteinsson.
Séra N. S. Thorláksson.
Margrét J. Walterson.
Guðm. G. Walterson.
Hjörtur Walterson.

*Siglunes, Man.*

J. Jónsson frá Sleðbrjót.
Páll Jónsson.
Mrs. H. G. Runólfsson.

*Silver Bay, Man.*

Árni Árnason.
S. Árnason.
Séra Adam Thorgrímss.
Hildur Árnason.
Guðný Árnason.
Jón Björnsson.
Mrs. Sigríður Björnsson.
Hallur Hallsson.

Th. Björn Jónasson.
Ólafur Magnússon.
Ólafur Thorlacius.

*Stony Hill, Man.*

Guðbr. Jörundsson.

*Tacoma, Wash.*

E. S. Guðmundsson.

*Vestfold, Man.*

Björn Byron.
Auður Byron.
Helga Byron.
Kári Byron.
Einar H. Einarsson.
Guðbjörn Goodman.
Rúna Mýrdal.
Ina Mýrdal.
Helgi Olson.
Guðm. Stefánsson.
Kristján Stefánsson.
Ingi Stefánsson.

*Vogar, Man.*

Guðm. Jónsson.
Jóhannes Jónsson.
Oscar Johnson.

*Víðir, Man.*

Hjörtur J. Jónasson.

*Winnipeg, Man.*

Sveinbj. Árnason.
Kr. J. Austmann.
Ólöf G. Austmann.
Thorst. Ásgeirsson.
Árni Anderson.
Ásta Austmann.
Þóra Austmann.
Jón Austmann.
John Ásgeirsson.
Gunnar Árnason.
Vilbjörg Anderson.
Pétur Anderson.
Guðlaug K. Anderson.
Gyða Ande[illegible]
Ólína Anders[illegible]

Pétur Stefán Anderson.
Egill J. Ó. Anderson.
Stefán Abrahamsson.
Dr. B. J. Brandsson.
A. S. Bardal
Jón J. Bíldfell.
H. S. Bardal.
Ólafur Bjarnason.
Oddrún Bjarnason.
Kjartan Bjarnason.
Ingibjörg Björnsson.
S. B. Benediktsson.
Mrs. Guðrún Borgfjörð.
Guðm. M. Bjarnason.
Gísli Blöndal.
Richard Beck.
Guðm. Bergman.
Skúli Benjamínsson.
Mrs. S. B. Brynjólfsson.
Jóhanna Cooney.
Björg Carson.
Ragnh. Davídsson.
W. A. Davíðsson.
R. J. Davíðsson.
Guðv. Eggertsson.
Árni Eggertsson.
Guðm. Eyford.
Stefán Eymundsson.
Bjarni Finnsson.
Mrs. P. Fjeldsted.
Pétur Fjeldsted.
Mrs. Inga Furney.
Hjálmar Gíslason.
Kristinn Goodman.
G. R. Guðmundsson.
Gunnar Guðmundsson.
Guðm. Th. Gíslason.
Hallbera Gíslason.
Sigurgrímur Gíslason.
Össurlína Guðbjartsson.
Jóh. Gottskálksson.
Friðrik Guðmundsson.
Jón H. Gíslason.
Miss Elín Hall.
Miss Theodora Herman.
Páll Hallson.
Guðj. H. Hjaltalín.
Jónas Hinriksson.
Sigurður J. Hlíðdal.
Ásta G. Höskulds.
G. B. Ingimundarson.
Á. P. [illegible]nnsson.
Mrs. [illegible] Jóhannsson.

Sigurjón Johnson.
Jónas Jónasson.
Helgi Johnson.
Sig. Jakobsson.
Jónas W. Jóhannsson.
Kári W. Jóhannsson.
Grettir L. Jóhannsson.
Thorarinn Johnson.
Finnur Johnson.
Mrs. Guðr. Johnson.
Gísli Jónsson.
Mrs. Guðr. Jónsson.
Bergþóra Jónsson.
Helgi Jónsson.
Gyða Jónsson.
Ragna Jónsson.
Gunnl. Jóhannsson.
G. K. Jónatansson.
Björn B. Jónsson.
Stefanía Johnson.
B. K. Johnson.
Thorður Johnson.
Einar P. Jónsson.
Mrs. E. P. Jónsson.
Sigrún M. Jónsson.
Arngr. Jónsson.
J. Jóhannesson.
Albert Johnson.
J. K. Johnson.
Gunnl. Tr. Jónsson.
Mrs. Sigrún Johnson.
Björn Johnson.
Ásmundur Jóhannsson.
Halldór Jóhannsson.
Stefán Jóhannsson.
Valgerður Johnson.
C. B. Júlíus.
Jón Jónatansson.
Lúðvík Kristjánsson.
Hlaðgerð. Kristjánsson.
Kr. Kristjánsson.
Friðrik Kristjánsson.
Ragnar Kvaran .
Þórunn Kvaran.
Björn Lindal.
Svafa Lindal.
Hannes J. Lindal.
Séra Rún. Marteinsson.
Ingunn Marteinsson.
Böðvar Magnússon.
Steinunn Magnússon.
Guðm. Magnússon.
Bjarni Magnússon.

Rósa Magnússon.
Agnar R. Magnússon.
Nik. Ottenson.
S. F. Ólafsson.
Mrs. Jóhanna Ólafsson.
Sig. Oddleifsson.
Mrs. Guðl. Oddleifsson.
Edw. W. Oddleifsson.
Axel L. Oddleifsson.
Rögnv. Pétursson.
Hólmfríður Pétursson.
Thorv. Pétursson.
Margrét Pétursson.
Ólafur Pétursson.
Pétur Jónas Pétursson.
Björn Pétursson.
Magnús Pétursson.
Hannes Pétursson.
Ólafur Pétursson.
Björn Pétursson.
Pétur B. Pétursson.
Miss Margrét Pálsson.
Páll S. Pállsson.
Mrs. P. S. Pállsson.
Magnús Paulson.
Jón Runólfsson.
H. Sigurdson.
E. Sumarliðason.
Friðrik Sveinsson.
Sigríður Sveinsson.
Jón Sigurðsson.
Sigurb. Sigurjónsson.
E. H. Sigurðsson.
Óskar Sigurðsson.
J. J. Swanson.
Sigurður Sigurðsson.
Helgi Sigurðsson.
Hreiðar Skaftfeld.
Guðbjörg Sigurðsson.
Bárður Sigurðsson.
Mrs. J. Sigmundsson.
Inga Shopley.
Jóhann Sigmundsson.
Kári S. Snæfeld.
Ragnar Stefánsson.
Jónas Stefánsson.
Jódís Sigurðsson.
Sigurlaug Sigurðsson.
Thorgils Thorgeirsson.
Jón Tómasson.
Soff. Thorkelsson.
Mrs. Jóh. M. Thorkelss.
Jón Thordarson.

Kolbeinn Thordarson.
Eyjólfur Thorsteinsson.
Þ. Þ. Þorsteinsson.
Mrs. Goðm. Þorsteinsson
Chr. Vopnfjörð.

*Winnipegosis, Man.*

Karitas Brynjólfsson.
Jónas Brynjólfsson.
Brynhildur Björnsson.
Ármann Björnsson.
Margrét Eiríksson.
Katrín Egillsson.
Guðmundur Egilsson.
Guðrún Friðriksson.
Oskar Friðriksson.
Stearn Friðriksson.
Þyri Friðriksson.
Elízabet Goodman.
G. Guðbrandsson.
Guðjón Guðmundsson.
Kári Goodman.
Guðjón Goodman.
Guðm. Guðmundsson.
Finnbogi Hjálmarsson.
Guðm. Hannesson.
Leo Hjálmarsson.
Ólöf Johnson.
Kristín Jónasson.
Aðalbjörn Jónasson.
Guðmundur Jónasson.
Ágúst Johnson.
Ólafur Jóhannesson.
G. K. Jónatansson.
Thorsteinn Jónsson.
Vilh. O. Jóhannesson.
Friðrik H. Jónsson.
Ottó Kristjánsson.
Hannes Kristjánsson.
Guðrún Magnússon.
Sigríður Magnússon.
Friðf. St. Magnússon.
Guðmundur Ólafsson
Sigurður Oliver.
Guðrún Oliver.
Jón Rögnvaldsson.

Vigbald Stefánsson.
Kristín Ol. Schaldemose.
Hjálmtýr Thorarinsson.
Aler. Thorarinsson.

*W.peg Beach, Man.*

Jón Kjernested.

*Wynyard, Sask.*

Mrs. Jóna Axdal
Mrs. Guðr. J. Axdal.
Th. S. Axdal.
Sigurjón J. Axdal.
H. I. Axdal.
Björg Axdal.
Sigurður Axdal.
Óli Bardal.
Thorhallur Bardal
Páll Bjarnason.
Dóra Bjarnason.
S. S. Bergmann.
Ásgeir I. Blöndahl.
Fanny Blöndahl.
Hulda Blöndahl.
Hilmar Blöndahl.
Aldmar Blöndahl.
Krisján Bergþórsson.
Anna Bergþórsson.
Friðrik Bjarnason.
E. Vilborg Björnsson.
S. J. Eyríksson.
Mrs. S. J. Eyríksson
Paul Eyjólfsson
G. J. Guðmundsson.
Arnþrúður Goodman.
Sigryggur Goodman.
Kristín Guðmundsson.
Halldóra Gíslason.
G. Gíslason.
Valdimar G. Gíslason.
Sigríður Guðjónsson.
Ásg. Guðjónsson.
Guðm. G. Goodman.
Steinþór Gunnlaugsson.

Óli J. Halldórsson.
O. Hall.
Mrs. Kristrún Hall.
Thorbergur Halldórsson.
Ástvaldur Hall.
John Jóhannsson.
Miss Thora Jóhannsson.
Gunnar Jóhannsson.
Halldór Johnson.
Mrs. Dómh. Johnson.
Guðmundur Jónsson.
Gunnsteinn Johnson.
Þuríður Johnson.
John Johnson.
Thor. I. Jensen.
Theodor Johnson.
Ólína Johnson.
Páll Johnson.
Sigrún Johnson.
Joseph Jósafatsson.
N. B. Josephson.
Guðný Josephson.
Thorlákur Jónasson.
Ragúel Johnson.
Brynjólfur Johnson.
H. Kristjánsson.
Hannes Kristjánsson.
Jón Kristjánsson.
Stephan Magnússon.
Jakob J. Norman.
Guðm. Paulson.
Á. Sædal.
Halldóra Sigurjónsson.
Séra Haraldur Sigmar.
Jóh. J. Stefánsson.
St. Þorsteinsson.
S. J. Wium.
Haraldur Olafsson.
Árni Sigurðsson.
Mrs. B. Sturlaugsson.
Óttar Sveinsson.
Bjarni Sturlaugsson.

*Yarbo, Sask.*

Valdemar G. Guðnason.

# Tímarit



## Þjóðræknisfélags Íslendinga

RITSTJÒRI: RÖGNV. PÈTURSSON




Fjórði árgangur, 1922

WINNIPEG, MANITOBA

GEFIÐ ÙT AF ÞJÒÐRÆKNISFÈLAGI ÌSLENDINGA

1922

EFNISYFIRLIT:

# Martíus.

Eftir **Stephan G. Stephansson.**

---

*FORSPÁ* :

Víðlendast veraldar-ríki,
Voldugra en keisara herdæmin:
Vetur og Vindsvala-kyn!
Leysast mun senn upp af limafallssýki,
Líkt eins og stórveldin hin.

I.

Fyrir gluggann minn gengu
Glaða-sólskinsdagar.
Báru af ylgeislum yddum
Örvamælir fullan.
Beint frá uppsölum árdags,
Undir randir þeirra
Langt og gustmikið gólu
Gullin-skýja lúðrar,
Stefndu varðliði vors á
Vetrarlönd, til njósna.

Upp í brag—hefi'eg búið
Bjarkamálin þeirra.

Lát þig alls ekki undra
Þó orustu-guðsins
Nafni, skálda-máls skeið í
Sköfnung sínum glamri.
Né þó vígroða vorsins
Varpi á héröð kvæða
Yfir gulnaðan gróður
Genginn undan snjónum.

Né þó launþráður ljóða
Liggi í heimátt, þangað
Sem að æsku-skeið og elli
Upptök veit og þrot sín —
Reisa báðar sér borg úr
Barnagullum sínum.

II.

Vor! Ó, vor —
Vor! með fjör og for.
Efnið sem að eilíft næði
Yfir löng og spány kvæði,
Fram um ljóss og lífsins svæði
Hvert þitt leifða og liðna spor.
Þú, sem árs og alda dyr
Opnar fyrir gróður-gæði,
Hvar sem tímgast blóm og byr.

Vor,
Þín skuld er ei þung-geng for—
Hún er leif frá víkings-vetri
Valur hans á hverju setri,
Meðan frelsi frjóva smárra
Í fold og sjó,
Inn' í dróma ísagrárra
Arma sinna, gat hann haldið,
Gaddi gróf
Kviksett líf, og hríða hárra
Hörkulögum skerpti valdið.
Smáu fræi úr freðnum köglum
Frostið vildi ekki sleppa.
Forin er,
Blökk og ber,
Blóð sem sprakk því undan nöglum
Um það fanga-klær að kreppa,
Þegar það læðing lyfti af sér.

Vor, vor —
Vor með fjör og for!
Morgun-köll
Kliðar-snjöll
Hlákan þín við hraun og björk,
Hrópandinn á eyðimörk!
Vekur svana-söng,
Sólskins-dægur löng —
Grösin sem þá gróa um völl,
Grundir við og hæstu fjöll,
Jafnvel mosinn
Fölur, frosinn,
Fylking drottins eru öll,

Kristsmenn, krossmenn,
Birtu og lífsins landnámsmenn.
Krossfarar,
Fylktir að vinna vöggurnar,
Vonarsælli en grafirnar.

Vor, vor —
Vor með fjör og for!
Hvessibrýn
Hretin þín,
Stundar-hamli á hlaup þér setta,
Hik um það hvað fyrst má spretta
Svo á bót sé byrjun rétt :
Þau eru aðsókn öfug-drauma,
Eftirlegur vetrar-strauma,
Næsta dag af lofti létt.

III.

Viðlíkt hendir mörk og mann!
Fúin svellköld sinulæða,
Sólar felhellan,
Tefur fyrir guði að græða
Gaddrunninn
Sumar-gróður sinn,
Þann sér hugsar hann —
Hans er erfð, ið unga, smáa
— Ekki skrælan háa-láa —
Óskabarn hans alþýðan.
Hans er vor,
Vor með fjör og for,
Leiðvísun til lífsins anna,
Ljóskveikjan í hugum manna,
Frelsisþrá og framsýnt þor —
Eitt sinn verða af al-þjóð manna
Allir vetrar-hlekkir bræddir,
Synir ljóssins sumarklæddir —
Lífsvon á ið sigur-sanna!

Þið!
Grösin, vaxin við
Vosbúðina og harðlendið,
Birkibeinar, búalið,
Kona og karl!
— Áburðurinn einsamall

Of-þrif skóp og ógresið —
Ljáið lið !
Hvar sem ungur uppvaxandinn
Unnið hefir leir og sandinn,
Glæsti teiginn gróður-ríka,
Allar hendur unnu það !
Eignuðust landið, fyrir að
Svelgja ei upp sína líka.
Fram þú lýður
Landavíður!
Liggur í hlekkjum heimur þinn,
Harðfrosinn
Á hönd og fæti, en hjarta-þíður —
Leys hann meðan lífið bíður !

Slíkt var þinna glapa gjald —
Grimd og myrkri fyrir þér
Sjálfur trúðir, sár og ber,
Gafst þig inum vonda á vald.
Hræum þínum hörku-tól
Hlóðu sér í valdastól.
Lát nú eigin dáðir duga,
Djarfleik þinn og vorljóss-huga
Þó að forin fljóti í tárum,
Þó að hlaupi á hundrað árum
Hjörnin forn að yfirbuga.

Lýður, bíð ei lausnarans,
Leys þig sjálfur. Þínu eirðu —
Oft vóru fjötrar foringjans
Fastast sem að að þér reirðu.
Sagan gjarnast eignar einum
Afrekin þín, dreifði múgur,
Samt mátt bera svara-bljúgur
Sakir alls er hlaust af meinum.
Því hefir hlotnast herra-staða
Heimskra sagna, mörgu fóli —
Einn gat ráðið skipa-skaða
Skeikull Páll frá Staðarhóli.

Lengur máttu ei, þjóðlíf, þig um
Þvældum trúa sögu-lygum,
Magnið þinnar orku ugga,
Auðsveip dýrka kalda skugga.

Uppi á hjarni hásætanna,
Heimsins stærstu slysamanna.
Æ í starfi oddvitans
Alt sem vanst til harms og gleði,
Það var fylgdin foringjans,
Fyrst og síðst er sköpum réði.
Skipstjórinn er heillum háður
Hásetanna, mikilráður —
Leifur hefir ekki áður
Aleinn bjargað flota af skipum,
Hríðföstum í hranna-gripum.
Vorönn sú að veturnóttum
Vínlands góða auðnu-fundi
Göfugri var á Grænlandssundi,
Góðfrægari landnáms dróttum.
"Hepni" við hans heiti tengdi,
Hún var það sem nafn hans lengdi.

IV.

Fyrir gluggann minn gengu
Glaðar sumar-vonir !
Stefndu blysförum beint til
Bjarmalands í framtíð,
Girtar megingjörð morguns
Mannprýði og sannleiks,
Merkt var handsal á hjálma,
Hjartarót á skjöldu,
Slógu ljóma yfir löndin,
Leiftrum útí fjarlægð,
Glæstu rósir og runn, að
Regnbogum í austri.

Báru hugsjóna-heimsins
Heilögustu Ritning,
Þar sem al-þjóðir áttu
Eftir hvern sinn spámann,
Öll sín vorkomu-vitni:
Vers og kapítula.
Hófu sólarljóðs-söngva,
Samerfingjar jarðar,
Sérhvert þjóðerni þekti
Þar í sína tungu.

# Nift Nera.

Eftir Stephan G. Stephansson.

---

"Þá hafði Helga
Inn hugumstóra,
Borghildur borið
Að Brálundi"

Þær greiddu úr
Gullin-síma,
Og undir mána-sal
Miðjan festu"

"Nótt var í bæ.
Nornir komu,
Þær sem öðlingi
Aldur sköpuðu.

"Brá nift Nera
Á norðurvega
Einum þætti.
Æ bað halda."

—*Helga-kviða*—

II. Örlög hans svo áskapaði:
Skalt við heilum hörmum orðstír kaupa,
ævarandi —
Svo er frægðin fengin!

Glað-tómum grípa greipum ó-vita skalt um
allan þinn aldur,
Brísinga-men, það sem máninn hengir
hátt á háls nætur, djúpt niðri saltan sæ.

Ást skalt öðlast, ástum bregðast, skjóta magni
um mark fram —
Ramari raunir rekkum öðrum, gef eg þér,
sveinn, til sigurs!

III. Sjö komu saman systur hennar
— Örlaga-dísir allar —
Ágæti, atgervi, yfirmensku ljúflingi
létu í té —
En alt var það fallvalt fé!

Ein gaf Sorgin til sigurs!

Þá varð Helga-kviða kveðin.

3—10. '22.

# Signýjarhárið.

Eftir séra Magnús Helgason.

Eg ætla að segja ykkur sögu, norræna fornaldarsögu. Enginn veit, hvenær hún gerðist, en ekki var þá Ísland bygt. Enginn veit heldur með vissu, hvar hún gerðist. Norðurlöndin þrjú hafa öll talið hana gerast hjá sér, og nefna til ýmsa staði. Hún hefir til forna verið fræg um öll Norðurlönd, og alkunn einnig með Íslendingum. Það sýna sögur og vísur. En ekki hafa Íslendingar fært hana í letur svo að kunnugt sé, og hefði hún þó átt skilið, að Snorri, eða einhver hans líki hefði gert það. Þar á móti hefur Saxi, hinn danski sagnritari fært hana í letur. Hann telur hana gerast í Danmörku. Frá miðöldum er líka til danskt alþýðukvæði út af sögunni. Það hefur Steingrímur Thorsteinsson þýtt á íslenzka tungu, og er sú þýðing prentuð í tímariti Bókmentafélagsins 1897. Ekki ber þeim saman um alt, Saxa og kvæðinu. Eg segi söguna eftir báðum.

Siggeir hefur konungur heitið. Hann réð fyrir Sjálandi. Þar hét á Siggeirsstöðum, er hann hafði aðsetu. Hann var kvæntur, og átti tvo sonu, er hétu Álfur og Álfgeir. Þeir voru miklir menn og sterkir og manna fríðastir sýnum. Dóttur áttu þau konungur og drotning, er Signý hét. Hún var talin allra kvenna fríðust, er þá voru á Norðurlöndum. Konungssynir lögðust í hernað þegar, er þeir höfðu aldur til, og varð gott til fjár og frægðar.

Hámundur hét jarl einn ríkur. Hann átti fjóra sonu; hét Haki hinn elsti. Hann lá í víking vetur og sumar, og kom eigi heim árum saman. Barst orðstír hans víða um lönd, og þótti sem trautt mundi finnast hans jafningi. Nú vaxa þeir upp heima bræður hans, og leggjast þeir í hernað, er þeir hafa þroska til. Þeir hétu Hámundur, Hagbarður og Helvinur. Allir voru þeir garpar miklir. Svo bar við eitthvert sinn, að þeir hittust í hernaði, jarlsynir og synir Siggeirs konungs, og lögðu þegar til orustu. Börðust þeir allan dag til kvölds, og mátti ekki í milli sjá, en lið höfðu konungssynir hálfu fleira. Þeir tóku hvíld um nóttina, en að morgni sættust þeir, og sórust í fóstbræðralag. Herjuðu þeir saman það sem eftir var sumars, en um haustið héldu þeir allir heim til Siggeirs konungs.

Svo er sagt, að maður nokkur, er Hildigísl hét, sunnan af Þjóðverjalandi, hafði gerst til þess, að biðja Signýjar konungsdóttur.

Hann var af háum stigum, fríður sýnum og stórauðugur, en hvorki reyndur að hug né harðfengi. Signý var hugumstór, sem konungsdóttur hæfði. Hafði hún heyrt margt sagt frá afreksverkum Haka víkings Hámundarsonar, og felt hug til hans. Um hann þótti henni gott að ræða, og lofaði hann mjög. Tók hún fjarri bónorði Þjóðverjans, er biðlaði með fríðu andliti, en litlum orðstír.

Það ræður að líkindum, að Signýju hafi þótt tíðindum sæta, er hún spurði heimkomu bræðra sinna, og að í för með þeim væru þrír bræður Haka Hámundarsonar. Signý hafði skemmu sér, sem títt var um konungadætur. Svo er að sjá, sem faðir hennar hafi viljað gifta hana Hildigísl, og talið hug hennar til Haka eigi annað en barnabrek. Vildi hann hamla því, að hún og jarlssynir sæjust. En einum þeirra bræðra að minsta kosti, var líkt í hug og Signýju; það var Hagbarður, sem hvorttveggja hafði til að bera, hreysti Haka og fríðleik meiri en Þjóðverjinn. Hann hafði heyrt mikið sagt frá fegurð Signýjar konungsdóttur, og sannaðist hér, sem oftar, að "tekst er tveir vilja". Með einhverjum ráðum náði hann fundi Signýjar. Feldu þau þegar hugi saman, og hétu hvort öðru trygðum.

Nú kemur konungur að máli við dóttur sína, og flytur mjög bónorð Þjóðverjans. Signý svaraði með vísum nokkrum. Niðraði hún þar Hildigísl, og tók fjarri bónorði hans, en lofaði mjög Haka víking, er hún hafði aldrei augum litið. Eitthvert kvis hafði komist á um fund þeirra Hagbarðs og hennar, og var því hvíslað, að hún hygði það til Hagbarðs, er hún lofaði Haka. Þetta kom til eyrna Hildigísl, og leggur hann heiftarhug á Hagbarð. Eigi hafði hann þó hug til að sýna honum beran fjandskap né skora hann á hólm. Hugsar hann nú ráð sitt. Konungur hafði sér ráðgjafa tvo; hét annar Bilvís, en hinn Bölvís. Þeir voru bræður. Eigi voru þeir skaplíkir, því að Bilvís vildi hverjum manni gott gera, og lagði það til hvers máls, er bezt gegndi, en Bölvís þótti öllu spilla. Hildigísl heitir á hann til fulltingis og gefur honum fé til, að rægja þá fóstbræður saman, konungsonu og jarlssonu. Bölvís heitir því, og svo kemur hann fortölum sínum, að fátt gerist með þeim fóstbræðrum, og fara jarlssynir á brott.

Um vorið halda þeir enn í hernað, hvorirtveggja, en fara nú sér hvorir. Hildigísl var með konungssonum. Einhverju sinni ber svo til, að ofviðri miklu laust á flota jarlsona og tvístruðust skip þeirra. Þeir Hámundur og Helvinur lentu skipum sínum í vík einni, er síðan var kölluð Hámundarvík. Þar komu Siggeirssynir að þeim, og lögðu þegar til orustu. Lauk svo að þar féllu þeir jarlssynir báðir, eftir drengilega vörn. Hagbarður fréttir fall bræðra sinna, og fer hann leitandi um sumarið, unz hann

finnur Siggeirssonu. Var þá eigi að sökum að spyrja. Falla þeir bræður þar, og varð Hagbarður banamaður beggja. Hildigísl komst undan á flótta og örkumlaður við lítinn orðstír.

Eigi var hugur Hagbarðs snúinn frá Signýju fyrir þessu; má hann nú engu una, nema hann nái fundi hennar. Tekur hann það til bragðs, að gera sér konuklæði, og neytir svo þess, að hann var allra manna fríðastur, og svo ungur, að honum var lítt sprottin grön. Heldur hann svo til aðsetu Siggeirs konungs.

Nú ber þeim í milli Saxa og þjóðkvæðinu. Segir Saxi, að hann hafi þóttst vera skjaldmey og fara með orðsendingu til konungs frá Haka Hámundarsyni, en kvæðið segir, að hann færi á fund Signýjar konungsdóttur, og beiddi hana að kenna sér hannyrðir. Bæði segja þau, að honum var fylgt í skemmu Signýjar, og hversu skemmumeyjum hennar varð starsýnt á komumeyna. Þótti þeim hún heldur en ekki snareygð og höndin hörð eins og járn, þótt hún bæði væri hvít og smá. Þá þótti hún ekki beita nálinni fimlega, en aftur á móti taka allhraustlega til matar og drykkjar. Og ekki batnaði, þegar henni var gerð fótlaug; Þóttu þeim fæturnir og kálfarnir furðulega karlmannlegir.

Um kvöldið var komumeynni fylgt til herbergis konungsdóttur; skyldu þær sofa þar báðar um nóttina. Ein var sú þernan, er grunaði hvers kyns vera mundi. Hún þjónaði þeim til sængur. Hagbarður hafði sverð sitt, og var í brynju undir klæðum, og hvernig sem það hefur orðið, þá tókst þernunni að stela hvorutveggja frá honum, þegar þau voru háttuð. Þykist hún nú vita vissu sína, og skundar til hallar konungs og vekur hann með þeim tíðindum, að Hagbarður sonarbani hans sé þar kominn, og hvíli í skemmunni hjá Signýju dóttur hans. Konungur stendur upp skjótt, og biður menn sína vopnast. Heldur liðið alt til skemmunnar og er hringur sleginn um hana.

Nú er að segja frá þeim Hagbarði og Signýju. Þar hafði orðið mikill fagnaðarfundur, en báðum var það ljóst, í hvílíka hættu var stefnt. Signý mælti:

"Ef faðir minn verður þess vís, að þú ert hér kominn, mun það verða þinn bani."

Hagbarður kvaðst eigi allhræddur, meðan hann hefði sverð sitt og brynju, "veit eg eigi þá menn innan hirðar föður þíns, er eg treystist eigi móti að horfa. En vilja mundi faðir þinn til hafa að hengja mig, ef hann fengi fang á mér, og væri það illa farið, því að þá mundir þú öðrum gefin."

"Eigi skaltu því kvíða", svaraði Signý, "því að aldrei skal eg manni unna öðrum en þér, og eigi skal eg eftir þig lifa; auðnist mér eigi að lifa með þér, skal eg þó deyja með þér."

Í þessu bili heyra þau úti dyn mikinn, sem kominn væri her manns. Hagbarður sprettur á

fætur, og saknar nú sverðs síns og brynju.

"Svikin erum við nú," segir hann, "og búið að þér gefist skjótt kostur á að efna orð þín."

"Efna mun eg þau," segir hún, "þegar snaran spennir þig, skal eldurinn spenna mig."

Nú er barið á hurðina og kallar konungur úti og eggjar menn sína. Hurðin brotnar. En þar var þó eigi greitt inngöngu að heldur, því að Hagbarður stóð í dyrunum. Varðist hann afburða vel með hverju því, er hönd festi á, og síðast með fótum og hnefum. Segir sagan, að þrjátíu konungsmenn lægju dauðir áður en þeir höfðu hann undir. En þá tók ekki betra við, er til þess kom að binda hann. Þó að þeir kæmu fjötrum á hann, braut hann þá óðara sundur. Fengu þeir engin bönd svo sterk, að eigi brystu þau, eins og brunninn þráður, þegar Hagbarður treysti þau. Þá tók til máls þernan, er áður var getið:

"Takið lokk úr hári Signýjar og bindið hann með. Það band mun hann aldrei slíta."

Það var gert, og Hagbarður stóð kyrr eins og steinn og bærði hvorki hönd né fót. Það band vildi hann ekki slíta.

Konungur bað menn sína færa Hagbarð til skógar og festa á gálga sem skjótast. Saxi segir, að drotning rétti Hagbarði horn til storkunar og bað hann drekka úr sér hengingarhrollinn. Hagbarður laust drykknum framan í andlit drotningar, og bað hana sjálfa drekka þar minni so
sinna.

Þegar komið var til gálga vildi Hagbarður reyna trygð Si nýjar og mælti til þrælanna, festa skyldu hann á gálga "Hengið fyrst skikkju mína, s að eg sjái, hvernig mér muni fa hengingin." Þeim þótti það ek nema bón. Þegar skikkjan v hafinn á gálgann, leit Hagbarð til skemmu Signýjar. Sér ha þá brátt, að eldi er slegið í skem una. Hagbarður varð glaður v og hermir þjóðkvæðið svo o hans: "Þó að eg ætti nú þúsu líf, eg gæfi ekki um eitt af þeim."

Konungur hafði gengið til ha ar, er Hagbarður var færður t skógar. Verður honum litið t skemmunnar og sér, að hún ste ur í ljósum loga. Sveinn einn va þar staddur hjá konungi, og kva hann þar mega sjá, hversu hei dóttir hans unni Hagbarði, er hú vildi heldur brenna sig inni, e lifa eftir hann. Konungi brá sv við, að hann sendi menn í senn ti skemmunnar, að slökkva eldin og aðra til skógar, að gefa gri Hagbarði. "En þegar þeir kom til gálgans, var öðlings æfi runn in, og þegar þeir komu til skemm unnar, var Signý á glóðum brunn in." Kvæðið lýkur því næst frá sögn sinni með því, að konungu lét drepa þernuna, er sagt hafð til Hagbarðs, í hefndarskyni, en Saxi segir, að Haki víkingu hefndi greypilega bræðra sinna, feldi Siggeir konung og eirði hvorki konum né körlum.

Svo lýkur þessari sögu. Tel eg

víst, að hún sé sönn að miklu leyti, þó að hún hafi aukist í munnmælum og lagast í meðförunum. Er það allvel skiljanlegt, hversu fræg hún var og vinsæl um Norðurlönd. Hreysti Hagbarðs og trygð Signýjar, ást, sem er sterkari en dauðinn, það er efni, sem orkar á manns-hugann bæði að fornu og nýju. En það er sérstaklega eitt atriði, sem eg vildi vekja athygli á. Aukaatriði er það og auðsæ fjarstæða, sem síðar hefir verið bætt inn í söguna, tómur skáldskapur, þjóðsagnaskáldskapur, sem einatt þarf að íklæða andlegu öflin einhverri sýnilegri mynd. Það er þetta atvik, að Hagbarður, sem slítur hvert band og snýr í sundur hvern fjötur, hann stendur grafkyrr, eins og hann sé feldur í stokk, óðar en hann kennir hár Signýjar um hendur sínar. Það er ekki styrkleikur bandsins, hárlokksins, sem heldur Hagbarði föstum, heldur andlegt afl, ástin til Signýjar. Gulllokkurinn af höfði hennar er ímynd fegurðar hennar og ástar. Vel og skáldlega valið, og eðlilega um leið. Það er forn og nýr siður, að gefa hárlokk eða geyma til minja um ástvini. Hárið *það* fjötrar hendur kappans og dregur hann til dauða. Lokkur Signýjar verður Hagbarði að helfjötri. Það er ekki hægt að segja það betur, eða gefa því ljósari eða skáldlegri sýnilega mynd, að ástin til Signýjar dregur hann til dauða, kappann, sem annars var ósigrandi. Skáldið sýnir oss hér af annari hálfunni þann sannleik, er vér könnumst við úr mörgum sögum, að ást til konu hefir dregið margan dreng til dauða. Eins og lokkur Signýjar varð Hagbarði að bana, svo varð Helgu þeim Hrafni og Gunnlaugi, Guðrúnar þeim Kjartani og Bolla, Oddnýjar Birni Hítdælakappa. En af hinni hálfunni er hér einnig sýndur ástarinnar undramáttur, hvernig hann sigrar og bindur þann, sem eigi bugast fyrir neinu líkamlegu ofurefli. Sama yrkisefnið, sem mörg skáld hafa haft um hönd, svo sem Jón Thoroddsen í kvæðinu: "Hendir sinn hvatan", og Grímur, eða Rúneberg í kvæðinu um Hrólf sterka á Hofmannafleti, og þykir mér sagan um Signýjarhárið ekki sízt. Þjóðsagnaskáldskapurinn hefir lag á því stundum, að fela svo mikið í einu orði.

Þetta efni er ljúft og fagurt umtalsefni og íhugunar. Svo elska menn og konur með óveikluðu hjarta og óveilum taugum. Það er eitthvað annað en flaðrandi lausungardaður alvörulausra, nautnasjúkra spjátrunga og daðurdrósa. En þetta efni snýr líka huga mínum nokkuð í aðra átt, að efni, sem þarft er að minnast og hugsa um. Það voru fleiri andleg bönd, en ástarböndin, sem forfeður vorir báru virðingu fyrir og vildu ekki slíta, þó að líf þeira lægi við. Það voru öll þau bönd, er sæmd þeirra og drengskapur lögðu á þá. Þeir kusu heldur að láta líf sitt, en að nokkur blettur félli á sæmd þeirra. Mörgum finst frægð og glæsi-

menska fornaldar vorrar einkum fólgin í frækleik, hreysti og íþróttum. Hann er svo glæsilegur, hann Gunnar, er hleypur hæð sína í loft upp í öllum herklæðum og eigi skemmra aftur en fram fyrir sig. Okkur finst til um hann Skarphéðinn, er hleypur tólf álnir yfir Markarfljót milli skara, rennir svo áfram fótskriðu svellið á enda, steðjar á leiðinni yfir skjöld, sem fleygt er fyrir hann, klýfur mann í herðar niður, og þó að átta menn standi fyrir, festir enginn fang á honum. Og þá gleymist seint hann Grettir í Haramsey og sundið hans úr Drangey. Vissulega væri það ánægjulegt og æskilegt, að takast mætti að vekja upp aftur með Íslendingum slíkan manndóm; og alúðarþakklæti eiga þeir menn skilið, sem hafist hafa handa í því skyni nú á dögum og vinna að því sleitulaust, en þeir hafa aldrei verið nema fáir, þessi afarmenni, sem með atgervi sínu varpa frægðarljóma á ættjörð sína, og á líkamlegum yfirburðum einum saman verður sæmd íslenzku þjóðarinnar aldei reist. Það verður ekki heldur nokkur maður sæmdarmaður af líkamsburðum einum saman. Það vissu fornmenn vel, og þá ættum vér ekki að vita það síður. Sæmd þeirra og hvers manns annars fyr og síðar er komin undir drengskap hans, því hugarfari, að vilja hvorki leynt né ljóst fella á sig nokkurn blett. Því fleiri slíka menn, sem íslenzka þjóðin á, bæði heima og heiman, karla og konur, í hverri stétt sem er, því meiri verður sæmd hennar. Það sem einna mest gengur í mín augu hjá íslenzkum gullaldarmönnum, er einmitt þetta, hvað þeir eru hreinlyndir, sannorðir, fastorðir, trúlyndir. Það hefir setið í mér síðan eg var barn einn vísuhelmingur úr rímum; svo mikið fanst mér þá til um orðin. Eg kann ekkert úr þeim rímum annað. Orðin eru þessi: "Betri' eru Hálfdan heitin þín, en handsöl annara manna." Sömu orðin, sem Guðmundur ríki mælti við Hlenna hinn gamla á Saurbæ. "Trúa myndi eg, ef Njáll segði mér, því að það er mælt, að hann ljúgi aldrei," sagði Högni á Hlíðarenda. Þetta þykja mér fegurstu einkenni gullaldarmanna, að heitin þeirra eru betri en handsöl annara manna, og að þeir ljúga aldrei. Aftur á móti slær ekkert eins svörtum skugga á Sturlungaöldina—að eg ekki tali um síðari ómenskualdir—eins og óorðheldnin. Nú er Ísland aftur orðið fullvalda ríki, og hvar stöndum vér nú, synir þess og dætur, í þessu efni? Hvort líkjumst vér um það meir gullaldarmönnum eða hinum? Það er íhugunarefni öllum þeim, sem ant er um Ísland og sæmd Íslendinga. Eg reyni ekki að leysa úr spurningunni. Svipist hver um hjá sér. En eftirtekt mína hefir það vakið, að hvert mannsbarn á landinu að kalla má, man orðin hans Gunnars, er hann sneri aftur: "Fögr er hlíðin svá at aldrei hefir mér hún jafnfögr sýnzt, ok mun ek ríða heim aftr ok fara hvergi." Og þetta er eitt af því, sem gert hefir minningu hans hverjum manni hugljúfa.

Líklega á Jónas sinn þátt í því líka, með kvæðinu sínu, Gunnarshólma. Ef að er gáð, þá er þó þetta eitt af því fáa, sem Gunnar gerði rangt á æfi sinni. Aftur á móti hefi eg varla orðið þess var, að nokkur muni orðin, sem Kolskeggur svaraði, er Gunnar vildi að hann gerði slíkt hið sama. Þið munið, að bróðerni þeirra var svo ástúðlegt sem verða mátti, og vafalaust hefir Kolskeggur verið þess fúsastur að deyja með Gunnari, eins og Illugi með Gretti, en þó svaraði hann þessum orðum: "Hvorki mun ek á þessu níðast ok á engu öðru, er mér er til trúað." Má eg biðja ykkur öll að festa þessi orð í minni? Eg vildi að þau stæðu með ómáanlegu logaletri í hjarta hvers Íslendings, karls og konu. Hver sem getur sagt þau með sanni, eins og Kolskeggur, hann er ekki síður sæmdarmaður en Gunnar á Hlíðarenda, hversu mikið sem hann skortir við hann um afl og frækni. Það væri gaman, að sem flestir Íslendingar gætu stokkið hæð sína, eins og Gunnar, og enn þá meira gaman, að þeir litu allir ættjörð sína og átthaga sömu ástaraugunum og hann, er hann sneri aftur, en allra ánægjulegast væri þó, að sem flestir gætu tekið sér með sanni í munn orðin hans Kolskeggs: Hvorki mun eg á þessu níðast og á engu öðru, er mér er til trúað. Og gáið nú vel að einu: Hvorttveggja það sem prýðir Gunnar, er að meira leyti eða minna ósjálfrátt, en það, sem prýðir Kolskegg, er hverjum manni sjálfrátt. Þá sæmd getur hvert ykkar átt og geymt til grafar, ef viljinn er til, nógu sterkur og einbeittur. Það er gaman fyrir ungan mann, að vinna Grettisbeltið, heita glímukappi og sundkongur, en hvað er það á móti þeirri sæmd, að bera þann orðstír hjá öllum er þekkja: Ef *hann* segir það, þá er nóg; heitin hans eru betri en handsöl annara manna, eða vita með sjálfum sér: Eg hefi aldrei á neinu níðst, er mér hefir verið til trúað, hvorki í smáu né stóru. Eg vildi óska, að íþróttamenn vorir og ungmennafélög bæru þetta merki ekki lægra né minna fyrir brjósti en íþróttirnar. Það á vel saman, hreysti og drengskapur. Og þegar hver ungur Íslendingur ber það með réttu, þá tel eg vel séð fyrir sæmd þjóðarinnar, hvað sem öllu öðru líður. Ungur maður, sem það merki ber, er eitt hið fegursta, sem eg þekki. Ungur maður, sem lofar í dag og svíkur á morgun; ungur maður, sem skrökvar hvenær sem honum ræður svo við að horfa; ungur maður, sem hefir þegar vanið menn af að trúa sér til nokkurs orðs, er ein sú aumasta hrygðarmynd, sem eg þekki. Vitið þið, að það er sagt að slíkum mönnum hafi farið hér fjölgandi á síðustu árum? Viljið þið taka þar í taumana? Viljið þið bera þau orð héðan og grafa þau í hjörtu yngri manna og eldri, að slíkt háttalag er svívirðing. Hver sem það iðkar, setur svartan blett á sæmd ættjarðar sinnar og þjóðar um leið og hann glatar sinni. Eg hefi heyrt sagt um Magyara í Ungverjalandi, að þegar

einhver rengdi þá, væri svarið: Eg er Magyar. Það væri gaman, að mega segja í sömu merkingu: Eg er Íslendingur. Viljið þið stuðla að því, hver um sig, að Íslendingar fái það orð á sig bæði heima og heiman, að þeir ljúgi aldrei, níðist aldrei á því, sem þeim er til trúað, heitin þeirra séu betri en handsöl annara manna? Gaman væri þá að vera Íslendingur.

Það eru mörg bönd og hömlur, sem á oss liggja. Það er tamt Íslendingum og ættgengt, að una illa böndum. Þau eru mörg, sem mega slitna. Guð gefi oss sem flestum Hagbarðsafl til að slíta þau, sem slitna þurfa; þau, sem á oss eru lögð illu heilli. En sum eru líka heilög og ómissandi. Þar á meðal þau, sem þú hefir lagt á þig sjálfur með orði þínu. Drengskapur þinn liggur við, að þú rækir þau, og drengskap þinn, sæmd þína, áttu

eigi að eins að meta meira en
heldur meira en lífið sjálft. Þ
var ekki sterkt eða ægilegt ba
hárlokkurinn, sem hendur Ha
barðs voru bundnar með. Þ
virðist eigi heldur sterkt né æ
legt þetta band, sem þú leggur
þig með orði þínu. Það er hæ
að slíta það. Það er mjúkt og sm
gert eins og konuhár. Það verð
meira að segja að fara varle
með það, svo að það slitni ek
Það er svo hægt að lofa einhver
borgun eða vinnu, í ákveðinn tím
og fást svo ekki um það frama
Það er hægt að lofa, að drek
aldrei vín, en þiggja það svo
laumi, þegar það býðst. Það
hægt að lofa þessum eða þessa
æfitrygðum í dag, og svo anna
eða öðrum á morgun. Já, það
veikt þetta band, auðgert að sl
það, en það er nú samt sterkas
bandið sem til er á hvern sanna
sæmdarmann. Það er Signýja
hárið, sem hann aldrei slítur.



# Afi og amma.

Eftir **Stephan G. Stephansson.**

I. Stóð eg við dauðra-dal —
Sveipaði húm og hljóðleikinn
Heillar aldar grafreitinn —
Kveldsól skýja-skör sig fal,
Skein svo milli, fjar-hnígin,
Yfir varða tuga-tal,
Eða véin vallgróin.

Fann eg, í myrkri muna
Míns, í skyndi funa
Löngu-máðar minningar.
Eins og úti stöddum hal
Aringlóð í skuggsjánni á vegnum
Virðist rjúka í röstum í rökkvuðum sal,
Gægist hann gegnum
Gluggann sinn
Inn.

II. Hver er hér í hljóði að sýsla?
Hefir nóttin raust, að hvísla?
Hljóðmál læðist krókinn kringum
Keypta handa útlendingum.

Þeirrar ættar þriðji hringur,
Yfir moldum mey þar syngur!
Af því húmsins alkyrð þegir,
Þögull nem eg það hún segir.

III. "Amman mín og afinn
Eru hérna grafin
Hvort við annars hlið.
Barnið þeirra beggja!
Bljúgt við rekkju-stokkinn,
Gróna, grasi sokkinn,
Ekki, að sveita-sið,
Sín er upprætt blóm að leggja
Fölv á þeirra frið,
Né að kveina — en kannast við!

Eg í æsku-stríði,
Oft til þeirra flýði,

Þegar sorg og sorti
Sveipaði götur mínar.
Skyldari þegar skorti
Skyn um raunir mínar,
Þrek og þrárnar mínar,
Þar var þá mitt "heim,"
Annað alt fanst mist!

Vissu þau, að þeim
Sem veitir guð sitt goðorð,
Gefur hann sín boðorð,
Að meitla í bálhert bergspjöldin — en
brjóta þau öll fyrst?

Hvítnaði und hárum gráum
Hýra í augum bláum,
Eins og heiði hlýtt.
Geisluðu andlit aldin
Útum blæju-faldinn
Sem við sinn guð hefðu
Samtal hafið nýtt,
Og á tindum tefðu
Tilvonaða landsins,
Lúða landnámsmannsins,
Sem langt væri til — frítt.
Hjöluðu af mjúkri mildi
Mál, sem eg ei skildi,
Þjóðmál þíðra kvæða
Þeirra er við drottinn ræða.

En, sáu þau fram úr sinna
Seinni niðja — og hinna —
Hörmung herleiðinga,
Hlutfall útlendinga.
Júða, í járnin leidda,
Jórsalina eydda?
Sáu þau Síons-hlið,
Sáu þau lengra en við?"

29-10.-'22.

---

# Galílearnir.

Eftir **Stephan G. Stephansson.**

Gremst mér títt, hve öld mín óðamálga
Óhlutsamri vinnur gleði-tjón

Rósemd minni. Í sögu eða sjón,
Keyrir hana að krossi eða gálga,
Þeirra er lét hún særa eða sálga.

Eigingirnis áframkapp og stritið,
Yfir slóðir ræningjanna þvert
Liggur úti, blóðrisa og bert,
Rúð og táð, með þrek til þrota slitið.
Rasað sjálft um ránfengsemis-vitið.

Grípa sé til als sem eyðir, meiðir,
Illúð stælta, að kúgaranna völd
Hreppi blóðug sinna synda gjöld.
Vonzkan máttar-meiri á kné sín neyðir
Samkvæmt lögum, hana að höggstokk leiðir.

Vakna þá í veru minni, og kíta,
Vitund mín og hróp um hvað til dró.
Deila þeirra raskar minni ró,
Sem ei vilji samvizkan mín hlýta
Saka-dómi sjálfskapaðra víta.

Funar þá upp fyrrum sagða orðið:
"Frömdu engan saknæmari en
Aðrir, glæp, þeir Galíleu-menn,
Þó þeir hafi þessu fyrir vorðið."
Sjálfir erum meðsekir um morðið.

5- 11.- '22.

---

# Lengstlafandi lauf.

Eftir Stephan G. Stephansson.

— þráður úr "The Last Leaf," kvæði eftir
Oliver Wendell Holmes —

---

Hangir það enn, það hrör! á þöll.
Hin eru löngu fallin öll —
Loka-laust
Lifði það yfir alt sitt kyn
Og sig sjálft. Því laufin hin
Hnigu í haust.

Saman kemur þar-um þjóð,
Þegar í broddi lífs það stóð
Grózku grænt,

Frost og storma þoldi það.
Því í skógnum ekkert blað
Var svo vænt.

Skorpið upp við skúr og snæ
Skelfur það nú í hverjum blæ,
Bleikt og blátt.
Nöldrar: "Af sem áður var!
Allir mínir félagar
Liggja lágt."

Votur mosinn vex nú að
Vörum sem að kysti það,
Fögrum fyr,
Nástrá hrunin nið'rá fold,
— Nöfnin þeirra, aska og mold —
Köld og kyr.

Lang-amma mín, sem það sá
— Sannorð kona, en löngu frá —
Svo hefir sagt:
"Hvergi fyrir-fundið hef'
Fegri höku og konga-nef,
Laufi lagt."

Nú, ef gola hleypur hjá,
Hjakkar það sínum kviststaf á
Skjögur-skekt.
Er sem, tognuð út um skref,
Oddum spyrnist haka og nef,
Nædd í nekt.

Mér finst hálfgert hneyxli í,
Hér að standa og kýma að því.
Verst því vart
Bað-kúfur þess! börðin kring
Beygluð upp í þríhyrning
Skoplegt skart!

Verði eg eftir-legu lauf
Liðins árs, er skógar-klauf
Blöðum býst,
Svo sem eg, að hnjósknum hér
Hendi gaman, slíkt skal mér
Verðugt víst.

14-11-'22.

# Sjúkrahrjúkun og lækningar forfeðra vorra.

Eftir Steingrím lækni Matthíasson.

I.

Eg hefi áður í tveimur*) rit-
jörðum lýst í aðaldráttum lækn-
ngum og sjúkrahjúkrun á Íslandi
ım fyrstu aldirnar, eða fram á 13.
ıld.

Hvað er svo að segja um aldirn-
ır þar á eftir?

Framfarir í læknislist og sjúkra-
ıjálp voru hægfara hjá okkur eins
ɔg öðrum þjóðum á miðöldunum
ɔg alla leið fram að lokum síðustu
ıldar. Og langt frá því voru ætíð
ramfarir, þó ný lyf og nýjar lækn-
nga aðferðir ryddu sér til rúms
ftir útlendri tízku. Margt af því,
em komst í hátt gengi, sem lækn-
slyf, eins og t.d. saurindi ýmsra
lýra, gall, keita o. fl., var sannar-
ega engin framför frá dýrlinga-
eifum og bænalestri. Og heldur
kki geta blóðtökurnar og alt stól-
pípufaraldrið á 18. öld talist í
ıotagildi að hafa tekið fram á-
ıeitum á helga menn eins og Jón,
Guðmund og Þorlák.

Fátt er skráð um lækningar og
ıjúkrun í gullaldarritum vorum;
ɔó er enn færra um heimildarrit
ɔar að lútandi fram að siðbótar-
íma. Má þó vel vera, að framan
ıf hafi góðir náttúrulæknar fetað
fótspor *Rafns Sveinbjarnarson-
ar* á Eyri. Einnig er trúlegt, að
kvenskörungar hafi fylgt dæmi
*Halldóru konu* Vígaglúms.

Nöfn þessara tveggja mannvina, Rafns og Halldóru, "lýsa sem leiftur um nótt, langt fram á horfinni öld". Um Rafn er sérstakur þáttur í Biskupasögunum, nokkuð ítarlegur. Um Halldóru er sagan fáorð, en gagnorð. Í Vígaglúmssögu stendur: "Halldóra kvaddi konur með sér, "*ok skulum vér binda sár þeirra manna sem lífvænir eru ór hvárra liði sem er.*" Síðan batt hún um sár mjög alvarlegt, er Glúmur maður hennar hafði veitt einum mótstöðumanna sinna, svo að hann varð græddur. Orð Halldóru "*ór hvárra liði sem er*" marka spor mannúðar í sömu átt og mörgum öldum seinna voru stigin er Henry Dunant fékk stofnað Rauða Krossinn.

Meðan katólskan sat á veldisstóli hér á landi, var lengi fram eftir ekki öðrum lækningum til að dreifa en yfirsöngum klerka, notkun dýrlingaleifa og áheitum á helga menn. Vatn úr vígðum brunnum Guðmundar góða gafst mörgum vel bæði innvortis og útvortis. Og er það engin furða, því ætíð mun hreint og blákalt lindarvatn taka öllum lyfjum langt fram að heilnæmi. Furðulegra er, að fúlt, innistaðið og moðvolgt beinavatn hinna góðu og helgu biskupa skyldi reynast nothæft til lækn-

*) Skírnir 1919, 3. hefti: Lækningar fornmanna. — Eimreiðin 1922, 1. hefti: Jón helgi.

inga. Þó má það til sanns vegar færast, því auk þess sem trúin hjálpaði, gat hinn rammfúli drykkur valdið uppsölu og jafnvel niðurgangi og þannig hjálpað við ýmsum iðrameinum.

Auk hinna innlendu dýrlingaleifa voru á biskupastólunum útlendar gersemar, svo sem bein og helgir dómar. Og sjálfsagt hafa efnaðir landar, sem fóru utan, oft haft slíka hluti meðferðis úr utanferðinni. Því, þá gekk slíkt kaupum og sölum, ekki einasta í lækningaskyni, heldur til að varna hverskonar böli, svo sem eldsvoða, þjófum, illviðrum, óáran o. fl.

Til allra svaðilfara þótti vissara að hafa á sér einhverja verndargripi. Menn létu sauma inn í fatnað sinn líkkistuflísar, beinagnir og mold úr dýrlingagröfum. Óhlutvandir menn gerðu sér þessa trú fólksins að féþúfu. Það er t.d. í frásögur fært, að á Frakklandi hafi um sama leyti verið á boðstólum þrjár þyrnikórónur Krists, sín á hverjum stað.

Það var ekki horft í skildinginn til að eignast önnur eins hnoss og t.d. flís úr krossinum frá Golgata, eða blóðdropa úr síðusárinu, eða rifrildi af njarðarvettinum, sem bleyttur var í ediki, eða dropa af brjóstamjólk Maríu meyjar o. s. frv. Slíkt og þvílíkt þóttu vera mestu veltiþing, til ýmsra hluta nytsamleg. Má telja sennilegt, að margt þess konar hafi einnig kunnað að slæðast hingað til lands. (Sjá Gustav Bang: Europas Kulturhistorie).

Smátt og smátt læddist hin
ýmislegt fróðleiksrusl um hin
þessi lyf og lækningaráð, sem
ið var að nota erlendis. Og alþ
hér sýndi sömu viðleitni og a
arsstaðar í því, að reyna að p
alla hluti til að hjálpa í viðlög
gegn sjúkdómum og dauða.
ekki var hægt að útvega sö
hlutina og erlendis tíðkuðust
var í þess stað prófað það sem
ast var og til var í landinu sjá
Þannig segir sagan, að í s
*asnataðsins,* sem mjög var n
til lækninga á Suðurlöndum, h
hér eins og víðar á Norðurlönd
verið notaður hvítur *hundas*
Var það lækningalyf lengi í há
um haft og þótti gefast allvel
hinum margvíslegustu ma
meinum. Um að mikið hafi v
brúkað af þessu góðgæti ber g
vísuparturinn vitni:

"apótekið íslenzka
eilífur hundsrassinn."

## II.

Um alla sjúkrahjúkrun íslen
fyr á öldum er hægt að vera st
orður. Æfðar hjúkrunark
og verulegir spítalar þekkjast e
fyr en á síðasta mannsaldri.

Af hálfu hins opinbera voru
vísu settir á stofn hinir svonefn
*holdsveikraspítalar* á 17. öld,
þeir gátu naumast borið það n
með réttu. Híbýlin voru ve
lega bæir eins og þá tíðkuðust
hjúkrunin engu betri, nema ef
vill lakari, en sú er sjúklingar
höfðu átt við að búa á heimil
sínum. Samkvæmt *instrúx* þe
sem gefinn var um þessar sto

ıir, virðist hirðing sjúklinganna ıfa verið mjög bágborin og í ıuninni voru þetta að eins einıgrunarstaðir, þar sem sjúklingıum var ætlað að deyja öðrum að einlitlu. Það var þó eitt ákvæðí nefndum instrúx eða reglujörð, að strompur skyldi vera á ıðstofunni svo að "reykur sá og ıddi, sem stígur upp frá sjúklingıum geti leitað þar út um", en ıð er þó tekið fram, að það sé jört, ekki vegna sjúklinganna álfra, heldur vegna þeirra, sem jónuðu þeim, svo að þeim yrði ður flökurt.

Meðal kaþólskra í öðrum löndn höfðu frá fornu fari bæði ýmsr nunnureglur og t. d. Jóhannesrriddarar haft sjúkrahjúkrun eð höndum. Þó sú hjúkrun væri nnar tíðar barn og væri oft aðırðalítil og aðallega bænaþjónıta, þá var hún sannarlega betri ı engin og sumar nunnur máttu 't kallast hreinir líknarenglar.

Það kann að vera, að hér á landi ıfi sumir munkar og nunnur ıngið vel fram í að hlynna að úklingum, en um það hefi eg ekki ð neitt í ritum frá þeim tíma. unkar vorir voru iðnir að rita ; þeim eigum við alls konar gnafróðleik að þakka. En þeir tuðu lítið um sjálfa sig. Þeir tu einu sinni ekki nafns síns getsem höfunda ritverka sinna, og það meiri hæverska, en nú tíðkıt. Þess vegna vitum við alt of ið um marga ágætismenn, og austursaga vor er hulin mestu ku.

Þegar Svartidauði gekk og Plágan síðari, er þess getið um nunnurnar í Kirkjubæ á Síðu, að þær urðu sjálfar að mjólka búfénaðinn og fórst óhönduglega, því þær voru lítt vanar því starfi. En ekki er getið um, að þær hafi stundað sjúka. Hvað gerðu þá blessaðar nunnurnar? Manni liggur næst að halda, að allur tíminn hafi gengið til bænaiðkana eða að þær hafi yfirleitt hagað sér líkt og "ein kvinna í Lisbóns stórum stad", sem Gröndal kveður um:

> stilt var með geðið afmarkad
> í froomum fíjtons anda
> Lofaðe Drottenn dag og kvöld
> og dimma noott með fijn áhöld
> og söngva sætt nam vanda.

Þó skal eg ekki fullyrða um þetta, því vera kann, að eitthvað finnist meira um nunnur vorar skráð; en í sögu Klaustranna á Íslandi eftir Janus prófast Jónsson, er ekkert að finna þessu aðlútandi (Tímarit Bókmentafélagsins 1887). Húsmæður og vinnukonur hafa því að fornu fari og fram til þessa verið næstum eina hjúkrunarliðið hér á landi og hjúkrað sjúklingum heima fyrir eftir beztu föngum.

Kvenskörungar, eins og Halldóra kona Vígaglúms, lögðu fram liðsinni sitt þegaı mest á reið á vígvöllunum fyrrum. Ef til vill hefir þá stundum hér, líkt og í Noregi, myndast vísir til hermanna spítala, sbr. frásöguna í Fóstbræðrasögu um skemmuna á Stiklastöðum, þar sem særðum mönnum var hjúkrað. Kona var þar, sem veitti mönnum læknishjálp. Hún velgdi vatn í katli, "til að fægja sárin", og Þormóði

Kolbrúnarskáldi gaf hún *lauk-graut* að eta til að forvitnast um hve hættulegt væri sár hans, "því at kendi af laukinum ef á hol var." En hann þáði ekki grautinn eins og kunnugt er. "Ekki hef ek grassótt" mælti Þormóður.

Snemma munu menn hafa tekið upp á því að nota hvera og laugar eitthvað til lækninga. Ætla má, að Snorralaug í Reykholti hafi í þeim tilgangi verið notuð. Blefken getur í ferðabók sinni 1613 um heita laug nálægt Þjórsárholti, sem notuð var til lækninga. Í Klofa og Þjórsárholti voru notuð þurraböð um langan tíma, eftir því sem Bjarni Pálsson landlæknir segir frá, og munu þess háttar lækningar máske víðar hafa verið tíðkaðar. (Sjá Landafræðissögu Þorv. Thoroddsens). Annars er fátt í frásögur fært um nokkra heilsustaði fyrir almenning.

III.

Sáralækningar voru á mjög lágu stigi á miðöldunum. Líkskurður var bannaður og krufning. Þess vegna fékst lítil þekking á bygg-ingu mannslíkamans. Læknisfræði Grikkja og Rómverja, sem staðið hafði í blóma, var fallin í gleymsku, þar til Arabarnir fluttu þau fræði aftur til Vesturlanda.

Sáralæknar voru flestir lítt mentaðir og fór oftast saman að vera *rakari* og *læknir*. Voru þeir kallaðir *bartskerar* (bart þýðir skegg), og þess konar læknar veittu særðum mönnum hjálp í hernaði. Svíar kölluðu þá *felt-skera*, eins og margir kannast við, sem lesið hafa sögur Z. Topeliusar frá 30 ára stríðinu. En ma
bartskerar fengu mikla æfing
lærði hver af öðrum. Urðu s
leiknir í ýmsum aðgerðum
og t. d. að taka limi af mönn
skera í ígerðir og gera við k
slit. Ferðuðust þeir þá u
fóru til ýmsra landa, höfðu g
tekjur og fór mikið orð af su

Þegar þeim tókst sérleg
hækkuðu þeir í tigninni og
kallaðir doktorar eða meist
Var það einkum, ef þeim hafði
ist að lækna tigna menn, kon
og drotningar. Sumir höfðu
einkum á hendi, að skera
meinsemdir og gera við kvi
(kallaðir *bruchschneiders* á þý
bruch=d. brok=kviðslit). V
þess tekið, hvað sumir voru h
fljótir. Þeir voru klæddir í
hempu og grúfðu með upphn
kápunni yfir sjúklingnum m
aðgerðin fór fram, til þess
aðrir ekki sæju aðferðina, er
notuðu. Hundur fylgdi þei
var til taks að gleypa æxlið
annað, sem burt var skorið
holdi, og fór venjulega saman
óperatíónin var á enda kljáð j
snemma og heyrðist skella í sk
um hundsins.

Á skipum Hamborgar - k
manna komu stundum barts
ar*) þýzkir hingað til lands og
það hinir fyrstu æfðir sáralæk
sem hér fara sögur af. Þe
kom from á 16. öld, dvöldu
oft hér um tíma og þess
dæmi, að þeir settust að fyrir
og alt, eins og enski bartske

*) Sjá Jón Aðils: Saga Einokunar og Þorv. Thorddsen: Landfræðisaga.

ilhj. Vilhjálmsson, sem lengi bjó Forsæludal (d. 1644). Um þessr mundir var orðið bartskeri búað ná hefð sem alment nafn á eknum. (Á það bendir eitt sálmsers frá þeim tímum: Drottinn, artskerinn blíði, bið eg þú hjálpir ér, særður af syndastríði, sannga allur er.)

Góða hugmynd um *bartskera* og eirra kunnáttu má fá í Æfisögu óns Indíafara. Þegar Jón dvaldi Kaupmannahöfn (1618) kom angað einn af þessum frægu erðadoktorum og lýsir Jón honm þannig:

"Hann sló upp þremur tjaldbúðum á aðarins torgi. Þar stóðu á hyllum argir baukar með allrahanda dýrmæt nyrsl og læknislist við allskonar meinmdum.

Bæði kóngadætur, hertogar, greifar, almenn, borgarar og bændur, þeirra syni þénara hafði þessi doktor af öllum einsemdum innvortis og útvortis læk, hverja hann hafði uppskorið og með num meistaradóm mjúklega á ýmsan itt viðurhöndlað. Þar uppá hafði hann éf til bevísningar af sérhverjum, með angandi innsiglum og við hvert bréf ékk sú meinsemd hörð *(þurkuð)*, er ann af sérhverjum manni hafði með list tekið.

Eitt stykki sá eg hann með skyndi ra við eina konu við Hábrú um kveld. ún hafði eina vonda tönn, af hverri in leið stórt ónæði, hörmung og neyð. . . Strax upplauk hann sínum smyrslaokk, reið á hennar kinnvanga og gnýði ist með sínum handarjaðri, tók eina la pípu víða og setti hana tanna á milli skipaði henni í hana að blása hið rðasta sem orkaði. Og nær hún svo rði, féll sú vonda tönn úr hennar unni í gegn um pípuna án nokkurrar alar eður tilfinnandi verkjar."

Seinna í bókinni er nákvæm lýsing á slysi, er Jón sjálfur varð fyrir og sýnir vel, hversu kvalafull var öll sáralækning í þá daga. Hendur Jóns höfðu lemstrast við fallbyssusprengingu. Greinir hann vel frá, hversu bartskerinn Arntz þurfti hann að kvelja. Voru 6 menn fengnir til að liggja ofan á Jóni meðan gert var við sárið og sársaukinn var mikill.

"'Þar sem læknirinn þurfti með knípu-töng að sundurbrjóta fingurnar og með járnum liðina út að taka og plokka það brenda skinn, með lítt beittum járnum í sundur sagla og inn í hendina milli sérhvers fingurs og liðar með margslags járnum að leita, einkum þær tréflísar út að höndla er hann sagði yfir 300 vera mundi."

## IV.

Útlendu bartskerarnir á 16. öld vöktu ýmsa lærða menn hér á landi til að fara að kynna sér það sem erlendis var ritað um lækningar. Sá fróðleikur var þá lítið eða ekki farinn að berast hingað. Í Skálholti og á Hólum lærðu menn til prests. Þeir er vildu komast lengra og verða biskupar eða sýslumenn, sigldu til háskólans í Kaupmannahöfn.

Læknisembætti voru engin á landinu, svo að ekki borgaði sig að stunda læknisfræði við háskólann. En þörfin á læknishjálp var mikil, þá eins og ætíð. Þess vegna fóru ýmsir áhugasamir embættismenn að kynna sér útlend lækningarit og nú tók hver af öðrum að snúa á íslenzku dönskum lækningabókum. Sumir urðu fyrir lestur slíkra rita allvel að sér og reyndust alþýðu vel. Má þar til

nefna fyrstan *Kristján Villatsson* skólameistara í Skálholti og seinna nokkru prest. Hann þótti fyrirtaks læknir og var sá er fyrstur samdi lækningabók 1536 eftir útlendum heimildum. Annar merkur alþýðulæknir var séra *Oddur Oddsson* á Reynivöllum (d. 1649). Hann var einnig mikill tónfræðingur og á íslenzkur kirkjusöngur honum að þakka brautryðjandi starf við að útbreiða fögur útlend sálmalög. Það er sagt, að séra Oddi hafi fyrstum tekist að lækna sárasótt með drykkjum. Halda menn, að það hafi veri *sýfilés*, en sú leiða veiki gekk þá sem faraldur hér eins og víðar. Hjá séra Oddi lærði *Jón Sigurðsson bartskeri* í Káranesi í Kjós (d. 1670). Varð Jón þessi mjög vel kyntur fyrir lækningar sínar. Sézt það bezt á erfiljóðum, sem Hallgrímur Pétursson orti eftir hann látinn. Í þeim er þetta:

"Bartskeradæmis mjúkleg ment
mörgum framar var honum lént.
Guðs er sú gáfan hreina.
Alúð því lagði á það víst,
ómak og kostnað sparði sízt,
svo má þar satt um greina.

— — Komu því oft til Káraness
kvillaðir menn og víst mun þess
minst verða lengi víða;
lækninga gaf þar ljúfleg ráð
lukkaðist vel fyrir herrans náð
margur síns misti kvíða —

Af læknisfróðum klerkum má nefna þá *Þorkel* og *Þórð Vídalín*, *Þórð Jónsson* í Hítardal og séra *Jón Guðmundsson* í Stærraárskógi (d. 1696). Séra Jón þessi ritaði reglur fyrir yfirsetukonur. *Brynjólfur Sveinsson* biskup sneri riti um kvensjúkdóma og barna ferð, en stærstu lækningabókin þá sem um langan aldur var notuð hér á landi samdi *Jón sý maður Magnússon* (d. 1738). tíðkaðist einnig að lærðir m færðu í rím eða ljóð sína kunn í læknisfræðum sem öðru. Þa urðu til *Þórðarrím, Gísla Oddsrím* o. fl., og mun alþýða hafa ausið úr þeim lindum þe á lá. Kendi margra grasa í v þessum. T. d. er í Þórðarr bæði talað um 4 tempera mannsins, böð og blóðtökur, l isdrykki, púrgatíur, heilsu og heilsuteikn og um teikn sem l ar "plaga að taka af mann þvagi; en þar að auk er þar m um himintungl og stjörnun og samband ýmsra líkamsp við þau. (Sjá Þorv. Thorod Landfræðissaga, passim).

Sem dæmi þess hve menta 17. aldarinnar trúðu ýmsum urvitnum sem ábyggilegum indum, má nefna, að sjálfur H grímur Pétursson fann sig k an til að snúa útlendri rit "Um að sjá á augunum, þ stúlkur fallerast." Þegar svo um greindustu menn, má nærri hve ósoðinn fróðleik a an gleypti sem heilagan s leika. Þykir oss, sem nú lifu þykjumst af vorrar aldar vísd margt vera broslegt að le fræðiritum þessara tíma. A andi er þó, að við megum b við, að eins muni seinni alda slóðir brosa að ýmsu, sem o nú finst vera óhrekjandi og g fróð vísindi.

V.

Lækningaritin, sem fræðimenn 16. og 17. aldarinnar þýddu fyrir fólkið, voru afskrifuð í fjöldamörgum handritum og gengu mann frá manni. Þóttu þau venjulega þess merkari og ábyggilegri, sem þau voru orðin eldri og ólæsilegri. Þeirra margvíslegu leiðbeiningar voru oftast eina athvarf fólksins, þegar slys og sjúkdóma bar að höndum, alla leið fram um miðja síðastliðna öld og jafnvel lengur. 1760 var fyrsta læknisembættið stofnað, er *Bjarni Pálsson* varð landlæknir. Seinna komu fjórðungslæknar og smámsaman fjölgaði lærðum læknum í landinu, en þó fyrst verulega eftir að læknaskólinn var stofnaður 1876 fyrir forgöngu Jóns Hjaltalíns landlæknis. Fram að þeim tíma, varð alþýða mestmegnis að hlýta ráðum ólærðra lækna og blóðtökumanna, en þeir höfðu sótt alla sína kunnáttu í hinar gömlu lækningaskruddur. Og svo rótgróin var trúin á þessar vísdómsbækur, að lengi áttu lærðu læknarnir í stöðugu þrefi við fólkið út af því, að það hélt dauðahaldi í gömlu kreddurnar, og treysti betur skruddulærðum skottulæknum en jafnvel háskólagengnum doktorum.

*Bjarni Pálsson, Sveinn Pálsson, Jón Sveinsson, Jón Pétursson* og *Oddur Hjaltalín* reyndu hver fram af öðrum að fræða alþýðu um háttalag sjúkdóma og skynsamleg lækningaráð. Lækningabók Jóns Péturssonar bar t.d. eins og gull af eiri af gömlu skruddunum. En fólkið sat lengi við sinn keip, og treysti betur fornum fræðum, alt þangað til um 1860, er önnur fræði engu viturlegri, en að vísu meinlausari, komu til sögunnar með *homoeopatiunni*. Það sem lærðu læknunum ekki tókst, það tókst þeim séra *Þorsteini Pálssyni* á Hálsi og séra *Magnúsi Jónssyni* á Grenjaðarstað, en þeir innleiddu fyrstir hér á landi hinar leyndardómsfullu smáskamtalækningar. Homoeopatian komst um tíma svo mjög til vegs og valda meðal alþýðu, að ekki einungis gleymdist trúin á blóðtökur og gömlu skruddukreddurnar, heldur dofnaði um stund traustið á skólalærðum læknum. Þeirra stórskamtalækningar voru af mörgum leikmönnum taldar ganga eiturbyrlun næst. Þá voru sáralækningar enn mjög ófullkomnar, þóttu mjög kvalafullar, og gáfust oft misjafnlega. Fólkinu var því nokkur vorkunn, þó það tæki homoeopatíunni feginshendi. Sú lækningaraðferð, þó vitlítil væri, (að því leyti að hún var með öllu á röngum rökum bygð) vann áreiðanlega miklu minna tjón en margar gömlu lækningaaðferðirnar, bæði lærðra jafnt sem ólærðra lækna höfðu gert. Áhrifalausir smáskamtar með þægilegu vínandabragði voru ætíð meinlausir. Það var auðvelt að taka þá inn, og þeir létu í öllu falli náttúruna einráða um að hjálpa sjúklingnum til lífs eða dauða. Hins vegar gátu stórskamtar af bragðillum, daunillum og áhrifamiklum lyfjum eins og t. d. uppsölulyfjum og niðurhreins-

andi lyfjum valdið versnun ýmsra sjúkdóma, og sama var að segja um margar blóðtökurnar, sem viðhafðar voru í tíma og ótíma af litlu viti.

Meðan fátt var um lækna í landinu, var eðlilegt, að ýmsir greindir alþýðumenn, sem fundu köllun hjá sér til þess, reyndu að hjálpa. Skottulæknar voru þeir kallaðir þegar hingað voru komnir embættislæknar, sem ömuðust við að þeir fúskuðu sér í handverkinu. En skottulæknarnir áttu oft betra skilið en að þeir væru uppnefndir og gert gis að þeim, í öllu falli lá hinum lærðu starfsbræðrum þeirra nær að leiðbeina þeim og miðla þeim eitthvað af sínum vísdómi. Margir höfðu að vísu farið lengra í lækningum sínum, en góðu hófi gegndi t. d. sumir blóðtökumennirnir. Var þar vandratað meðalhóf, því fólkinu reið á hjálpinni og gekk ríkt eftir og þeir voru nú einu sinni komnir út á þessa braut að lækna og liðsinna. Þeir höfðu engin ábyggileg rit önnur en gömlu skruddurnar, þeir trúðu þeim hver upp á sína vísu og að öðru leyti á sjálfa sig og sína hepni. Margir þeirra voru löngu búnir að sjá, að gömlu kreddurnar og blóðtökurnar voru fánýtar, en betur þektu þeir ekki. Homoeopatían kom þá eins og kölluð. Það var einföld fræðigrein; dugði venjulega til að byrja með að þekkja fáein lyf og nota þau á víxl við flestum kvillum. Seinna var ætíð hægt að taka upp fleiri. Reglurnar voru afar einfaldar, 1—2 dropar í sykurmola og svo einhver varúð í mat-

aræði, rúmlega eða hvíld frá vi[nnu] eftir því sem á stóð. Þetta v[ar] eitt-hvað óbrotnara, fyrirhafn[ar]minna og áhættuminna en [að] fylgja hinum margbrotnu regl[um] gömlu kerlingabókanna eða ta[ka] marga pela af dýru blóði úr sj[úk]lingunum.

Þegar við lesum ráðlegg[ing]ar, sem gefnar eru við hinum þessum sjúkdómum í 16. og [17.] aldar lækningabókunum, fur[ðar] okkur á tvennu. Fyrst því, hv[e] ig í ósköpunum að nokkrum [hefir] dottið í hug önnur eins end[a]vitleysa og þar er að finna hverri blaðsíðu. Manni finst [höf]undurinn annað hvort hafi h[löt]ið að vera viti sínu fjær eða hafi v[eri]ð að gera að gamni sínu og það á leiðinlegan hátt. Og í öðru l[agi] furðar okkur á, að nokkur sk[yn]... fást til að hlýta öðrum eins ráð[um]. En það er satt, sjúklingar sjúklingar og venjulega hlýð[a] hverju sem einvaldinn skipar ekki spurt um próf og þekkin[gu] þegar mörgum lærðum er ekk[i] að dreifa.

Flettum snöggvast upp í *Pra[xis] medica*, sem Jón sýslum[aður] Magnússon samdi og prentuð 1725. En það lækningarit einna útbreiddast allra, alt fr[am] um miðja 19. öld og sóttu sko[ttu]læknar fróðleik sinn þaðan ei[nna] mest. Fáein dæmi nægja:

Hundsgall er gott við augnveiki
Tóulungu við brjóstveiki
Hundasaur í víni við niðurgangi.
Bjarnargall vindþurkað og mulið tekið í nefið við flogaveiki.
Blautt sauðatað í bakstur við br[jóst]meini.

Arnargall við blindu.
Að drekka sitt eigið þvag á fastandi maga er bezta ráð gegn svartadauða.
Mannasaur volgur, drepinn í léreft og hafður sem plástur, dregur fljótt úr sviða við heimakomu.
Askan af brendum músasaur blönduð sápu, er ágætt smyrsl við geitum.

Þannig er rakin runan af holl-áðum við hverjum sjúkdómnum ftir annan blaðsíðu eftir blað-íðu bókina á enda. (Sjá P. A. Scheisner: Island fra et lægevi-lenskabeligt Standpunkt, Kbh. 849).

"Reynið alt, prófið alt." Lækn-ngabækurnar gömlu sýna það inna bezt, hve trúlega þessu boði oostulans hefir verið fylgt. — Lyfjabúðir voru í gamla daga trjálar og þá þektust ekki þau nörgu handhægu lyf, sem nú eru rðin almenningseign. Þá varð ver að hjálpa sér sem bezt hann at og notast við það sem var næst yrir hendi. Menn reyndu munn-atn sitt til að græða sár, sömu-eiðis hor úr nösum, tárin, eyrna-ierginn (hefir enn orð fyrir græð-ndi kraft meðal alþýðu). Þá var otað þvagið, ýmist nýtt og volgt g ýmist til inntöku eða böðunar, n við þrálátari illkynjaða sjúk-óma dugði ekki nema stæk keita. annig var haldið áfram að prófa lla hluti sem næst voru. Og egar afurðir mannlegs líkama oru reyndir og máske léttvægir undnir, þá var leitað til alidýr-nna, hunda, katta, o.s.frv., og öll eirra innýfli og úrgangsefni rófuð. Síðan var haldið til dýra ierkurinnar og fugla himinsins— urtanna í hlaðvarpa og túni og síðan út um haga og fjöll. Þegar eitt brást, þá var að prófa annað. Og heilsan var mikils virði. Þess vegna ekki horft í kostnað og fyrirhöfn. Gat þó stundum verið erfitt að ná í arnargall eða annað þess konar dýrmæti.

Homoeopata lækningarnar voru áreiðanlega framför frá þessum hindurvitnum og nú breiddist óðfluga út trúin á homoeopata og þeirra afrek. En sú trú fjaraði brátt með vaxandi þekkingu fólksins, fjölgandi læknum og yfirsetukonum, sem gengið höfðu í betri skóla en áður var völ á. Læknisfræðin hafði eftir miðja öldina þroskast og endurskapast hraðari fetum en nokkru sinni áður. *Pasteur, Lister, Virchow, Simpson* o. fl., höfðu flutt heiminum ný sanndindi og gefið læknum nýjan skilning, ný lyf og verkfæri í hendur til hjálpar sjúklingum. Heilbrigð skynsemi og *raunvísindastefna* var komin til valda í stað kerlingakreddna og fimbulfambs.

Til útrýmingar hjátrú og hindurvitnum í lækningum gagnar lítið annað en "tákn og stórmerki", eins og að "blindir fái sýn, haltir gangi og líkþráir hreinsist." Þau tákn og stórmerki fekk fólkið, þegar þeir læknar komu til sögunnar, sem lært höfðu Listers heillavænu varúðaraðferð við skurði og tileinkað sér aðrar merkustu nútímaaðferðir í lækningum. *Björn Magnússon* augnlæknir, *Guðmundarnir þrír, Magnússon, Hannesson* og *Björnsson* og *síðar Sæmundur Bjarnhéðinsson* o. fl. hafa

rótfest meðal alþýðu traustið á læknavísindum vorra tíma og sýnt í verkinu hve mikill er máttur þekkingar og reynslu. En ekki má gleyma því, að hinir ágætu alþýðu fræðarar, landlæknarnir *Hjaltalín* og *Jónassen* voru á undan gengnir til að kveða niður hjátrú og greiða raunvísindastefnunni götu.

Nú eru lærðir læknar orðnir svo margir í landinu, að ólærðra er ekki þörf lengur, enda fer þeim um fækkandi. Það er ýmist of e van. Áður voru skottulæknar of margir. Nú eru lærðu lækna ir að verða það. Af fljótræði fávísi hefir alþingi skift landi mörg læknishéruð. Mörg smá héröðin gefa lækni alt of lítið starfa. Áhuginn dofnar og sá sofnar—eða niðurstaðan verð oft sú, að lærði læknirinn verð skottulæknir og má þá heita seinni villan sé verri en sú fyrri

———o———

# Til brautryðjandans.

Eftir Þorstein Þ. Þorsteinsson.

---

Hvers vegna eitri á brautryðjandann blæstu,
bölormur jarðar? heltönnunum læstu
hold hans og sinar—tættu' hann ögn fyrir ögn!
Veiztu' ei þá hæzt og heimskast djöflar hvæstu
himinsins elding laust þá stundu næstu.
Kyngi hins arga verður glópsku gögn. — —
Sjá! Vortrú há sem himinljósin glæstu
hóf sig úr fjötrum skálmaraldar lægstu
eins og hin fræga feðra guðasögn.
Norræni draumur dýrðarfagri ræztu.
Döggvist vor þjóð á helgilindum tærstu.
Hér á ei grimdin heima—að eins þögn.
Vaknaðu, þjóð, frá smámununum smærstu;
smáríki vera á hugjörð ei á sæztu. —
Hugvizka dulskygn, heiðin spekimögn
drengskapar trúnað tengd og samúð æðstu,
traustið á lífsins mátt í veldi hæztu,
Ísland, þér gáfu heilög himinrögn.

Reykjavík, 1921.

# Melkorka við lœkinn.

Eftir frú Jakobínu Johnson.

---

Féll um fríðar grundir
fjalla-landsins kæra
lækur, tær og léttur; —
— litmynd speglað mæra
lofts og lands hann hafði; —
— landvætti séð fagna
kynstórum og knáum
köppum hetju-sagna.

Heyrt hann hafði vinda
hvísla boðum skjótum.
Fugla er þeir fljúga
"fram að jökul-rótum"
lýsa ljúfu næði
landsins fjalla-dala;
— og við sóley syngja
sólskríkju á bala.

Vor eitt varpar nýrri
virkileiks og blíðu
skærri mynd í skuggsjá:
skín á hina fríðu
ungu móður Ólafs
árdags fagur roði. —
— Er sem unaðs hrifin
augu sveins hún skoði.

Útlæg sér í anda
ættland kært en tapað.
— Þrek og þanka fastann,
þögnin hefir skapað. —
Sanngirni og sátta
sér hún göfug merki;
— ásýnd unga prýðir
arfleifð dýr í verki.

Hljómfagurt og hjartnæmt
hefur mál við sveininn.
— Hörpusláttur hjartans

hefur klofið steininn
mál-leysis og myrkurs
margra þrauta-daga.
— Mælir kæra málið
minningarnar draga

fram á sjónar-sviðið
sælar horfnar myndir.
Dökkar víkja úr vegi
víkinganna syndir.
Soninn skal hún senda
sínum föður kæra,
því skal hann á huldu
hjart-kært málið læra.

"Gleym ei, gleym ei sögu
göfgrar, vitrar þjóðar.
Málið fagra mundu;
— mundu þeirrar slóðar
aldinn kong, er áður
unga dóttur syrgði.
Sýn þú honum sólu
sorg er forðum byrgði."

Aldrei leist þú, lækur,
lands frá bernsku-tíðum
fegri mynd, en móður
mæna augum blíðum
eftir erfða-merki
ættfólks síns — og vonar, —
á svo fríðri ásýnd
uppvaxandi sonar.

Aldrei heyrði hreifða
hjartnæmari strengi
en er mælti móðir,
— mál-laus talin lengi, —
slíku "móður-máli":
"mundu tignar ættir,
hjartkært mál og hörpu; —
— halt þó trygð og sættir."

# Móðir í austri.

Hjáróma raddir milli söngs og sagna.

Eftir Þorstein Þ. Þorsteinsson.

## *I. Ný hjörð.*

Móðir í austri!

Heyrir þú óminn frá vestri?

Eins og þungur brimgnýr frá fjarri strönd flyzt hann gegnum loftið heim til þín.

Það er kliður *miljóna* radda.

Síðasti dagur þjóðbrotanna er sagður fyrir höndum.

Þeir vilja sameina sauði og hafra: innlenda og útlenda— þannig nefnda.

Margar hjarðir og mislitar, frá öllum löndum heims, eru þar saman safnaðar.

Frá þeim berst ómurinn.

Hirðirinn hefir rekið þær saman úr öllum áttum hinnar miklu álfu.

Þær eiga allar að markast undir hið sama, mikla sómamark: stýft í hlust—stýfð af bæði eyru.

Vestrinu er vorkunn þótt markið sé djúpt: mörg eyru eru óþarflega löng.

Það á að verða ein hjörð og einn hirðir, mörg hundruð árum á undan tímanum. — —

Móðir!

Átt þú ekki eitthvað í þessum hóp?

## *II. Deiglan.*

Móðir í austri!

Sér þú eldbjarmann í vestri?

Frumskógarnir eru feldir og kastað í fjallháan köst.

Það er kveikt í honum og logarnir ná til himins.

Í miðju bálinu stendur deiglan mikla.

Í hana henda "útlendingarnir" brotasilfri sínu—gulli og eir.

Koparhnappar, silfurmillur, gullbikarar—alt, alt, alt bráðnar og rennur saman í ógurlegan málmklepp.

Ur honum á hin "nýja" þjóð að smíða nýja gripi eftir þörfum, eðli og lystar — —

Móðir!

Átt þú ekki gersemar, sem bráðna í deiglunni?

## *III. Lögmál lífsins.*

Móðir hinna fáu barna!

Vestrið mikla og volduga þekkir lögmál lífsins og hagnýtir sér það.

Aðkomujurtirnar gróðursetur það í frjómold sinni, innan um aligrös sín, og gefur þeim dögg og ljós.

Áratugirnir varpa á þær yfirbragði Vestursins og nátengja þær náttúru þess.

Þannig merkir það hvern og einn sérkennum sínum — steypir alla í sínum mótum.

Börn allra landa og allra ríkja —með árum.

Þetta er líf þess og vöxtur.

En hina miklu þjóð munaði ekki um, og vissi ei af því, þótt hún gæfi aftur nokkur þúsund til baka, af miljónum sínum, til lítillar smáþjóðar, sem fjórðung sinn hefir burtu látið af þúsundum sínum.

Og þúsundaþjóðinni ætti ekki að standa á sama, hvort sá hluti vex frá henni eða að.

Móðir!

Gæti ei aukning sú orðið þér til blessunar, ef lán fylgdi?

*IV. Gamlar og nýjar sálir.*

Lifandi menn geta ei orðið forngripir, móðir!

Þeir breytast svo mikið og geymast svo illa.

Flateyjarbók geymist líklega óbreytt, sem ómetanlegur dýrgripur, þótt í útlöndum sé, unz eilífðin tær sundur blöð hennar.

Það er eina bótin við missinum.

Rúnasálirnar lifa svona lengi, af því líkami þeirra er svo óbrotinn.

En ef eigendum hinnar miklu bókar kæmi það nýræði í hug að umskapa hana: — afmá upprunaleg orð hennar og setja sína tungu í þeirra stað á blöðin og klæða hana nýmóðins búningi—myndir þú þá ekki vilja frelsa hana dýru verði, og leggja undur mikið í sölurnar að hún glataðist ekki?

Myndu synir þínir á meðan sofa sælum svefni réttlátra?

Sá svefn hefir oft orðið börnum sofendanna hungurvaka.

Og hvað myndi framtíðin segja?

Framtíðin með völdin og dóminn.

En þá væri um seinan að dæma vanrækslusyndir feðranna og iðrast þeirra.

Það yrði engum til nota.

Flateyjarbók sem þjóðargersemin, er útlönd geyma, væri þá glötuð—eins og burtfluttu börnin.

Eins og börnin í æfintýrinu, sem fóru frá móður sinni yfir ána, út í aldingarðinn, og týndust henni þar, sökum þess að hin börnin, sem heima voru, gleymdu að gefa merkið, láta niður brúna og kalla á þau á réttum tíma—sækja þau.

Móðir !

Gæti það ekki komið til mála, að lifandi nútíðarsálir væru ómetanlegar, eins og rúnasálirnar ómetanlegu?

*V. Byltingar.*

Finnurðu krampadrættina, móðir?

Jörðin titrar.

Hún skelfur af angist.

Brotsjóar byltinganna yfirfalla hana.

Börn hennar, sem bygðu musteri sín blindandi, rífa þau að grunni, hvert af öðru—grunninn líka.

Það stendur ekki steinn yfir steini.

Allar flóðlokur himnaríkis eru muldar og fossinn steypist beint ofan í eldvítið forna og drepur hvern einasta neista.

Sálir fordæmdra og réttlátra sækjast á: bróðir móti bróður; systir móti systur; — allir leitandi síns insta eðlis.

Adam er breyttur í skilningstré.

Eva í lífstré.

Hlið við hlið standa þau í Eden.

Blóðelfur heimsins vökva rætur þeirra og hleypa vexti í greinar skilnings og lífs.

Þær ná yfir alla veröldu.

En vöxturinn er ekki beinn né fagur—enn þá.

Og frá neðstu taug til hins efsta blaðs liðast höggormurinn um bæði trén.

Hann er eins langur og eilífðin.

Alt heimsbölið stafar frá þeim ógurlega sannleika, að helvíti var skapað á undan jörð.

Þess vegna varð skilningurinn gallaður og lífið í molum.

En langt fyrir ofan blámóðu loftsins hvílir Jahve smurður dýrðlingur, geymdur efst uppi í líkhvelfing himnanna. — — —

Þjóðirnar eru ærðar orðnar: sumar af sigurglaumi, sumar af heift og hatri, sumar af eymd og niðurlægingu—en allar af græðgi.

Líkamir þeirra eru glepsandi úlfar.

Allir vilja lifa í vellystingum praktuglega—og á annara kostnað—mörg af þínum börnum, sem annara mæðra.

Mangarasálin viðsjála býr í kaupstöðum hundraða þinna og fáu þúsunda, sem í stórborgum *miljónanna.*

Samvizkulausir kaupa-héðnar hafa "snuðað" út íslenzkt drenglyndi, íslenzka sannsögli, þennan æðsta aðal íslenzkrar sálar, og gefið fyrir sorablending svikinnar siðmenningar.

Íslenzka þjóðin hefir látið af hendi mikið af sínum fornu og göfugu dýrgripum fyrir tannbakshringa og tannbaksnálar útlendar.

Viltum örnum og refum hefir fækkað í landinu, en hinir tömdu gægjast út úr mannvirkjum þeim, er menn áttu að byggja.

En þessi ólga frá öldum úthafsins sofnar í sólskini komandi ára, þegar stormurinn úti fyrir er lægður.

Heimurinn skelfur.

Brotöldurnar falla að honum öllu megin.

En undir hinum mikla óðflaumi allra átta, rennur einn aðalstraumur:—þjóðernaelfan.

Þjóðirnar eru að reyna að finna sjálfar sig: sameina skyldleikabrot sín eftir tungu, eðli og ættum, þar sem sami skilningur, sömu velferðarmál, sama ætternisást ræður ríkjum allra meginmála.

Móðir!

Örlög veraldar eru örlög þín.

## *VI. Endurplöntun.*

Hví reynir þú ei, móðir, að safna ungum þínum saman undir vængi þér?

Bíður eigi landið ræktunar og orkulindirnar starfs?

Er eigi þörf á meiri og betri kröftum nýrra aðferða, nýrrar þekkingar og nýs lífs til að bæta björgunar - skilyrði þjóðarinnar: mynda fegri og fleiri lífsvegi?

Geta eigi heimabörn þín veitt burtfluttu börnunum jafnan rétt og betri byrjunarskilyrði en nú á sér stað, með nægu verksviði og svigrúmi, svo þau gætu starfað — létt undir með austurförinni ef þyrfti, sem þeir, er blésu í seglin vestur? — —

Heimfluttu börnin yrðu jurtir,

sem á ný þyrfti að gróðursetja í heimamoldinni, og til þess það mætti takast, þyrfti að nota fyrir þau sérskildan reit — fyrst um sinn.

Sumar mundu þroskast vel— aðrar illa.

En gróðursetningin sú, er starf heimabarnanna, og það verk yrði að vinnast af samúð þeirri og alúð, sem ástin ein og göfugur skilningsþroski hefir yfir að ráða.

## *VII. Svikarinn.*

Móðir!

Heyrir þú sætan róm svikarans sem svíkur þig með kossi?

Sjá! hann gengur í erlendu kauphöllina með gullhörpu Hallgríms prests Péturssonar í annari hendi og silfurklukku Jóns biskups Vídalíns í hinni.

Sjá! hann felur eitthvað undir skikkju sér.

Hann óttast að undirmenn sínir sjái það áður en hann lógar því.

Þessi er sá, er fólk kirkju þinnar smurði með svitadropum sínum, og gaf honum seinasta olíudropann af lampa sínum, svo að hann gæti látið ljósið þitt skína sem skærast.

Hann stendur hjá möngurunum og skiftir á gripunum.

Fyrir gullhörpuna fær hann hljómvél, sem spilar enska valza.

Silfurklukkuna selur hann af hendi gegn uppboðshamri, er nota skal þegar sálir safnaðanna verða seldar.

Flóttalega lítur hann í kring um sig og fálmar með hendinni í barm sér.

Undan skikkju sinni dregur hann fram Ættartanga foringjans fallna og framselur hann.

Á móti fær hann heljarmikla langsög, sem á að fletta sundur þjóðbjörk þinni vestra—að endilöngu.

Þótt sögin sé þung, þá veit hann að þrælshöndin útrétta tekur í hinn endann fúsum flónshuga.

Móðir!

Ormarnir víkkuðu út holur sínar í gær og hlaða upp moldinni í dag.

En út í næturroðanum býr hin eilíf-unga sál morgundagsins, dóttir vors alstjórnanda guðs, og speglar alt í djúpi augna sinna.

Lævísi Loka notaði blinds manns hendur að bana Baldri.

En hver rís glæsilegar upp úr myrkurdjúpi aldanna en hann?

Lævísi höfuðprestanna notaði fégirnd fátæks manns að bana Kristi.

En hver hefir af holdi verið borinn í þennan heim, sem dýrðlegri hefir orðið drottin mannanna en hann?

Móðir!

Þótt guðamáli þínu yrði steypt fyrir ætternisstapa, borið út á hræsibrekkur og vélað eftir refilstigum, þá myndi það æ fegurra upp rísa eins og guðbræðurnir Kristur og Baldur, og endurspeglast í sál morgundagsins.

Sá sem býr þér ormagröf lævísi og svika, móðir, mun falla sjálfur í þá gröf og—aldrei upprísa.

*VIII. Griðland draumanna.*

Móðir í austri!

Nú eru liðnir á annað þúsund dagar síðan einn af ástmögum þínum var kistulagður og vígður moldu Vínlands ins góða.

Tuttugu ár bjó hann hjá þér.

Þrjátíu ár frá þér.

Fyrri árin voru honum kyndlar hinna síðari.

Allir geislar alheimsins stöfuðu annað hvort frá þér eða að, í huga hans.

Þú varst honum æfintýralandið þessa heims og annars.

—Hvað gerir það til, þótt mér finnist útlendingsvistin öfug og yndissmá, mælti hann — svo lengi sem eg á sólskínandi griðland mitt og friðland heima?

—En því þá ekki að sigla sjóinn heim?—var spurt.

Svarið gleymist ei svo gjarnt:

—Eg þori það ekki!

Eg þori ekki að eiga það á hættu að glata úr sál minni eina elskaða blettinum undir sólunni—öllu, sem mér er helgast og hæzt.

Þá fyrst yrði eg fátækur.

Eg ætti þá enga ánægju eftir, ef eg yndi mér ekki þar.

Augu mín geta verið orðin svo haldin hér, að eg þekki ekki aftur land æskuára minna — nema í draumi.

Og svo þyldi eg ekki að vera þar réttlaus útlendingur árum saman, samkvæmt "skoðan" og "lögum" lands og þjóðar.

Það yrði mér ofraun, að verða dæmdur útlendingur á ættjörðinni.

Svo mælti hann, móðir.

*IX. Eitt er nauðsynlegt.*

Það gæti orðið að sannreynd, sem ástmögur þinn sagði—fyrst í stað.

Einnig er það satt, að frá þér virðist vera vaxin, við fyrsta viðlit, helft þess hóps, er vestra býr.

En hver er hjartnanna rannsakari?

Hver þekkir morgundaginn?

Jafnvel upp af gleymdum gröfum getur risið hár reynir og bein björk, sem ber ættarsvipinn tignari en fyr.

Enn er ei loku fyrir hurð skotið.

Enn eru allir Austverjar færir.

Enn eru fæstir djúpmarkaðir, fæstir umsteyptir, fæstir seldir.

Ef von vor á þér, móðir, er nógu fögur, ástin til þín nógu heit, trúin á þig nógu sterk, þá getur íslenzk þjóð búið hér í marga aldatugi.

Sú þjóð, sem ekki vill deyja, mun lifa!

En eitt er nauðsynlegt:—vermandi hugblærinn yfir hafið, sem hlýjar orð og gerðir að heiman og heim.

Hver veit nema "hjartansblærinn" geti að síðustu unnið frostdauðann og hrósað lífssigri; gert kraftaverk framtíðarvorsins á gamalli og yfirstandandi langaföstu vetrarins, og tengt austrið og vestrið sígrænum eilífðarsveig, sem aldrei slitni og aldrei fölni.

Hver veit nema þú finnir Vínland í annað sinn.

Kaupir það með þínum volduga auði, sem enginn nema þú átt til. Finnir það eignist það og haldir því—andlega, móðir í austri!

# Nýársvísur.

*Kveðnar af Guðrúnu Þórðardóttur*
*frá Valshamri.*

1. Ó, þið eðla vinir,
eydrotningar synir,
víknir nú til Vesturheims;
krýnist frelsi og friði,
farsældar á miði,
hverfi hríðin angur eims.

2. Árið okkur kveður
óskum beztu meður,
himinljóma kraftur klár
okkur auðgi og blessi,
ávaxti og hressi,
manna' er græðir mein og sár.

3. Lærdóms ljósið bjarta
lifi í ykkar hjarta,
sem að kveikti sonur Guðs,
lífs á léntum vegi
líkt á nótt og degi,
eyðist myrkur ófögnuðs.

4. Kempur konungbornar,
hvergi hreysti horfnar,
geymið fagurt feðra mál
frelsi undir fríðu,
í frosti og sólarblíðu,
dugur fjörgi fjör og sál.

5. Ef að ama grýlur
ykkur senda pílur
og að berast efnin vönd,
allir um það biðjum
ánauðar úr viðjum
okkur leysi herrans hönd.

6. Ó! þið eðla vinir,
eydrotningar synir,
undir fögrum frelsis krans
standið brynju búnir
burt úr ánauð flúnir,
skrýddir merkjum skaparans.

7. Kristí krónu ljóma
krýnist, æru og sóma,
þessu nýja ári á.
Bræður og blíðar systur,
bið eg herrann Kristur
ykkur veri öllum hjá.



# Erfðaféð.

Eftir J. Magnús Bjarnason.

Mig hafði lengi langað til, að koma til Hónólúlú í Hawaiieyjum. Og loksins fékk eg þá ósk mína uppfylta, því að seint í febrúarmánuði 1911, var eg fluttur veikur þar á land, og lá eg þar á sjúkrahúsi rúmar þrjár vikur. Í fyrstunni hafði eg ætlað alla leið til Pagó-Pagó í Tútúila-ey (í Samó-eyjum) með gufuskipinu *Equator*, sem flutti þangað vörur frá San Francisco; en sökum þess, að eg veiktist þunglega nokkuð eftir að skipið var lagt af stað frá Ameríku, þá fór eg aldrei lengra vestur á Kyrrahafið, en til Hónólúlú.

Eftir að eg var kominn úr sjúkrahúsinu, dvaldi eg enn næstum tvo mánuði í Hónólúlú, og var til húsa hjá ungum prestshjónum, sem komið höfðu frá Portland í Oregon fyrir rúmu ári. Leið mér mjög vel þann tíma, sem eg dvaldi í húsi prestshjónanna, og gekk eg daglega út í hinn fagra skemtigarð borgarinnar, sem nefndur var *Kapíólaní*. — Það er margt til í Hónólúlú, sem hægt er að skemta sér við, því að bærinn hefir á sér stórborgarsnið; þar eru leikhús, bókasöfn, forngripasafn, lystgarðar, strætisvagnar, raflýsing og öll nýjustu menningar-tæki. Og þar að auki er í Hónólúlú frá náttúrunnar hendi svo fagurt útsýni, að óvíða er annað eins. Borgin stendur við hina undurfögru Óahú-vík á hinni frjósömu Óahú-ey í hinum eldgígaríku Hawaii-eyjum.

Það var einn dag, nokkru eftir að eg var farinn úr sjúkrahúsinu, að eg kom inn á eina skrifstofu gufuskipafélagsins, til þess, að sækja tösku, sem mér hafði verið send frá San Francisco. En um leið og eg tók við töskunni, varð eg að skrifa nafn mitt undir móttökuvottorð í bók, sem einn af þjónum félagsins rétti mér. — Þjóninn las nafnið strax, og eg var búinn að skrifa það, virti mig svo fyrir sér fáein augnablik og sagði:

''Þú munt vera af íslenzku bergi brotinn. Eða er ekki svo?''

''Eg er Íslendingur í húð og hár,'' svaraði eg og horfði undrandi á manninn. ''Og ef til vill ert þú líka íslenzkur?''

''Að vissu leyti,'' sagði hann.

''Hvað heitirðu?''

''Eskford,'' sagði hann.

''Ertu fæddur á Íslandi?'' spurði eg.

Hann ætlaði að svara þessari spurningu minni, en rétt í því var kallað á hann að utan.

''Fyrirgefðu,'' sagði hann, og leit til mín sem snöggvast um leið og hann gekk út, ''eg skal tala við þig um þetta síðar.''

Eg beið þarna dálitla stund í þeirri von, að hann kæmi undir eins aftur, en mér var brátt sagt, að hann mundi ekki koma aftur inn

á skrifstofuna, fyr en eftir hálfan klukkutíma eða meir, svo eg fór rakleitt heim í það sinn.

Mér þótti það nokkuð kynlegt, að eg skyldi rekast þarna á Íslending. Mér fanst samt, að þessi maður ekki vera verulega líkur Íslendingum. Hann var á að gizka rúmlega tvítugur að aldri, og meðal maður á vöxt, en hann var fremur dökkur á hörund, og hafði svip og andlitsfall nokkuð öðruvísi en alment á sér stað á meðal norrænna manna. Og allar líkamshreyfingar hans, alt fas hans og öll framkoma benti á það, að hann væri uppalinn í Suðurhafseyjum. Það var einungis nafn hins unga manns, sem helzt virtist gefa það til kynna, að hann væri ættaður af Norðurlöndum, en nafnið gat þó verið skozkt.

Strax næsta dag fór eg aftur yfir á skrifstofu gufuskipafélagsins, og spurði eftir herra Eskford. En hann var þar ekki staddur þá. Mér var sagt, að hann hefði farið til læknis, til þess að láta draga úr sér sjúka tönn. Eg sneri því heim aftur við svo búið. En nokkrum dögum síðar fór eg enn á ný til að spyrja eftir þessum unga Íslending. Og aftur var mér sagt, að hann væri ekki viðlátinn, því að hann hefði þá um morguninn verið sendur suður fyrir borgina og kæmi ekki heim fyr en næsta dag. Eg bað nú um að herra Eskford væri sagt, að eg hefði tvívegis spurt eftir honum; og skrifaði eg nafn mitt og heimilisfang á miða, og mæltist til þess, að honum yrði fenginn miðinn undir eins og hann kæmi á skrifstofuna. Og var mér sagt að það yrði gjört.

Svo liðu tvær eða þrjár vikur. Þá var það einn laugardag, rétt eftir hádegið, að ekið var í bifreið heim að húsinu, þar sem eg bjó. Aðeins einn maður var í bifreiðinni. Hann gekk að framdyrum hússins og spurði eftir mér. Þegar eg kom út til hans, sá eg að þetta var herra Eskford. Heilsaði hann mér mjög vingjarnlega og spurði mig, hvort eg vildi vera svo góður og koma heim með sér. Sagðist hann hafa þar nokkra íslenzka hluti til að sýna mér.

"Eg hefi lítið tekið að erfðum, þrjá íslenzka gimsteina," sagði hann brosandi, "og þá verður þú endilega að sjá."

Eg þakkaði honum fyrir boðið, og sagði, að eg mundi hafa mikla ánægju af að tala við hann og sjá þá íslenzku muni, sem hann hefði tekið að erfðum.

Að fimm mínútum liðnum var eg lagður af stað með herra Eskford, og ók hann í fluginu tvær mílur suður fyrir borgina. Námum við staðar við lítið hús, sem stóð í fögrum aldingarði skamt frá sjónum. Var húsið mjög einkennilegt og líktist dálitlum súlnagöngum langt til að sjá, og hengu þar sumstaðar hlífar gegn sólarhita. Er hús með því lagi nefnt *lanai*, og er í raun og veru aðeins *þak*, sem hvílir á fáeinum súlum, en veggirnir eru venjulega grindagluggar og forhengi. Og oft má sjá í gegnum endilangt húsið og út í aldingarðinn á bak við.

Við vorum tæpar tíu mínútur á

leiðinni suður, og töluðum við fátt þá stuttu stund. En eftir það var ekki þagað.

Við vorum ekki fyr komnir að húsi herra Eskfords, en tvær konur komu út um framdyrnar. Var önnur konan roskin (hátt á sextugs aldri), lítil vexti, fríð sýnum og gáfuleg; hún hafði mikið hár silfurgrátt, en hörundslitur hennar var fremur dökkur. Hin konan var ung (rúmlega tvítug), há og tiguleg, bláeygð og björt yfirlitum, og hár hennar eins og lýsigull á litinn. Og þóttist eg sjá það undir eins, að þessi unga og myndarlega kona væri af norrænum ættum.

Herra Eskford nefndi mig fyrir þessum konum, og sagði mér, að eldri konan væri móðir sín, en hin yngri væri systir sín og héti Sigrún. Þær heilsuðu mér alúðlega og buðu mig velkominn. Og öll mæltum við á enska tungu.

Síðan gengum við öll inn í húsið. Og þar sátum við í mjúkum hægindastólum all-langa stund í svölum súlnagöngum, drukkum þar svaladrykki, sem dökkleit þjónustu-stúlka færði okkur, og töluðum saman.

"Þegar við vissum, að þú varst Íslendingur," sagði frú Eskford, skömmu eftir að við vorum sezt, "þá langaði okkur til þess, að þú kæmir hingað heim til okkar. En því miður getur ekkert okkar talað við þig á íslenzku."

"Eruð þið þó ekki íslenzk?" spurði eg.

"Eg er af frönskum ættum," sagði frú Eskford, "en börnin mín telja sig með Íslendingum, því að faðir þeirra var íslenzkur — fæddur og uppalinn á Íslandi. En nú er hann dáinn. Það eru tvö ár síðan hann dó."

Eg sá að angurværð greip hana sem snöggvast, og hún horfði út í bláinn dálitla stund.

"Hvað var skírnarnafn hans?" spurði eg.

Frú Eskford leit til sonar síns.

"Faðir minn hét Egill og var Ásbrandsson," sagði herra Eskford, og bar nöfnin fram með íslenzkum hreim, "en hann nefndi sig Eskford eftir að hann var farinn frá Íslandi. Hann sagði okkur, að hann hefði alist upp í firði þeim, sem nefndur væri Eskifjörður."

"Og þær stöðvar langaði hann mjög til að sjá á ný á síðari árum," sagði frú Eskford. "Og síðasta árið, sem hann lifði, talaði hann oft um það, að sig langaði sárt til að sjá ættjörð sína áður en hann dæi. En dauðinn kom áður en sú ósk hans yrði uppfylt."

"Var hann lengi búinn að vera hér í Hónólúlú?" spurði eg.

"Næstum átján ár," sagði frú Eskford. Við komum hingað sumaðið 1891; við vorum þá búin að vera sjö ár saman í hjónabandi; en silfur-brúðkaup okkar var haldið árið sem hann dó."

"Hvar voruð þið fyrst eftir að þið giftust?"

"Við vorum fyrstu sjö árin í San Francisco," sagði frú Eskford. "Þar eru bæði börnin mín fædd. Sigrún er eldri. Hún heitir í höfuðið á móður mannsins

míns, en Jean heitir í höfuðið á föður mínum.''

Og frú Eskford leit brosandi til sonar síns.

''En hvaða atvinnu stundaði maðurinn þinn?'' spurði eg.

''Hann var lærður trésmiður,'' sagði frú Eskford, ''en hann komst í þjónustu stóra gufuskipafélagsins í San Francisvo, strax og hann kom þangað, og var í þjónustu þess þangað til að hann dó. — Þegar félagið sendi hann hingað til Hónólúlú, voru laun hans hækkuð. Og síðasta árið, sem hann lifði, veitti félagið Jean syni okkar, skrifaraembætti á aðal-skrifstofu félagsins hér, og því embætti heldur hann eins lengi og hann vill og heilsa hans leyfir. — Við eigum húsið, sem við búum í, og aldingarðinn líka. Svo ekki er annað hægt að segja, en efnahagur okkar sé góður, og er það mikið því að þakka, hvað maðurinn minn kom sér vel við húsbændur sína, og hvað hann var reglusamur og hagsýnn.''

''Vildi hann ekki kenna þér íslenzku?'' sagði eg og leit til herra Eskfords.

''Faðir minn vildi kenna mér íslenzku,'' sagði hann, ''en hann hafði jafnan fáar tómstundir, og svo var eg ekki námfús. En hann sagði mér margt um þjóð sína og bókmentir; og eg las margar af gömlu sögunum á ensku.''

''Ef til vill var það mér að kenna, að börnin mín lærðu ekki íslenzku,'' sagði frú Eskford, ''því að eg lét það í veðri vaka við manninn minn, að ef hann færi til að kenna börnunum okkar íslenzku, þá byrjaði eg líka að kenna þeim frönsku, og útfallið varð svo það, að börnin lærðu ekkert mál annað en ensku.''

''Eg heyri það samt á öllu,'' sagði eg, ''að hann hefir verið góður Íslendingur.''

''Já, hann vildi ávalt vera Íslendingur,'' sagði frú Eskford. ''Og einu sinni spurði eg hann, því hann kallaði sig ekki Norðmann fremur en Íslending. En hann kvað það fjarri öllu réttu, því að hann sagðist vera *íslenzkur,* en ekki norskur; og hann kvaðst einmitt vera stoltur af því, að vera Íslendingur. — Eg man, að eg gladdist af þessu svari mannsins míns, og mér fanst hann vera meiri maður eftir en áður.''

Rétt í þessu gekk Sigrún inn í næsta herbergi, en hún kom að vörmu spori aftur og hélt á stórri mynd.

''Þetta er myndin af föður mínum,'' sagði Sigrún og rétti mér myndina. ''Faðir minn var um fertugt, þegar þessi mynd var tekin.''

Mér var starsýnt á þessa mynd. Hún var skýr og vel tekin. Hún var af manni sýnilega ljóshærðum, á bezta aldri, hraustum og glaðlegum, góðlegum og greindarlegum — manni, sem hafði kjark og staðfestu í ríkulegum mæli — manni, sem þar að auki hafði öll þau einkenni, er auðkenna sannan Íslending frá annara þjóða mönnum.

''Þú manst það víst,'' sagði herra Eskford, þegar eg var bú-

inn að skoða myndina, „að eg mintist á það við þig í dag, þegar eg lagði á stað með þig hingað, að eg hefði tekið þrjá íslenzka gimsteina að erfðum."

„Já, eg man það glögt," sagði eg.

„Faðir minn var góður Íslendingur," sagði herra Eskford, „og honum var það áhugamál, að afkomendur sínir vissu af hvaða bergi þeir væri brotnir; og hann vildi að einhverjir alíslenzkir hlutir gengi að erfðum í ætt hans í þessu landi um margar ókomnar aldir. Og nokkru áður en hann dó, fékk hann okkur systkinunum þrjá íslenzka hluti, og bað okkur að geyma þá sem helga dóma."

„Og það munu vera íslenzkar *bækur,*" sagði eg, „að líkindum Eddurnar og einhver Íslendingasagan, eða þá Passíusálmar."

„Nei, þarna skjátlar þér," sagði herra Eskford brosandi. „Faðir minn vissi vel, að afkomendur sínir mundu hvorki tala né lesa íslenzku, og að íslenzkar bækur mundu því ekki halda við hjá þeim nægilegri ást og trygð til hins íslenzka þjóðernis. — Þar að auki eru Eddurnar, Íslendingasögurnar, Passíusálmar og ýms önnur norræn og íslenzk rit löngu þýdd á önnur tungumál, og má því segja að öll þau rit séu nú orðin eign allra mentaðra þjóða. Eddurnar eru, til dæmis, sameiginleg eign allra norrænna og engilsaxneskra þjóða, þó íslenzka þjóðin hafi tekið þá gimsteina að erfðum, hafi geymt þá, og slípað þá og fægt, svo að bjarma hefir lagt af þeim um heim allan. — En til þess samt, að njóta til fullnustu hinnar djúpu speki, miklu snildar, og skáldlegu tilþrifa, sem Eddurnar hafa á hverri blaðsíðu, þarf maður að þekkja norrænu til hlítar. — Íslenzk alþýða skilur ekki norrænu svo vel, að hún skilji Eddurnar mikið betur en við, sem lesum innihald þeirra í enskri þýðingu. Þetta var álit föður míns; og þess vegna eru það ekki *bækur,* sem hann bað okkur, börn sín, að geyma til minningar um þann kynstofn, sem við erum komin af. Heldur er erfðafé þetta þeirrar tegundar, að enga sérstaka tungumála-kunnáttu þarf til þess, að geta metið það réttilega og — notið þess. Og um leið er það alíslenzkt, og enn þá ram-íslenzkara en Eddurnar og sjálfar Íslendingasögurnar. Og á meðan þeir gimsteinar þrír geymast í ætt okkar, mun hún telja sér sæmd af því, að vera af *íslenzkum* uppruna."

„Og hverjir eru þessir þrír íslenzku gimsteinar?" sagði eg.

„Ef þú vilt gjöra svo vel, og ganga með okkur út í sumarskálann, skal eg sýna þér íslenzku gimsteinana," sagði herra Eskford.

Eg sagðist vera meir en fús til þess.

Við stóðum öll upp og gengum út í aldingarðinn, sem bæði var mikill og fagur. Sumarskálinn stóð þar niður við sjóinn. Smáar öldur gjálfruðu þar við sandinn, rétt fyrir framan, og dálitlar gusur gengu við og við þétt upp að húsinu, og vindurinn bar úðann inn í aldingarðinn, því að vindur

stóð af hafi, en stórsjóarnir brotnuðu með gný og dimmum drunum á rifinu fyrir utan.

Þegar við komum inn í sumarskálann, gengum við að píanó, sem stóð þar inn við stafninn.

"Þarna eru íslenzku gimsteinarnir góðu, sem faðir minn fékk okkur systkinunum til varðveizlu," sagði Sigrún og benti á þrjá muni, sem voru á hljóðfærinu.

Það vor óneitanlega sannir gimsteinar í sinni röð, og enginn efi lék á því, að þeir voru alíslenzkir í insta eðli sínu. — Fyrsti hluturinn var meistaralegt málverk, af einu hinu fegursta héraði á Íslandi. En nafnið á héraðinu og nafn málarans þarf hér ekki að nefna, því að íslenzkur lesari getur þess nærri. — Annar hluturinn var brjóstlíkan úr eir af Íslending, sem einna mest og bezt hefir unnið þjóð sinni til gagns og sóma; og var brjóstlíkan þetta gjört af heimsfrægum, íslenzkum listamanni. En nafn þess manns, sem brjóstlíkanið var af, og nafn listamannsins ísl., þarf eg heldur ekki að nefna hér, því ísl. lesari veit við hverja eg á. — Þriðji hluturinn var blað með raddsettu íslenzku þjóðlagi á. Og var lagið raddsett af heimsfrægum, íslenzkum söngfræðing og tónskáldi. En nafnið á þjóðlaginu og nafnið á tónskáldinu þarf alls ekki að nefna hér, því íslenzkur lesari veit það eins vel og eg. — Eg horfði á þessa þrjá íslenzku hluti nokkra stund, og eg þóttist skilja til hlítar, hvað Agli Ásbrandssyni hefir gengið til þess, að afhenda afkomendum sínum þessa hluti til varðveizlu um aldur og æfi, því að hlutirnir sýndu, að Íslendingar hafa átt — og eiga enn — listamenn, sem að snild og gáfum standa jafnfætis þeim *Raphael*, *Angelo* og *Beethoven*.

Eg dvaldi í húsi Eskfords fólksins langt fram á kvöld. Og tvisvar kom eg þangað eftir það. Og einn daginn fór eg út í grafreit borgarinnar til þess, að sjá gröf Egils. Á gröfinn var fallegur steinn, og á hann var grafið: —

"*Egill A. Eskford. — Fæddur á Íslandi* 5. *Apríl* 1850. *Dáinn* 29. *Marz* 1909."

Um leið og eg kvaddi Eskfordsfólkið fyrir fult og alt, þá leyfði frú Eskford mér að taka eftirrit af fáeinum línum, sem Egill hafði skrifað nokkru áður en hann dó. Það var hið eina, sem fanst eftir hann á íslenzku. Og lítur út fyrir, að það hafi átt að vera upphaf að æfisögu hans, eða annari lengri ritgjörð. — Línur þessar voru svona:

"*Þótt hin íslenzka þjóð sé enn þá barn að aldri — Aðeins þúsund ára gömul — og þó hún sé svo fámenn, að hún gæti vel komist fyrir í álíka stórri borg og Hónólúlú, þá mun hvergi vera sá blettur á bygðu bóli, að Íslendingur hafi ekki einhvern tíma komið þar. Því að Íslendingurinn er í insta eðli sínu landkannari; og sigli hann á annað borð frá ættjörð sinni, þá er hann sérlega víðförull. En oftast fer þó svo að lokum, að honum leika landmunir til heimferðar.*"

# Út við flæðarmálið.

Eftir Guðmund Friðjónsson.

---

*Söguþáttur.*

Út við Íshafið stendur bær, sem heitir Skerjavík. Það er gömul bygging, þannig vaxin, að þrjú stafnþil snúa fram á hlaðið. Bæjardyraþil er í miðið, stofuþil til hægri og skemmuþil til vinstri handar.

Bærinn stendur spottakorn frá sjónum, svo sem stekkjargötu lengd. Beitarhús er við Víkina, sem nýtur bæði lands og fjöru beitar. Þar fer saman kvistlendi hið efra, en rekþari og skerjagróður við sjóinn.

Bóndi bjó í Skerjavík hálfa öld, sem Framar hét og heitir, því að hann lifir enn, á níræðisaldri, hefir enn þá bjargálna sjón og heyrn og óhalta skynsemi. En búsýslu hefir hann lagt niður fyrir mörgum árum, svo sem nærri má geta, þegar þörfin hætti að reka á eftir.

Þegar hann var hálf-níræður, gekk hann á engi til sláttar og beit þá enn svo, að tók hreint úr ljáfarinu. En það sumar slíðraði hann ljáinn sinn og kvaddi sláttuteiginn. Þá taldi hann sig seztan í helgan stein og æfibát sinn kominn í hró. Þó fylgdi hann viðburðum þjóðlífsins og álfunnar eins og ungur væri. Athyglin skimaði sívakandi í allar áttir, eins og byr stæði henni undir báða vængi. Á þann hátt var hann víðförulli en valur, sem flýgur vorlangan dag í hraðbyri og flóandi sólskini.

Heldur þú, maður minn, sem eldist fyrir örlög fram, að þetta séu ýkjur einar?

Það skaltu ekki ælta. Eg hefi sannar sögur af öldungnum, veturinn eftir síðasta sláttusumarið, sem eg nefndi áðan. Sá, sem sagði mér, eða greindi frá Framari, var umgangskennari, sem dvaldi í Skerjavík mánaðartíma við að kenna barnabörnum gamla mannsins. Kennarinn hélt dagbók, sem hann ritaði í alt, sem honum þótti slægur í, bæði veðráttu, samtöl og mannlýsingar. Eg tek úr syrpu kennarans kafla um Framar. En svolítið hefi eg breytt orðfærinu á stöku stað. Það er okkar á milli.

— — — — —

Eg kom að Skerjavík — segir kennarinn — síðla dags í skammdeginu, aleinn með bagga á bakinu og staf í greip minni. Kenslufögur mínar voru í skreppunni, var þá komin ófærð í lægðum og móum, en þæfingur á hávöðum. Dimt var í lofti og brimgný var að heyra til hafsins. Sjávarhljóðið var undarlegt að því leyti, að mér virtist það, eða nokkur hluti þess, tónbrot úr aðal-hljóðinu, berast til mín eftir jörðinni, sem eg stóð á og gekk um. Mér fanst jarðvegurinn bifast. Var þetta svona í raun og veru? Eða var kominn

á mig óstyrkur af lúa, sem olli því, að mér fanst jörðin á kviki? Eg veit ekki með vissu, hvort heldur var. Dagleið minni var svo háttað, að eg kom innan úr bygðinni og stefndi til sjávar. Vöxtur og viðgangur brimgnýsins, sem mér virtist færast í aukana með hverjum áfanga, gat stafað af því, að eg færðist nær fjöruborðinu, sem aldan skall á og þar sem hún gekk fram af sér.

Eg kom að bænum Skerjavík, þegar komið var að dagsetri. Sá eg óglögt til kennimarka á bæjarþiljunum. En það þóttist eg vita, að bæjardyrnar væru í miðið. Og þar drap eg á með göngupriki mínu. Enginn kom til dyra við þá kvaðningu og þóttist eg vita, að langt mundi vera til baðstofu. Reiddi eg þá stafinn til höggs og barði sínu fastara. En sú tilraun fór á sömu leið, enginn kom til dyranna. Nú fór eg að stappa af mér snjóinn, og hrutu þá snjókleprarnir á hlaðið, sem hart var undir fæti, skafið með reku, eða troðið í gadd. Alt er þegar þrent er, hugsaði eg og barði í þriðja sinn af alefli. — En þá kom bóndinn sjálfur utan úr myrkrinu, frá útiverkum sínum. Eg þekti hann, þó skuggsýnt væri, síðan um haustið, að hann falaði mig til kenslunnar. Það gerðist á fjárréttinni. Bóndinn var sonur Framars og hét Angantýr.

"Þarna ert þú þá kominn," mælti hann, þegar eg var búinn að heilsa honum, "þá er bezt að ganga í bæinn." Hann fór inn í dyrnar, og kom þaðan með tréhníf, sem ætlaður var og hafður fyrir snjósköfu. Breddan var eintrjáningur úr rauðaviði. Að því búnu fylgdi bóndi mér inn og var löng göng að ganga til baðstofu. Skildi eg þá, að högg í bæjarþil áttu undir högg að sækja að ná til baðstofulýðs, jafnvel þó að þar væri dúnalogn og steinhljóð. En ef rokkþytur og barnagjálfur var á seiði, þá var vonlaust að láta til sín heyra um þann veg.

Nú var baðstofan mannlaus að sjá. Við komum inn í miðbik hennar og þaðan gengum við til vinstri handar í afþiljað hús. Þar sat gamall maður á rúmi, sem gæruskinn var breitt yfir, og hafði hann geitstöku undir fótum. — "Þetta er faðir minn," sagði bóndi. Eg heilsaði honum og skildi eg á undirtekt hans, að hann heyrði undarlega vel. Angantýr sagði honum hver eg væri. Hann vísaði mér á stól nálægt föður sínum. "Hér verður þú að una þér, meðan eg lýk útiverkum." Svo gekk bóndi fram úr baðstofunni.

Öldungurinn sat á höndum sínum og reri vitund eða ruggaði sér. Hann hafði undirskegg, en var snoðkliptur um munn og kinnar. Sá skeggburður sést vel á mynd Jóns Sigurðssonar. Svo virtist mér, sem Framar mundi hafa verið ígildi Jóns að yfirbragði meðan hann hélt sjálfum sér í blóma. Ennið var afburða gott og augun geislarík og djúp, orðfærið vandað og tamið, mælskan leyndi sér ekki, þegar á reyndi. — Þetta er nú of snemma fullyrt, eða kann að þykja svo. En ekki tek eg of djúpt í árinni.

Eg mældi öldunginn allan með auganu og skimaði upp í bókahillu hans. Þar var töluverður samtíningur bóka. En prjónar voru í rúmshorninu, hnikill og kambar á hillu. Eg þagði og þó ekki þess vegna, að mig skyrti forvitni. En eg vildi ekki vera nærgöngull við svona virðulegan öldung. En fljótt kom hann móti mér, hefir ef til vill verið þyrstur í viðræðu. Hann mælti: "Svo þetta er kennarinn tilvonandi, rétt er það. Og kemur hvaðan, úr hvaða átt."

Eg svaraði á þá leið, að eg kæmi frá Skriðu og hefði farið um Skollamela og Melrakkagrýtur. "Og nú stend eg við flæðarmálið," sagði eg. Þá gneggjaði gamli maðurinn svo sem hálfan hlátur eða hálfhixtaði eins og milli máls og hláturs. Þá sagði hann: "Þú kemur þá eins og Gangleri, utan af refilstigum, utan úr myrkrinu eins og Gestumblindi, en þú hittir ekki á höll eða ríka menn, þar skilur ykkur og okkur."

Þá sagði eg: "Eg hefi ef til vill álpast villi götur."

"Ef til vill," svaraði hann. "Nú fara margir þá stíga og aðrir fara krókaleiðir, og margir breiða veginn. Svo gengur það og hefir hver til síns ágætis nokkuð, í sjálfs sín augum. Segirðu annars nokkur tíðindi, sem slægur sé í, eða þá smærri fréttir, ef ekki vill betra til?"

Eg kvaðst engin tíðindi kunna, því eg var blár í gegn að því leyti. "Eg held veröldin sé fréttalaus þessa viku. Hennar geldstöðutími er víst í skammdeginu," sagði eg.

"Og ekki var hún þurspen, þegar Gangleri og Gestumblindi voru á ferðinni milli miðaftans og náttmálanna forðum. *Þá* var gaman að spyrja tíðinda."

Eg brosti og greip hann á orðinu, með því móti, að eg sagði við hann: "Vilt þú þá vera Hár eða Heiðrekur, ef eg verð Gangleri eða Gestumblindi?"

"Eg!" mælti hann og leit á mig með föstu, rannsóknarauga. Eg horfði á móti og þótti mér sem eg sæi austur í árroða og vestur í aftanbjarma. Eg tek svona til, en reyndar get eg alls ekki lýst þeim augum. "Eg!" endurtók hann, "Heiðrekur eða Hár? Eg gamalfauskurinn, sem hefi setið alla æfi mína á gæruskinni, og haft geitstöku undir fótunum. *Nú er eg kominn að flæðarmáli,* og horfi út á miðin, út í bláinn, og veit ekki hvort eg sé framar berum augum náttsól í Norðurhafi, þá blessuðu dýrðarsól, sem situr uppi og vakir miðjar nætur, eins og Grímur kvað, Álftnesingur. Yngri deildin horfir í aðra átt, en eg stari. Hún snýr sér að *glaumbæ* og stefnir þangað. En eg er sveitfastur á jörfanum milli Hrafnistu og Hálogalands og ræ þaðan einn á nökkva eins og leiði gefur austur til Bjarmalands. Þetta held eg nú að þér þyki skrítinn orðaleikur."

Eg játti því. Og það var ekki uppgerð. Svona hafði eg engan mann heyrt tala fyrri, og engan hefi eg síðan heyrt eða séð leika sér þannig að orðagullinu.

Eg þagði um stund og horfði á tær og ristar sjálfs mín. Það var svo auðvelt, þau heimatökin hæg.

"Það má þó segja, að gömlu mennirnir sumir líta í kring um sig," mælti eg þá. "Og fróðlegt er að spyrja þann, sem farið hefir um langan veg æfidægranna, þó að hann sé hvorki goðborinn, né konungsættar, og ekki jafnoki þeirra goðbornu."

"Já, ojá, að vísu, ef sá, sem spyr, er lítilþægur; alt er undir því komið og á því veltur, að þakksamlega sé þegið. Þá geta roð og rifgarðar orðið að mat og sýran að munngáti."

Nú rétti hann hönd sína eftir prjónum, dró lausaprjóninn úr fit og hnikli og tók lykkjuna.

Þá sagði eg: "Þú kant lykkjutakið, gamli maðurinn."

"Ojá, það á svo að heita, eg er að grípa í þetta og dunda við það mér til dægrastyttingar, eina og eina umferð, meðan sandkornin stanglast niður úr tímaglasinu. En heldur gerast nú fingurnir stirðir og gómarnir dofnir og seinvirk höndin, og lítið lag held eg nú sé á þessu verki, ef vandfýsni fjallaði um. Og þó er ekki víst, að verra sé að ganga í þessum plöggum, sem eg prjóna, en sokkaplöggunum, sem nú eru keypt í búðunum og eru eins og kongulóarvefur á að sjá og reyna; spyrjum nú ekki að því híalíni déskotans. — En eftir á að hyggja! Þú munt vera þur í fæturna?"

Eg sagði það sem satt var, að eg væri rakur og betra myndi að skifta um. Stóð eg þá á fætur í þeim erindum, að vitja um hafurtask mitt, sem eg átti frammi í bæjardyrum.

Þegar eg kom aftur, spurði Framar mig eftir veðrinu. Svarið lá laust fyrir, því veðrið var þvílíkt sem verið hafði, þegar eg kom: lognmolla og svartamyrkur, svo þykt, að hnífurinn gekk ekki í þann vegg. "Nú væri ekki gott né gaman, að vera á ferð," sagði eg.

Öldungurinn tók játandi undir það. "En hvernig er sjávarhljóðið; er það drynjandi eða hvínandi?"

Eg hélt það væri hvæsandi fremur en drynjandi.

"Á, það er svo," svaraði hann; "það er víst reiðihljómur í öldunni; þeirri gömlu verður skapfátt, þegar henni finst vera 'rekið' eftir sér undir háttatímann, og þarf reyndar ekki háttatíma til þess. Henni getur runnið í skap á miðjum degi. Svo var það til dæmis, þegar fjárskaðahríðina gerði árið— látum okkur nú sjá: það var víst veturinn, þegar Vatnajökull gaus á Þorranum."

"Þaut þá í snepilinn á Norðra gamla?"

"Ójá, það þótti okkur hérna og þó víðar, og það var nú ekki að þykja, það var. Eg man eftir sjávarhljóðinu þann morgun, því hvikan var lítil hérna í Víkinni. En einhver hornablástur mun hafa verið byrjaður úti í fjarskanum. Og eftir því tók eg, að áhlaðandinn virtist vera tíður við stakkana, gusurnar eins og í ólmandaham, drungi í lofti og eins og nokkurs konar helfró í slínaðri ginu, sem lá yfir klakkabakka

hafsins. En oft hefir hann lafað umskiftalaus í líku útliti. Veðráttan er mislynd hérna og fláráð norn er hún og fjölkunnug, betra að sjá niður með nefinu, þar sem hún situr við stýrið, eða hefir hönd í bagga, sú kerling.''

Nú leit eg í augu öldungsins og þóttu mér fagrir glampar í þeirri átt. Þannig mundi vera sjáaldur forspárra manna, eða þeirra, sem skygnir eru—datt mér í hug.

''Ójá,'' mælti Framar og lumaði á lykkjunum, ''þá var betra að vera í ósviknum sokkum og vetlingum, þann dag, eins og oftar; þegar á daginn leið; því að dag skal að kveldi lofa. Þá er hann loksins búinn að sýna í barm sinn. En meyjarnar skal lofa í morgunsárinu. En ef þú vilt heyra af þessum degi, sem eg drap á, er bezt að halda sig að honum, en sleppa öllum orðskviðum og meyjamálum. Hér við víkina stendur beitarhús, og er féð rekið upp á ásana á mornana, ef út er látandi. Og þennan morgun var veðrið dágott vetrarveður, og snöp á holtunum. Sauðamaður minn réði útlátningi og var einvaldur um þau mál. Þá var ekki loftvog hér í bæ, farið eftir útliti og venju. Þá var hér sauðamaður og reyndar í mörg ár Lárus nokkur, kallaður Lalli smali, fjárauga og natinn við hjástöður, og varð ekki nuddað til annara verka. En þó að karl væri eirinn við gembsa og gembsur, þótti honum gott að koma heim um hádegið, eða þar um bil, og fá sér í bollanum.—Þá settist hann við hlóðin á balakláf og spýtti tóbaksgusum í eldinn; raulaði stundum rímnaerindi meðan stóð á Surt gamla, katlinum, sem þá var ekki gert hærra undir höfði en það, að honum var stungið í hlóðarvikið, sem hann féll þó ekki við. Nú er honum sýnd virðingin meiri á vélunum, eldavélunum, þar sem hann límfellur við hringana á eldhólfinu nýtur eldsins höfðinglega. Eg held þér leiðist útúrdúrarnir, en eitt bendir og minnir á annað, Lalli á ketilinn og kláfinn. Nú kemur karlinn heim eftir hádegið, sezt á kláf sinn, og tekur að raula vísuna úr Gönguhrólfsrímum:

Niður dauður síðan sé
svartur kauði að niflheime,
skektist hauður, skulfu tré
skarkaði og sauð í jörðunne.

Seinni hluta vísunnar endurtók Lalli og lagði áherzlu á *suðuna*, orðið *sauð*, og spýtti svo mórauðu í eldinn þegar gúllinn var fullur. Nú var eldiviðurinn ekki góður, hafði verið úti og fluttur inn frosinn. Gekk því seint að tendra í hlóðunum og galt Surtur þess, að loginn var daufur í dálkinn. Spað var á seyði og reykur í eldhúsi eins og verða vildi þegar veður var drungalegt og kyrt.— Eg gekk út og inn þenna dag, var einhvern veginn eirðarlaus. Sjávarhljóðið kvað við inni í baðstofu og reykur var um allan bæinn. Hvert sinn sem eg gekk um göngin, ''skarkaði og *sauð* í jörðinne'' af völdum Lalla. Nú vildi eg ýta við sauðamanni, þegar mér þótti hann gerast þaulsætinn við eldinn og segi: Jörðin hefir víst verið *þíð* og *snjólaus*, þegar Gönguhrólfur sendi Kauða norður og niður í Niflheim, eða hvað heldur þú, Lalli? Eg

lagði áherzlu á orðin þíð og snjólaus, til að minna hann á, því að illa þoldi hann að hlutast væri til um verk hans og fjármenskuhætti. Þíð og snjólaus! át hann eftir, já þá var þar alt galþítt og ófrosið, öðru vísi en helvítis eldiviðurinn hérna, sem enginn eldur vill nýta; hann ætti að vera kominn í sjóðbullandi helvíti, ef svo lítið kynni þá heldur að sljákka í hlóðunum *þar*, en *hér* getur aldrei týrt á flögu. Og svona lét hann dæluna ganga um stund. Eg fann, að skapið var í verra lagi og gekk út enn þá, rólaði til hesthúss og lét klárana út. Stundarkorn var eg að snúast við þá, brynti þeim úr læk og þrífaði til í stalli. Nú geng eg heim og inn göng, stanza við eldhússdyr og heyri, að enn "skarkaði og sauð í jörðunne". Þá sagði eg við Lalla minn: "Ættum við nú ekki að hugsa meira um skarkalann og suðuna hérna úti við Skarfastakk og Máfadrang, eg er hræddur um, að hurðin sé komin í hálfa gátt hérna í norðuráttinni."

"Hvernig tók Lalli þessu?" spurði eg.

"Ó, spurðu að þeim náunga. Hann frýsaði út úr sér tóbaksgusu og rausaði eitthvað um það, hvort *hann* ætti að læsa þeirri hurð. Eg sá að skapið var úfið, og nú tók eldabuskan fram í og lét vel yfir velgjunni í katlinum, hún væri að nálgast suðu. Þá skifti eg um, sagði Lalli og breytti um kvæðalagið, um leið og hann vatt sér yfir á næstu vísu í Gönguhrólfsrímum og valdi þá ekki af mjórri endanum, þar sem Grímur Ægir gaf upp öndina, en Bólu-Hjálmar blessar yfir sisvona:

" 'Fárleg voru fjörbrot hans,
fold og sjórinn léku dans;
gæðasljór með glæpa fans
Grímur fór til andskotans'."

Nú lagði sá á kláfnum feykna áherzlu á síðasta orðið og tvítók seinni hluta vísunnar í ofan á lag. Þá sagði eg: Nú held eg að sjóði upp úr Surt okkar, Lárus minn, þegar svona er kynt undir á báða bógana. Með það sama gekk eg út og litaðist um. Hestarnir voru í ógangi og skutu upp ýmsum endum á víxl. Það var óveðraþytur í höminni á þeim.

Enn geng eg inn að eldhúsi og þá er eldabuska að renna í bolla Lalla eða skál réttara sagt; þegar illa lá á honum, var helzt reynandi að blíðka hann með þeim hætti, ekki minni sopa en mörk af sterku ketilkaffi. Eg brá nú á glens við Lalla og segi: Nú brokkar þú til kindanna að þessu búnu, útlitið er skuggalegt og bezt að hafa vaðið fyrir neðan sig. Það er sjálfsagt, það er sjálfsagt, svaraði karl og var allur í einu brosi. Eg fer undir eins, skeiða og skeiða upp ásana. Þetta rennur í beinin, sígur til klaufanna, áreiðanlega, þessi sopi, hann er ósvikinn, þessi sopi, hann bregst ekki, þó að hurðin út í norðrinu fari upp á gátt.

Meðan hann lét þessa dælu ganga, saup hann á "litlu sinni", svo kallaði hann kaffiskálina, smám saman, einn og einn sopa, og blés í kaffið milli sopanna. "Þetta gefur betra en brokk, það gefur vekurð, góðgang, og skeiðsprett, spái eg. Það gefur líf og

fjör.” Þannig gambraði hann og gældi við “litlu sína”. “Já, húsbóndinn má sjá aftan undir Lárus Lárusson, þegar *þessi* er tæmd; hann Lárus skal ekki fara á valhoppi upp í ásana, hann skal fara á góðgangi, hann skal skeiða upp ásana.” — Líklega hefir kaffið verið sjóðandi, því að seint lækkaði í skálarkrílinu. Mér fanst sú lækkun eins og fjara væri á ferðinni eða útfall, þegar beðið er við forvaða á aftni dags. En loksins sá í botninn. Seinast hvolfdi karlinn skálinni svo að segja á munn sér, hallaði höfðinu aftur á bak, svo að andlitið vissi upp og loksins brá hann efrivararskegginu í munn sér og saug kampinn. Svo rétti hann eldabusku skálina og lét fylgja “guðsást og guðlaun”; leit um leið í pottinn og mælti:

“Þetta er ljómandi afrás, en það blessað flot. Á því hefði eg sopið, ef sú litla mín væri ekki á undan gengin svo rausnarlega, en í kvöld sýp eg á flotinu.” Og nú lallaði hann út og leit í allar áttir og upp í molluloftið lengst. Þá segir hann: “Og ekki liggur nú lífið á, *það* snuddar í holtin og *hann* lafir uppi í dag, lafir uppi þó að hann hangi niðri með ólundina.” Svo lötraði Lalli í áttina til kindanna, á engum öðrum gangi en sínum vanalega seina gangi.”

Þá skaut eg fram í: “Hann hefir verið ratvís eins og hestur.”

“Já, á þessum stöðvum, það var hann. Annarsstaðar reyndi lítið á ratvísi hans, var ekki hafður í sendiferðum, ekki til þess fallinn.”

“Og þú hefir látið hann einan um fjárgeymsluna æfinlega?” spurði eg.

“Svona hér um bil. Þú heyrir nú framhaldið, svona með hægðinni, vona eg. Nú geng eg inn í baðstofu og tek Árbækurnar, og opna. Eg leit í bók á hverjum degi eitthvað, þegar gestalaust var og ekkert sérlegt um að vera. Nú kem eg niður á frásögn um fjárskaða-hríð, þar sem svo segir: “Skall á stórhríð um miðjan dag með ofsaveðri, frosti og fannkomu, og urðu fjárskaðar víða; hafði verið kyrt fyrri hluta dags og ekki auðráðin gáta hversu skipast mundi veðrið. Láu sauðamenn úti sumir og kól þá til örkumla; en sumir náðu beitarhúsum við illan leik og höfðust við í þeim um nóttina . Héldu svo lífi.”

Mér rann kalt vatn milli skinns og hörunds, brá þannig við, skelti saman bókinni og leit út í gluggann þannig, að eg rak ennið í hélaða rúðuna. Þá kom mér í hug draumur, sem mig dreymdi næstliðna nótt, og var á þá leið, að eg þóttist sjá framliðinn föður minn. en mig dreymir hann sjaldan, og þá er ilt í vændum, er hann birtist mér. Nú strauk hann hvítt skeggið, en skeggið *var* ekki svo á litinn, né varð hæruhvítt. Alt í einu rekur hann skeggið framan í mig og kendi eg kuldann af og þótti mér sem það væri hélustrokið. Við það vaknaði eg og var draumurinn ekki lengri. Nú skildi eg, eða þóttist skilja ástæðuna til óróans, sem í mér var þenna dag, að óveður vofði yfir. Því er svo háttað stundum, að hangir oss hjör yfir

höfuðsvörðum, þó hann sé ósýnilegur.''

''Og nú eltir þú Lalla, ef eg get rétt til,'' sagði eg við öldunginn.

''Jú, það er rétt til getið; eg steyptu hettunni á höfuð mér, greip vetlinga mína, fór í hríðarúlpu og alt að tarna. Hljóp fyrir hestana og hýsti þá. Það skifti engum togum, nú var komin mokandi hríð, en kyrt að kalla; þó andaði ofan af landinu. Eg hljóp nú í slóð Lalla og sá til hennar, þó mollan reyndi að moka hana í kaf. Óslétt var undir fæti og flutti eg kerlingar á þúfunum í fuminu sem á mér var. Það stóðst á endum, að þegar eg misti af slóðinni, sá eg rofa í féð og fjármanninn. Það stóð á beit og krafsaði í óða önn. Ekki þorði eg að fara flatt að fénu, vissi að Lalli þoldi það ekki, formálalaust, að fé væri stygt á beit, sem *hann* átti yfir að ráða. Eg gekk því til hans og kastaði á hann kveðju. Þú hefðir átt að sjá furðusvipinn á því andliti. Hann vissi hvaða erindi eg mundi eiga, það las eg út úr svipnum. Hann hugsaði sem svo: Húsbóndinn kominn; hvað er hann að skifta sér af mínu verki. Jú, vantreystir mér til að sjá um blessaðar skepnurnar. Eg vissi, að hann mundi sýna mér þverúð, en eitthvað varð eg að segja. Og það gerði eg: ''Já, nú er hann ljótur, Lárus minn, og eftir litla stund verður hann brostin á svo um munar.''

''Brostinn á, ekki nema það þó,'' át hann eftir mér; ''ekki í bráðina, ekki brestur hann á fyrir náttmálina, eða svona fyrri en mitt á milli milðaftans og náttmála; ekki fyrri; hann lafir svona.''

Heyrirðu ekki sönginn í sjósa, Lalli?'' sagði eg þá. ''Þar er ávarpið greinilegt.''

Lárus leit út í buskann og mælti: ''Það er nú ekki ný bóla, að í þeim skjánum þýtur; ekki ný bóla; ekki spyr eg að þeirri þverrifunni.''

''Þá hefir þú hóað á féð,'' sagði eg; ''ekki beðið boðanna lengur.''

''Já, svona með brögðum; eg segi við karlinn: ''Þegar sjórinn gólar sisvona og blístrar, þá veit það á háska byl.'' Og eg lét sem eg hermdi eftir sjónum, en gerði það þannig, að eg í raun og veru hóaði. Þá hrökk féð saman og forustusauðurinn leit á heimleið. Eg hafði ekki lengri formála við Lalla og herti nú á fénu. Hríðin var orðin blælygn og snjóburðurinn mokstur. Sjávarhljóðið var tröllaukið, og mér fanst frosin jörðin skjálfa, þar sem eg stóð. Forustusauðurinn sperti sig, viðraði nasirnar og hvimaði eins og hann væri að þefa af logndrífunni. — Þá kom renningsgusa á hópinn, ekki þó af hafinu, heldur svo sem mitt á milli þeirrar vindstöðu, sem verið hafði, og hafrænu. Þá vissi Fori hvað um var að vera, hann tók strykið og hópurinn spann sig á eftir honum. Þetta var undanfari stormsins. Önnur gusa kom úr öfugri átt. Svo datt hún í dúnalogn. Eitt andartak stóð hríðin á öndinni. Þá skall brotsjór stórhríðarinnar yfir ásana og landið, svo að mér svelgdist á, þegar þessi tröllkona tók fyrir vit mín. Fjárhópurinn hvarf á einu augnabliki

í kófinu. Lausamjöllin varð í einu uppnámi og öll á valdi stormsins.

"Lalli hefir kannast við svona kveðjur," mælti eg.

"Já, víst hafði hann áður komist í faðm stórhríðar og verið lagður á hvítt og kalt brjóst. En þó brá honum nú í brún og líklega hefir það gert hann berskjaldaðan, að ráðin voru tekin af honum. Hann kom til mín fálmandi og grenjaði: "*Þetta er mannskaða hríð; helvítis fjárskaða bylur, húsbóndi!*" Eg þreif í öxlina á honum og kallaði upp í hann: "Farðu fram með hópnum og sjáðu um, að Fori slíti ekki sundur hópinn; þá er úti um okkur og hópinn, ef *hann* sleppur, ef *hann* sleppur!" Lárus þaut móti veðrinu og hvarf um leið, og eg hamaðist á eftir og kring um féð, hóaði og barðist um, því alt vildi undan snúa og hama sig. En svo vildi vel til, að færið var allgott og beint að sækja í veðrið. Skepnurnar láta sig hrekja meira, ef á hlið stendur fárviðri, en ef móti blæs. Enn varð það til hjálpar, að hundur Lalla, sem annars fylgdi honum, lagðist nú á sveif með mér. Seinna vissi eg, að Lalli skipaði honum það."

"Og þið hafið náð húsinu með hverja klauf?" spurði eg.

"Já, húsinu náðum við. En svo var veðurhæðin, að yfir tók brimhljóðið veðurhvinurinn. En særokið fauk í land með hríðinni og brasaði fyrir andlitin með frostinu og fannburðinum.—En þegar við vorum búnir að hýsa hópinn, segi eg við Lalla: "Nú skall hurð nærri hælum, laxi." Þá brosti hann, og það bros er mér í minni: "Já, *Fori* bjargaði hópnum. *Hann* reyndist vel."

Karlanginn, hann vildi ekki kannast við, að *eg* hefði bjargað fénu.

"Já, forustusauðir eru metfé," svaraði eg, "en í þetta sinn þurfti tvo menn, og helzt þrjá."

"Og *hund*, og *hund!*" svaraði Lalli, "*góðan fjárhund*. Eg *skipaði* honum til þín, Snata mínum, og hann skildi og hann gegndi mér."

Svo skifti eg um ræðuefni, eða ætlaði að skifta; spurði karlinn, hvort við ættum að freista hamingjunnar og reyna að ná bænum. Veðrið var nærri óstætt og myrkur hríðarinnar eins og mest getur orðið.

"Það er nú ratandi *heim*," svaraði hann. "En mér þykir heldur snemt að fara, heldur snemt, eg kann ekki almennilega við það, að láta inn áður en skyggir."

Eg skildi Lalla. Hann kom aldrei heim fyrri en í myrkri, þess vegna sagði eg: "Vildir þú, að féð væri enn þá upp um ásana? Ertu enn óhræddur við aðfarirnar?"

Þá gneggjaði karlinn í hálfum hlátri og mælti:

"Það er gott og blessað, að féð er komið inn; og hræddur var eg í dag um útlitið. En eg kann ekki við að taka féð í björtu af beitinni og láta það inn; kann ekki við það. En bæinn ætti eg að finna, þó að eg þyrfti að skríða og bundið væri fyrir glyrnurnar."

"Karl hefir haft til að raupa," mælti eg við öldunginn.

Hann svaraði:

"Þetta var ekki raup, því að einu sinni kom hann skríðandi heim í óstandandi veðri og moldviðri. Hann rataði þessa leið eins og skepna. Og bænum náðum við klaklaust. En mörgum varð þessi hríð harðleikin og sumum að fótakefli."

"Já hríðargrátt loft er óráðin gáta", svaraði eg. "En þið hérna hafið leiðarvísir, þar sem hafið er og brimhljóðið. Inni í dölunum er sú leiðsögn engin."

Öldungurinn leit út í horn og brá lausaprjóninum í hlustina.—"Það kann nú að vera, að svo sé. En hafið er breytilegt og stundum kemur ekki garðurinn inn yfir landið, þó illa láti í sjónum. Hafið er í aðra röndina dularfult eins og jörðin. Lífið og tilveran er ein gáta eða bálkur af gátum, samsafn, jafnvel jörðin sjálf, moldin, og við sjálfir.."

"Jörðin gáta?" svaraði eg og leit á hann.

"Já, jörðin, jafnvel hver lind. Hvað segirðu til dæmis um laugina hérna utan við túnið? Hún er niðri í sprungu eða þó undir bjargbrún. Og þegar hún veit á góðviðri, staðviðri, stillingar, þá lækkar í henni, en hækkar, þegar umhleypingar eru í nánd. Þetta er vissulega rétt, og margsannað. Hver grípur í þennan streng? Og hver skapar draummyndirnar, þessar torráðnu gátur, sem skiljast *þá* fyrst, þegar atburðurinn er fram kominn, sem gáta draumsins sýnir , en hylur þó, eða felur undir blæju?"—

Nú var Framar í augnaráði og málrómi eins og eg hugsa mér að spekingur *geti* orðið, sá sem náð hefir aldurshæð og djúpsæi. En þá kom húsfreyjan og mælti, þegar hún var búin að heilsa mér:

"Gerðu svo vel og komdu að fá þér næringu og fyrirgefðu þessa löngu bið, þeim sem sein er í snúningum og—kann líka að eiga annríkt stundum."

Þetta sagði hún brosandi og svo kvenlega, að ylhlýju lagði um mig—eins og sólskin kæmi úr suðri.



# Að brúa hafið.

Eftir Dr. Jóhannes P. Pálsson.

(Efni greinar þessarar er ræða, er flutt var í Winnipeg á samkomu Stúdentafélagsins íslenzka, endur fyrir löngu. Var höf. þá við nám á læknaskóla Manitoba-fylkis. Þótti ræðan góð og varð til þess, að til fundar var efnt, ef svo mætti fara, að seilst yrði til "*kastalans*" sunnan við sól og handan við mána. En armleggirnir reyndust of skammir í það sinn, svo kastalasmíðin er óhafin enn. — Nú hefir vinur Þjóðræknisfélagsins og höfundarins sent Tímaritinu ritgjörð þessa, og er hún hér birt, en orði hér og hvar vikið frá því sem var í ræðunni.)

Mér er það full-ljóst, að málefni þetta er miklu fremur efni í heila bók, en stutta málsgrein. En sökum þess að mér er málið kært, og að það er ekki yfirleitt rætt sem skyldi, hefi eg valið það. Eg fæ ekki betur séð, en að það sé aðaltakmark þjóðernisbaráttu vorrar hér. Og ekki að það sé að eins málefni Vestur-Íslendinga, heldur og einnig að nokkru leyti hljóti það að vera hjartans-mál frænda vorra hinum megin hafsins.

Hvernig á að brúa hafið? Hafið milli Íslands og Vínlands? Atlanzhaf? Já, hafið, sem skilur Austur- og Vestur-Íslendinga; djúpið, sem klofið hefir íslenzku þjóðina í tvent og sem verður að ómælishafi gleymskunnar, ef ekkert er að gjört.

Öllum Vestur-Íslendingum kemur víst saman um, að slíkt djúp sé til. En um hitt, hvort gerlegt sé að brúa það, eru ekki allir á eitt sáttir. Sumir álíta, að oss sé því betur farið, því fyrr sem vér týnum tungu vorri, og að vér ættum ekki að líta til Íslands nema eins og lítils díls á landabréfi heimsins. Ástæður þeirra eru margar og líklega skynsamlegar, en göfugar geta þær naumast kallast. Og á meðan verzlunar-andi nútíðarinnar er ekki búinn að kaldhamra svo skynsemi manns-andans, að hún bíti á hvert það band, sem kærleikurinn hefir hnýtt hér á jarðríki, á meðan mega sín lítils þessi fjörráð, sem lögð eru í stað heilræða.

Þá eru aðrir, sem gjarna vilja sjá því öllu borgið, sem íslenzkt er, en sem þó trúa því jafnframt, að vér, sem Íslendingar, hljótum innan skamms að ganga fyrir ætternis-stapa. Enda sjást á *þeim* fyrstu dauðamörkin, ef þeir, sem stæra sig af því, að vera víkingasynir, standa ráðþrota, leggja árar í bát horfandi örvæntingarfullir á viðurstygð eyðileggingarinnar!

Sem betur fer, eru þeir fleiri, sem trúa því, að jafnvel stórþjóðirnar eigi enn eftir að beygja höfuð sín í aðdáun og undrun fyrir andlegu atgjörfi hinnar snækrýndu drotningar í Norðurhafinu.

Óhætt er um það, að Vestur-Íslendingar hafa fært bræðrum sínum austan við hafið heim sanninn um ættjarðarást sína. Þeir hafa gripið hvert tækifærið á eft-

ir öðru, til þess að fullvissa þá um innilega samhygð í meðlæti og mótlæti. En ekki er þar með sagt, að vér höfum gert alt, sem í voru valdi stendur til þess að sameina það, sem örbyrgð Íslands hefir sundurdreift.

Það er langt frá því, að eg álíti hægðarleik að byggja þá brú, sem Austur- og Vestur - Íslendingar gætu mæzt á. Það er öðru nær. Því eins fullviss eins og eg er um það, að slíkt sé mögulegt, eins sannfærður er eg um hitt, að til þess þarf allan þann dugnað, alla þá dáð og alt það drenglyndi, sem vér höfum á að skipa.

Eitt af hinum traustustu böndum milli Íslands og Ameríku eru íslenzku fréttablöðin og tímaritin. Þó er auðsætt, að þau eru ekki einhlít.

Vort kæra Stúdentafélag var stofnað til þess, að efla veg íslenzkrar tungu meðal íslenzkra námsmanna í Vesturheimi. En sára-litlu hefir það fengið til leiðar komið.

Sumir ætla, að íslenzkur háskóli yrði öflugasta brúin. Sjálfsagt— ef allar íslenzkar kirkjur skipuðust um það mál sem ein heild, eins og þær ættu að gera. Ef þær stæðu sem ein óslitin ljósaröð, sem beindi sálinni braut til himins. Þá yrði Ísland á leiðinni, og þá yrði skólinn öflugasta brúin. En nú er svo ástatt—nei, vér skulum ekki minnast neitt á það.

Nei, til þess að brúa hafið, þarf áskiftan vilja *allra* þeirra, sem Íslendingar vilja kallast. Það þarf peninga, sem gefnir eru til þess að eins, að tengja Ísland við Ameríku; og það þarf fyrirtæki, sem verða má *öllum flokkum* íslenzku þjóðarinnar til blessunar, vestan hafs og austan. Hvers konar fyrirtæki væri það? Eg efast ekki um, að margir hafi spurt sig sjálfa þessarar spurningar, en mér vitanlega hefir henni aldrei verið svarað, svo jafn fullnægjandi og viðunandi sé fyrir alla flokka Vestur-Íslendinga.

Það er sannfæring mín, að ef landar mínir hér vestra legðust allir á eitt og seildust í fegursta kastalann, sem fyrir mig hefir borið á vonarhimninum, og settu hann niður í Winnipeg, þá mundi Ísland á Íslandi og Ísland í Vínlandi verða eitt.

Og hvernig er svo þessi kastali? Stórhýsi mikið og glæsilegt. Jafnoki fegurstu húsum borgarinnar. Því hefir verið komið upp af Vestur-Íslendingum *öllum*. Hvert mannsbarn hér í álfu, sem Íslendingur vill kallast, hefir eitthvað gefið til þess. Húsið stendur á grænum velli, sem skreyttur er blómum og prýddur limfríðum trjám. Það er bygt úr steini. Tveir turnar gnæfa hátt við himinn og minna mann á tinda hinna íslenzku fjalla. Yfir öðrum blaktir hið brezka flagg, en hinn réttir fána Íslands langt út í Manitoba-sólskinið. Hér búa íslenzkir nemendur við hvaða helzt skóla, sem þeir stunda nám. Hinir rúmgóðu salir bergmála vort hreimsterka og hljómþýða móðurmál. Íslenzk blöð og bækur liggja hér og hvar á borðum og hillum. Velferðarmál

Íslands eru rædd í hinum glæsilega samkomusal, og jafnvel undir borðum. Þar eru allir ungir Íslendingar saman komnir, er vilja teiga af brunni Mímis, því þarna veitist þeim húsnæði og fæði fyrir lítið eða ekki neitt. En þeir greiða skuld sína, þegar náminu er lokið. Allir stúdentar á Íslandi, sem vilja fullkomna mentun sína, koma hingað, því þá er Manitoba-háskólinn orðinn jafnoki annara slíkra mentastofnana, er landar vorir stunda nám við, svo sem í Kaupmannahöfn. Hér læra þeir að gæta hófs í öllu, en fyllast þó frelsi og fjöri hinnar ungu heimsálfu. Í þessu musteri hins íslenzka þjóðernis, er aðsetur íslenzka Stúdentafélagsins, og hér hefir hið íslenzka Leikfimisfélag bækistöð sína.

Rosknir og ráðnir landar vorir, sem hafa haft fjársýslustörf á hendi um mörg ár, en eru nú seztir hér að til þess að njóta ellidaganna í næði, hafa umsjón yfir stórhýsi þessu.

Hvað mundi veglegri minnisvarði þeim, sem voru nógu áræðnir, nógu þjóðhollir, nógu veglyndir til þess að reisa hann? Hvað mundi lengur halda uppi minningu feðranna, sem fyrstir ruddu sér braut í þessari álfu? Hvað mundi fremur tengja oss við ættjörð vora? Hvað væri oss meira til gagns og sóma? Eða hvar annarstaðar gætum vér mæzt, þar sem pólitík og skoðanamun mætti stinga undir stokk og vér gætum tekið höndum saman, af því vér erum Íslendingar?

Það er til gömul þjóðsaga um það, hvernig vetrarbrautin varð til.

Það var einu sinni stúlka og piltur, sem unnust hugástum, en örlögin leyfðu þeim ekki að njóta ástarinnar, sem þau báru hvort til annars. Svo dóu þau. Honum var fenginn bústaður í stjörnu einni langt, langt út í geimnum. Á öðrum hnetti fékk unnusta hans aðsetursstað. En ástin kendi elskendum þessum að brúa geiminn. Þau sneru saman hina marglitu þætti stjörnuljóssins og brúuðu á milli sín djúpið. Á miðri leið mættust þau eftir þúsund ár. Og brúin er vetrarbrautin, sem vér sjáum um heiðskírt vetrarkvöld.

En þegar englarnir sáu, að búið var að brúa geiminn, litu þeir spyrjandi augum til drottins. En Alfaðir brosti og sagði: "Það sem ástin byggir í alheimi mínum, má að eilífu standa."

Eigum vér Íslendingar þá ekki nóga ættjarðarást til þess að brúa hafið, sem aðskilur oss? Eða mundi höfundur alheimsins sundra því, sem vér bygðum til þess að auka samhygð og bróðurþel vorrar fámennu þjóðar? Nei, ekki þó hyrningar-steinninn væri höggvinn af Únítörum og lagður af lúterskum.

Þegar eg fluttist af Íslandi, fanst mér lítið til um, að skilja við ættjörð mína, þar til eg sá landið hverfa sem örlítinn bláan depil í hafið. Þá fyltust augu mín tárum. Þá var eg lítill. Og oft hefi eg brotið heilann um það, hvort slíkt hefði átt sér stað, hefði

eg verið stærri, eða hvort ekki séu til svo stórir(?) menn meðal vor Vestur-Íslendinga, að þeir gætu séð alt Ísland hverfa í haf gleymskunnar. Ekki efast eg um, að þeir hinir sömu séu færir um að sigla sinn eigin sjó. En hitt hefi eg aldrei heyrt vera talið skilyrði góðrar sjómensku — að sigla alt af úr landsýn.



# Heiðir eru heimar.

Eftir Þorstein Þ. Þorsteinsson.

Heiðir eru heimar,
háir loftsalir,
blik á hverri báru.
Vekja vorhljómar
Vermsl í sinni.
Leysir ís af öllu.

Uppi í eilífðum
englar syngja
guði sæla sálma,
afi og amma
undir taka
lof um lífsins föður.

Opnar eru dyr
allrar náttúru,
þar und sölum sitja
ljósir ljúflingar,
leyndir augum
eins og andinn holdi.

Brosir barn móður,
bendir mót ljósi,
faðir kvíða kastar.
Sjafni spyr Sjöfn,
sól spyr heim:
— Elskar þú mig eigi?

Reykjavík, 1921.

# Tvenn sambönd.

Eftir séra Guðmund Árnason.

"Öllu er afmörkuð stund og sérhver hlutur undir himninum hefir sinn tíma," segir prédikarinn. Hann var bölsýnn maður, sem mat lítils hégóma veraldarinnar, og margt var hégómi í augum hans, sem bjartsýnni mönnum á öllum tímum hefir fundist enginn hégómi. En hvað sem lífsskoðun þessa gamla bölsýnismanns líður, er gaman að lesa orð hans, og maður verður að samsinna með honum, að sérhver hlutur undir himninum hafi sinn tíma, nema það, sem er svo mikill hégómi, að það ætti ekki að vera til; og þó samt, hafi það orðið til vegna heimsku eða afglapa einhverra, verður það að hafa sinn tíma.

Það var annar spekingur, sem tók sér fyrir hendur að kenna mönnunum að þekkja sjálfa sig, og það hafði þær afleiðingar fyrir hann sjálfan, að hann var dæmdur til þess að drekka eiturbikar. Menn hefir aldrei langað til að þekkja sjálfa sig.

Hvað er sjálfsþekking?

Þeirri spurningu má eflaust svara á fleiri en einn hátt. Vanalega mun það þýða einhvers konar innskoðun eða sjálfsprófun, til þess—ja, til hvers? Til þess að kannast við syndir sínar, mundu þeir segja, sem mest hugsa um spillingu og afturhvarf og þess konar; en svo gæti máske einhverjum dottið í hug, að það ætti að vera til þess að geta séð sjálfan sig eins og aðrir sjá mann, eins og Robert Burns kemst að orði. En þá er nú varla við að búast, að sjálfsþekkingin sé skoðuð mjög eftirsóknarverð þekking.

Sjálfs-þekking, ef hún á að vera nokkurs verð, fæst aldrei með eintómri innskoðun. Einstaklingurinn verður ekki slitinn út úr sambandinu við annað fólk. Hver maður er hluti einhverrar heildar, oft margra heilda, og hann getur ekki lært að þekkja sjálfan sig, nema hann þekki það sem hann er hluti af og samböndin milli sín og þess.

Við Vestur-Íslendingar höfum talað mikið um sjálfa okkur, við höfum haldið margar þjóðlegar innskoðanir, ef svo mætti að orði kveða; og árangurinn hefir oftast orðið sá, að við höfum haft margt gott um sjálfa okkur að segja. Fyrir nokkrum árum orti eitt skáld okkar háðkvæði um sjálfshólið í okkur og sendi það, að mig minnir, forstöðunefnd þjóðminningarhátíðar. Það varð víst eitthvert umtal um það, sem von var, hvort þetta hefði átt vel við. En hvað sem því líður, var víst flest af því sem skáldið sagði, verðskuldað. Við erum sjálfhælið fólk; við tölum um sjálfa okkur eins og við værum gáfaðri og dug-

legri en nokkrir aðrir menn í þessu landi; okkur finst mikið til um það, hve við komumst vel áfram, eins og við orðum það. Ef áframhaldið væri eins mikið í raun og veru og við höldum að það sé, þá ættum við fyrir löngu að vera orðnir eitt af sjö undrum veraldarinnar.

Það kemur fyrir, að við tölum um galla okkar, eða öllu heldur um galla hver annars. Það er nú gert til þess að hafa eitthvað að segja um mótstöðumanninn og berjast fyrir málefni sínu. En á því tekur vitanlega enginn neitt mark. En á lofinu tökum við mark, í því erum við einlægir.

Alt hefir sínar orsakir. Við höfum að mörgu leyti átt erfitt aðstöðu, eins og allir útlendingar, og það hefir eðlilega verið nokkurt fagnaðarefni, þegar einhver af þjóðflokknum hefir skarað fram úr í einhverju. Við hinir höfum tileinkað okkur eitthvað af því. Okkur hefir fundist, sem það gæfi okkur góða ástæðu til að segja við þá innlendu, sem hafa ekki ávalt veitt okkur fulla viðurkenningu fúslega: Þarna sjáið þið, hvað Íslendingar geta. Sá, sem fram úr hefir skarað, hefir orðið ímynd þjóðflokksins alls í augum okkar. Þetta hefir efalaust gert okkur þó nokkurt gagn: það hefir aukið okkur sjálfstraust, og sannarlega höfum við þurft þess með.

En svo getur verið að hrósið, sem við berum á sjálfa okkur, sé meðfram af því sprottið, að við höfum einangrað sjálfa okkur allmikið, þegar við höfum verið að reyna að þekkja sjálfa okkur, eða höldum að við höfum verið að því. Við höfum, ef til vill, ekki tekið nógu vel til greina öll okkar sambönd út á við.

Tvö lang þýðingarmestu samböndin, sem við stöndum í við annað fólk, eru sambönd okkar við íslenzku þjóðina og samband okkar við hérlenda þjóð, eða enskumælandi fólkið hér í kring um okkur. Við annað fólk hér í landi höfum við svo að segja ekkert saman að sælda.

Sambandið við íslenzku þjóðina er ætternislegt og þjóðernislegt. Það er okkur ósjálfrátt. Það er líkt og samband manns við móður sína. Við getum verið ánægðir með það ættarsamband, eða við getum óskað, að við værum öðru vísi til komnir. Það gerir hver eins og hann hefir skap til. En við erum þessarar ættar, íslenzkt þjóðerni er okkar þjóðerni, samkvæmt lífslögum, sem aldrei verður breytt.

Hvern veg ættum við þá að líta á sjálfa okkur í sambandi við þá heild?

Þar kemur okkur nú ekki öllum saman; því er ekki til neins að leyna. Sumir halda, að við ættum að virða ættarböndin vettugi. En er það hægt? Við megum ekki gleyma því, að þau bönd eru okkur ásköpuð; við getum ekki slitið þau. Það sem okkur er í blóð runnið frá móðurþjóð okkar, ef það orð má nota, verður ekki frá okkur skilið. Við getum gert sjálfa okkur svo heimska, að gleyma þessu sambandi, en svo mikið and-

legt þroskaleysi er þó næstum ó-hugsandi.

Aðrir, og þeir eru fleiri, að eg hygg, vilja muna ættarböndin og gera þau traustari. Þeim finst, að okkur ætti að skiljast, að í okkar náttúrlega þjóðerni sé svo margt gott, að það væri óvit, eitt hið mesta, að loka augum fyrir því. Að uppræta það, er varla um að tala, því að það fylgir hverjum sem fast er við hann. Ef einhver kynni að halda, að hér sé verið að gera of mikið úr þjóðerniseinkennunum, þá má nefna eitt dæmi, sem nægir til að sanna, að svo er ekki. Hvers vegna fást fleiri Íslendingar, hlutfallslega við fólksfjölda, en aðrir menn við að yrkja hér í landi? Að eins eitt svar er mögulegt, og það er: af því við erum af skáldaþjóð komnir. Það er sama þótt sagt sé, að margt af því, sem ort er, ætti ekki að vera ort. Eiginleikinn er þjóðlegur, skáldskapskapargáfan er almennari á Íslandi en annars staðar, og við sverjum okkur í ættina, ef til vill of mikið, en ósjálfrátt — við erum svona gerðir.

Ættar- og þjóðernissambandið, sé rétt á það ltið, gefur okkur ekki neina ástæðu til að ætla, að við séum meiri og betri en alt annað fólk. Þjóðararfur okkar liggur ekki í neinum almennum yfirburðum; hann liggur í sérkennum, sem hafa gert íslenzka þjóð að merkilegri þjóð. Þessi sérkenni liggja á sviði andlegra afreka. Bókmentirnar eru ávöxtur þeirra. Og það er þessi ávöxtur, sem okkur er gagnlegastur, hann getum við hagnýtt; hann er okkar eign.

Veit eg vel, að ýmsum finst sem það sé að tala fyrir ofan höfuð almennings, að tala um bókmentir þær séu ekki fyrir almenning. En slíkt er misskilningur. Það, sem er kallað bókmentir, er einn mikilsverðasti þátturinn í allri menningu. Og við erum þátttakendur í menningunni, eins og hún er um okkar æfi. Hafi hugsunarháttur þjóðarinnar göfgast vegna áhrifa eins skálds, þá höfum við göfgast, þótt við höfum ekki lesið orð eftir skáldið. En svo er fyrir að þakka, að íslenzkt fólk notar bókmentir sínar, meira og betur en líklega flest annað fólk yfirleitt, og hefir dregið úr þeim andlega næringu, sem hefir gefið því andlegan þroska og veitt því ótaldar ánægjustundir.

Það er þjóðernissambandið, sem veitir okkur aðgang að þessu. Gleymist það, glatast þessi dýri arfur. Ekkert annað getur komið í hans stað, því það er ekkert til í heiminum, sem er eins og hann. Þetta má hiklaust segja, án þess að gera lítið úr annara þjóða bókmentum, án nokkurs samanburðar —þær eru aðrar, þær hafa sitt ágæti til brunns að bera, en okkar bókmentir eru jafn dýrmætar fyrir því, þótt hinar séu til.

Lítum þá á okkur sem brot af hinni íslenzku þjóð, og það erum við. Það gefur okkur ekki ástæðu til neins flysjungslegs sjálfsálits, ekkert tilefni til þjóðardrambs þess, sem einkennir stundum fólk, er heyrir stórþjóðum til. Við

verðum að kannast við, að þjóð okkar sé í mörgu lítilsigld, og að því er engin minkunn. En það gefur okkur ástæðu til að láta okkur þykja vænt um að við erum af íslenzku bergi brotnir, og að vera langt yfir þá heimsku hafnir, að vilja ekki kannast við það. Og það, sem gefur okkur ástæðu til þess, er hið andlega atgjörfi þjóðarinnar. Þetta er yfirlætislaus meðvitund um sögulegan sannleik, og án hennar þekkjum við ekki sjálfa okkur.

Óbætanlega mikill skaði væri skeður, ef við gleymdum sambandi okkar við Ísland og þá þjóð, sem þar býr. Það væri að nokkru leyti að gleyma sjálfum sér, því að, hvort sem við viljum eða ekki, erum við hluti af henni, berum í okkur einkenni hennar, eins og barnið ber á sér svip móður sinnar. Að þekkja ætt sína, er áreiðanlega ekki þýðingarminsti þátturinn í að þekkja sjálfan sig.

Samband okkar við hérlenda þjóð, er ekki síður mikilsvert fyrir okkur og við ættum að gera okkur sem bezt grein fyrir hvers eðlis það er og hvernig mætti láta það verða sem gagnlegast fyrir þjóðarheildina og sjálfa okkur. Þessu sambandi er alt öðru vísi farið, heldur en sambandinu við íslenzku þjóðina: það er ekki eins fastskorðað með náttúrlegum lögum, það er ekki ættarsamband, og við getum að nokkru leyti ráðið hvernig það er.

Okkur hefir verið sagt oft og mörgum sinnum, að við værum löghlýðið fólk og góðir borgarar þessa lands. Þetta er satt og út af fyrir sig mjög lofsverður vitnisburður. En það skyldi enginn halda, að eintóm löghlýðni og borgaradygðir nái út yfir alt okkar samband við hérlendu þjóðina. Það er átal margt fleira, sem þar kemur til greina.

Fyrst, þegar við komum hingað, vorum við fákunnandi á flest, sem nauðsynlegt var að hafast að sér til lífsbjargar. Það var ekki um annað að gera, en að læra af þeim innlendu; til þeirra varð að sækja svo að segja alt. Auðvitað var það borgað með vinnunni. En sá maður, sem er ókunnur landsháttum, lítt fær í máli og félaus, lítur upp til þeirra, sem veita honum atvinnu, enda þótt hann viti, að það sé þeirra þága ekki síður en hans. Það var á þessum fyrstu árum hérvistar okkar, að inn komst hjá mörgum afar mikil aðdáun á öllu ensku. Þá var það, að fólk breytti nöfnum sínum að eins til þess að verkstjórar og húsbændur ættu hægra með að tala til þess; þá var það, að við sömdum okkur að öllum háttum hérlendra manna, án þess að athuga, hvort í þessu fælist aukin menning eða ekki; þá var það, sem sumt íslenzkt kvenfólk gerði sig sekt í því óheillaathæfi gagnvart þjóðerni sínu, að giftast hverjum sem bauðst, ef hann var enskur. Tilhneigingin til einhvers konar samblöndunar —hamskiftinga—við innlent fólk, var æði sterk, og hún var sprottin af þeirri meðvitund, að það væri óæskilegt, jafnvel eitthvað lágt, að vera útlendingur, og af of mikilli

aðdáun á því, sem hér var fyrir.

Að vísu var þá strax til þjóðrækni. Eg á ekki við það, að ósjálfráðu þjóðerniseinkennin hafi verið óafmáanleg, heldur það, að það hafi verið til veruleg sannfæring hjá mörgum um, að við ættum ekki að kasta okkur umsvifalaust inn í það líf, sem hér var fyrir, svo að við gleymdum því hverjir og hvaðan við værum. Þess vegna var stofnaður íslenzkur félagsskapur, þess vegn reyndu menn að halda Íslendingum saman. Hver veit hvað hefði orðið, ef enginn félagsskapur hefði verið stofnaður með Íslendingum á fyrstu árunum hér. Það er alls ekki óhugsanlegt, að við hefðum smám saman horfið inn í hinn enskumælandi hluta þjóðarinnar og að við hefðum, í samræmi við aðstöðu okkar þá, gert okkur ánægða með að fylla hóp hinna fáfróðustu og lítilsigldustu í landinu. Að vísu hefði okkur verið ómögulegt að breyta því, sem okkur var í blóð runnið, en við hefðum getað gleymt því og komist í ömurlegt umskiftingsástand vegna þess, að við hefðum heldur ekki til hlítar getað sameinast hérlendri þjóð á þeim tíma, sem við enn höfum dvalið hér. Það, sem við hefðum tapað, og sem áreiðanlega hefir verið okkur til ómetanlegs gagns í lífsbaráttunni hér, er meðvitundin um að Íslendingurinn megi ekki verða eftirbátur annara. Hver getur neitað því, að sá metnaður hafi knúið okkur áfram til að takast á hendur sumt það, sem við með réttu stærum okkur af?

Sem betur fór, var byrjað á því strax, að varðveita þjóðerni okkar, og þökk sé þeim mönnum og konum, sem gerðu það.

En hvað er um áframhaldið?

Það væri fjarstæða mesta, að halda fram, að við ættum á nokkurn hátt að taka upp á því, að einangra okkur og hafa sem allra minst afskifti að við getum af öðru fólki, eitthvað í líkingu við það, sem sumir þjóðflokkar hér í landi hafa gert, með fram af trúarbragðalegum ástæðum. Það er til skynsamlegur meðalvegur, sem á vel við aðstöðu okkar, eins og hún er nú.

Hagir okkar hafa breyzt mjög síðan á fyrstu árum okkar hér; okkur hefir á allan hátt vaxið fiskur um hrygg. Yfirleitt má segja, að við mætum alstaðar velvild og virðingu hinna enskumælandi samborgara okkar; Það eru undantekningar, ef nú er litið niður á Íslendinga hér, og alls ekki af þeim, sem eru sanngjarnir og réttsýnir í garð útlendra þjóðflokka. Þetta gerir okkur mögulegt að taka þátt í öllum sameiginlegum málum, alt neðan frá sveita- og bæja-málum upp til landsmálanna í víðtækasta skilningi. Við höfum sjálfsagt ekki alveg eins greiðan aðgang að opinberum störfum og enskir samborgarar okkar, en samt miklu greiðari en flestir, ef ekki allir samborgarar, sem af útlendu bergi eru brotnir. Það er okkur sjálfum til gagns, að við notum þessa möguleika sem bezt. Einkum ætti okkur að vera umhugað um að taka skynsamleg-

an þátt í landsmálum og hafa vakandi auga fyrir hverju, sem í þeim er líklegt til að verða landi og lýð til blessunar í framtíðinni. Hugsjón okkar ætti að vera sú, að hjálpa til að byggja hér upp dugmikla menningarþjóð, sem, ef unt væri, yrði laus við suma af verstu göllum annara menningarþjóða. Í þessu starfi stöndum við hér um bil jafnfætis þeim, sem bezt standa að vígi. Okkur ætti aldrei að gleymast það, að þetta land er okkar land, jafnt sem það er margra annara land, og að við erum ófráskiljanlegur hluti af lifandi og vaxandi þjóðarheild, sem hefir ótöluleg skilyrði til stórfengilegs menningarþroska. Þetta er einn hlutinn af sambandi okkar við innlendu þjóðina, en það er ekki alt sambandið.

Í þessu felst ekki samblöndun, heldur samvinna. Samblöndun er alt annað. Hún er í því falin, að renna saman við þannig, að öll sérkenni tapist, nema þau, sem liggja of djúpt í eðlinu til að tapast, en þau verða þá engum ljós nema þeim. sem kunna að reyna að fást við að rannsaka þau. Samblönduninni eigum við að standa á móti af fremsta megni. Hún er engum til gagns, en hún er okkur sjálfum til ills.

Samblöndunin er einkum tvenskonar: hún er bein blóðblöndun með giftingum íslenzks og enskumælandi fólks, og hún er sameining í máli, siðum og meðvitund fólks.

Um giftingar íslenzks fólks og annara hér í landi er það að segja, að reynslan hefir sýnt nægilega, að þær færa hlutaðeigendum venjulega minni hamingju, heldur en giftingar fólks af sama þjóðflokki. Það hefir einkum verið íslenzkt kvenfólk, sem hefir gifzt enskumælandi karlmönnum; giftingar íslenzkra karlmanna og enskumælandi kvenna eru varla teljandi. Ekki verður því neitað, að margar íslenzkar stúlkur hafi verið fremur hepnar í vali, en það er öllum kunnugt, að margar hafa ekki verið það. En jafnvel þótt mennirnir séu heiðarlegir, vandaðir og duglegir, skortir samræmið, sem er afleiðing sameiginlegra skoðana á ótal mörgu og svipaðra lífshátta, er vaxið hafa upp af hinum sama andlega jarðvegi, ef svo má að orði komast, í liðinni æfi. Það er ekki það auðveldasta, að komast í fult samræmi við hugsunarhátt og inngrónar venjur fólks, sem er, ef til vill, fætt og upp alið í öðru landi. Konan verður að vissu leyti útlendingur meðal þess. Annað í þessu sambandi, sem ekki má gleyma, er það, að viðkynningin á undan giftingu er all-oftast eingöngu yfirborðs viðkynning. Það er meira að segja ekki dæmalaust, að íslenzkar stúlkur hér hafi gifzt enskum mönnum, sem þær hafa vitað lítil eða engin deili á. Þegar undirbúningurinn undir hjónabandið er svona, er sízt að furða, þó að stundum fari ekki sem bezt; enda eru of mörg dæmi þess.

En er nú nokkurt vit í því, að tala um að koma í veg fyrir þessar giftingar? mun einhver vilja

spyrja. Nei, vitanlega verður ekki komið í veg fyrir þær, og enginn mun láta sér detta slíkt í hug. Giftingar fólks af mismunandi þjóðflokkum eru algengar hér í landi. En vegna þess að þær eru vandkvæðum bundnar, verður, ef vel á að fara, að nota hina mestu varúð. Það er náttúrlega verk foreldra, að láta sig þetta einhverju skifta. Hefðu íslenzkir foreldrar hér verið varkárari í þessu efni, þá hefðu slíkar giftingar orðið færri og farið betur. Þetta grípur inn í heimilislíf og uppeldismál, og mætti margt um það segja, og ekki alt okkur Íslendingum til hróss, ef út í þá sálma væri farið.

Hin samblöndunin í máli og siðum, er ekki eins erfið viðfangs, en auðvitað verður aldrei komið í veg fyrir hana algerlega. Það er ómótmælanlegur sannleikur, sem engum dylst, að enskt mál verðum við allir að kunna. Án þess er engin von um framför, ekki einu sinni möguleika til að lifa, nema menn vildu sætta sig við allra lélegustu atvinnu. Enskt mál verðum við að kunna eins vel og annað fólk, sem við verðum að keppa við. Mentunarmöguleikana verðum við að nota, sem bezt við getum, því hér í landi, sem annarsstaðar, er það algild regla, að því meiri sem mentunin er, því fleiri möguleikarnir að fá atvinnu; hvað þá að verða nýtur meðlimur þjóðfélagsins. En þetta er alls ekki hið sama og að nota ensku eingöngu og leggja niður íslenzkt mál. Þeir menn, sem halda því fram, að almenningur geti ekki kunnað nema eitt mál, þekkja víst mjög lítið til tungumála. Því meira sem menn læra, því auðveldara áframhaldandi nám. Þetta á við tungumál sem annað, og það gildir um alt fólk með heilbrigðri skynsemi. Að vísu er það satt, að flest fólk leggur það ekki á sig, að læra útlent mál, sé það ekki nauðbeygt til þess. En hér er ekki um útlent mál að ræða; hér er um tvö mál að ræða, sem verða lærð með lítilli fyrirhöfn, eins og við höfum öll lært okkar fyrsta mál. Íslenzka í heimahúsum, enska í skólunum fyrir börnin. Þetta er úrlausnin í þessu vandamáli, og hún er ekki ofurefli neinna íslenzkra foreldra, sem ekki brestur viljann.

Það, hversu margt af ungu fólki hér, sem á íslenzka foreldra, talar því nær eingöngu ensku, kemur til af því, að þeim hefir ekki verið kent hitt málið, og þaðan af síður verið innrætt ræktarþel til þess, sem íslenzkt er. Þessu fólki hefir verið kend enska, tvö hundruð daga á ári, frá sex til fjórtán ára aldurs, og sumum lengur, en íslenzku kenslan, sem það hefir notið, hefir all-oftast verið mesta kák; ofurlítil tilsögn í sunnudagsskólum og ef til vill einhver viðleitni heima. Mundi þessu fólki ganga vel að tala ensku, ef hún hefði verið kend því eins og íslenzkan? Eg held varla. Unglingar hafa engan ýmugust á íslenzku, nema foreldrar þeirra hafi hann. En það má ekki búast við, að þeir geti talað vel mál, sem þeir

hafa í rauninni aldrei lært, eða geti notað það á nokkurn hátt. En hvers vegna hafa ekki unglingar lært málið tilsagnarlaust ,af því að heyra það talað heima? Þeir hafa einu sinni ekki heyrt það talað rétt og óbjagað heima. Fjöldi eldra fólks talar ekki íslenzku eins vel og það kann hana og sízt af öllu við börn og unglinga. Vanalega aðferðin er sú, að lofa þeim að tala ensku heima og svara þeim á einhverjum íslenzkublendingi. Hvernig er mögulegt að búast við góðum árangri með þess konar hirðuleysi.

Siðir og venjur okkar hljóta að vera að mestu leyti eins og siðir og venjur annars fólks hér. Þó er sumt í ýmsum siðvenjum okkar, sem sérstaklega minnir á Ísland, sem gjarnan má haldast, og ekki missum við mikils þó að við látum sumt, sem er siðvenjur annars fólks hér, liggja á milli hluta. Yfirleitt er þetta ekki mikilsvert atriði. Við getur þar hvorki einangrað okkur né lagt niður alt, sem er sérkennilegt.

Hjá því getur ekki farið, að við eignumst með tímanum sameiginlega þjóðernis meðvitund með öðru fólki hér í landi, meðvitund um kanadiskt þjóðerni. Eg fæ ekki séð, hvernig nokkur maður getur álitið annað, en að það sé sjálfsagt. Því fólki, sem fæðist og elur allan aldur sinn hér, væri undarlega farið, ef það hefði ekki þess konar meðvitund. En þarf hún að útrýma úr hugum okkar ræktarsemi til Íslands? Nei. Það verður aldrei of vel brýnt fyrir okkur, að ræktarþel til Íslands felur ekki í sér neitt hollustuleysi til Kanada; og ást til Kanada, þarf sannarlega ekki að fela í sér óvild til Íslands. Þetta er svo auðsætt, að engum ætti að sýnast neitt annað. Sameiginleg meðvitund allra, sem hér búa, um að Kanada sé þeirra land, er ekki að eins æskileg, hún er sjálfsögð. En hver getur heimtað, að afkomendur Skota gleymi Skotlandi og afkomendur Íslendinga Íslandi? Engir nema þeir allra þröngsýnustu krefjast þess.

Þess konar samblöndun, er í rauninni engin samblöndun, heldur samvinna og samhugur. Hennar vegna glötum við ekki íslenzku þjóðerni, ef okkur tekst að varðveita minninguna og málið. Samband okkar við þjóð þessa lands ætti að vera þannig, að við værum sem heild innan stærri heildar. Það sem okkur sameinaði, væri meðvitundin um skyldleika, bæði andlegan og ætternislegan, í sérstökum skilningi og öðru vísi, en samband okkar við þjóðarheildina.

En er nú þetta þannig í raun og veru? Gerum við okkur grein fyrir afstöðu okkar hér? Margir virðast gera sér grein fyrir þessu sambandi eingöngu eftir því, í hvers konar afstöðu ytri kringumstæðurnar hafa sett þá. Þeir sem mikil mök hafa við enskumælandi fólk, eru of oft hrifnir af öllu, sem kallað er enskt. Þeir reyna ekki að aðgreina og meta. Aðdáun og eftirstæling er alt of oft helztu einkenni þeirra. Hjá hinum aftur, sem lítil eða engin mök hafa

við aðra en Íslendinga, vottar stundum fyrir hálf-einstrengingslegri skoðun um íslenzka yfirburði í öllu helzt. Þetta hvorttveggja er að misskilja sjálfan sig og aðra, það er skortur á þjóðarlegri sjálfsþekkingu. Því betur sem við lærum að þekkja okkar þjóðareðli, það varanlega í því, það sem við getum haldið við hér, og því betur sem við lærum að skilja rétt hin eðlilegu sambönd okkar út á við, því betri Íslendingar verðum við, og því betri Kanadamenn. Um fram alt þurfum við að taka ákveðna afstöðu með sjálfum okkur. Því ber ekki að neita, að við verðum að líta í tvær áttir; en það verða allir að gera, sem fluzt hafa í annað land og tekið sér þar bólfestu. Við erum eins og tréð, sem dregur næringu úr jörðinni með rótaröngum sínum og nauðsynleg efni úr loftinu með blöðunum. Þetta er eðli trésins, og við mennirnir erum líka náttúrlegum lögum háðir.



# Bæn sóldýrkandans.

Eftir Þorstein Þ. Þorsteinsson.

Himins og jarðar heilög drotning, Sól!  
Ást þín í geislans líki á lífið andar.  
Ljós þitt í heljarmyrkri kaldrar strandar  
reisir frá dauðum duft á veldisstól.  
Orka þín bláu björgin sundur mól.  
Gróandans ríkið græna sköpst úr sandi;  
geislasál þín varð manns og dýra andi  
tengdur sem ófætt barnið móður bandi.  
Blessaða upphaf, jarðlífs dýrð og skjól!  
Ljóshafsins vorskaut, sælt er sumar ól.  
Lát mér ei dimmu heims og heljar granda;  
hyl þig ei bak við ský né fjöllin stranda.  
Sign mig og skír í laugum himins landa;  
lyftu mér upp þá síðast dreg eg anda.  
Heilaga móðir, himins drotning, Sól!

# Skammdegiskvöld.

Eftir Þorstein Þ. Þorsteinsson.

Logar sólar lækka,
lækka söngva köll,
fagrir dagar fækka,
fækka blóm um völl.
Smástrá kalin smækka,
— smækka, hulin mjöll.
Húmsker vetrar hækka,
hækka blindsker öll.

Háa, hvíta tinda,
háfext öldu djúp
augun ekki mynda
undir rökkurhjúp.
Norðri í harða hlekki
heiða bindur stig.
Krummi krúnkar ekki,
kúrir rjúpan sig.

Skepnur hýrast heima,
húsa kjósa ró;
gjálfri hríðar gleyma
garðann við í kró.
Dreyma dýrðarhaga
dögum hlýrri frá.
— Sérhvert líf er saga
saknaðar og þrá.

Bæ und bröttu fjalli
byljir kveða við.
Hærra er haft á palli,
húss þar situr lið.
Allir iðja en hlusta,
orði hverju ná. —
Söngur bæjarbursta
betur hækka má.

Les um landsins garpa
listug æfintýr
karl með kampa snarpa
kröptug orðin skýr.
Þróttur mælir máli —
málið — dvergastál.
Brýst fram sem í báli —
bálið: — Íslands sál.

Inst í málsins arni
óskasteinninn býr.
Íslands unga barni
ættarljómi dýr.
Lyfting andans æðsta
er í rún þá sótt.
Hún ber ljósið hæzta
hverja vetrarnótt.

---

Blæs um borg við flóa,
blika kvöldljós smá.
Lærdómslaukar gróa,
lestir þroska ná.
Lengjast gatnagöngur
gamla Barna-Jóns.
Glymur Grótta söngur
gulls, er varð til tjóns.

Situr inni í sölum
sveipuð mildum reyk
þjóð frá djúpum dölum
dillaði í leik,
kaffi og kvikmyndanna
kvak og sjónspil hljótt
hitar fólki fanna
fram á rauða nótt.

Blæju nætur ber hún
borgin líkt og sveit.
Samt hve íslenzk er hún
almáttugur veit.
Eins og Grímur Ægir
ýmsa ber hún mynd.
Flimtir þjóð og frægir
fjörug holtakind.

* * *

Mest var ment og bezta
mædd við þraut er glædd;
hvest við brothljóð bresta,
blædd og endurfædd.
Mátt úr magni nátta
mæran andinn fær,
hátt þótt allra átta
ærist loft og sær.

# Fiskur í alla mata.

Saga eftir **Arnrúnu frá Felli.**

---

Ef gráa húsið við Magnagötu 39, Reykjavík, ryfi þögnina og segði þér sögu sína, kunningi góður, mundir þú verða að hafa þig allan við að sofna ekki út frá ljósinu. Og sértu ekki alveg nýkominn frá Ameríku, er líklegt, að það léti þig skila kvöldskattinum—svo oft hefði það nefnt fisk. Fisk af öllum gerðum: saltan og siginn, hertan og reyktan—fisk af öllum gerðum og verðum, allar götur frá grásleppu á fimm aura stykkið, til lúðu á tvær krónur tvípundið. Því gráa, óásjálega húsið við Magnagötu hefir mestan hluta æfi sinnar verið matsöluhús.

En gráa húsið á sér æskuminningar, rétt eins og aðrir. — Það mundi byrja á því, að segja þér frá ungu hjónunum, sem fyrst bygðu sér hreiður í skjóli þess; segja þér af hamingju þeirra; af björtum vonum og byggingu loftkastala. Það mundi geta barna þeirra, minnast á hve harðleikin þau voru við innviði þess, undir eins og þeim óx fiskur um hrygg. Það mundi brosa afsökunarbrosi, þegar það segði þér af öðru þeirra og segja: "Að börn séu ætíð börn." Svo kæmi endurtekning eftir endurtekning af baráttusögu ýmsra, fyrir daglegu brauði —og fiski.

Það segði þér af húsabraskaranum, sem sletti á það ódýrustu málningu sem bauðst, og klíndi á það pappír, sem varð skellóttur eftir einn sólskinsdag — þröngvaði því í loddarabúning. — Svo kæmi lýsing af langferðalest: matsölukonum, inn og út, út og inn; langloka af þreyttum vinnukonum, þreyttari húsmæðrum, og þreyttustum mötunautum.

Geta mundi það skólapiltsins, sem kom þangað að eins til miðdagsverðar, skólapiltsins, sem aldrei, leynt né ljóst, fann að fiski eða kakosúpu. — Og ef þú hlustaðir með athygli, mundi það hvísla að þér sögu litlu, ljóshærðu stúlkunnar með bláu augun og rjóðu kinnarnar, sem urðu fölar þegar á veturinn leið, fölnuðu æ meir, eftir því sem baugarnir um augun stækkuðu, og baugleysi hægri handar varð augljósara. — Að lokum mundi það rífa í öxlina á þér, og biðja þig að líta á, hvernig frú Stefanía Steinnes — ein matselja af mörgum — fer að kenna Sveinbjörgu litlu frá Svartagili að hreistra ýsu—henni Sveinbjörgu litlu, sem þykir "tros" herramannsmatur,—svo innarlega í afdölum er Svartagil. — Það ýtir þér góðlátlega inn fyrir þröskuld sinn. Þú stendur í þröngu anddyri, með fatasnögum á báðar hendur. Beint á móti þér eru dyrnar inn í eldhúsið, til hægri er borðstofan, en til vinstri "bezta

stofan.'' Þér er auðvitað boðið þangað inn. Píanó blasir við þér. Yfir því hangir stækkuð mynd af Ole Anderson Steinnes í kvartils breiðum eikar-ramma. Þú efast um með sjálfum þér, að nefndur Ole hafi haft jafn kaffibréfsrauðar kinnar, og myndasmiðurinn gefur í skyn; en þú getur vel gengið inn á það, að sólgula hárið sé rétt eftirstæling, þegar þú fær að vita, að fæðingarstaður hans sé Minnesota, og foreldrar hans: Gerða og Anders Olesen Steinnæset. Þú lítur fljótlega yfir rauða, upplitaða sófann og stólana, en augu þín staðnæmast við hálfopnar dyr á veggnum til hægri handar, það er rétt eins og hvíslað að þér, að dyr þær séu að svefnhúsi þeirra mæðgna: Stefaníu og Gerðu Oleu Steinnes. En af því þú ert maður kurteis með afbrigðum, snýr þú baki að dyrunum og fyllist eldlegum áhuga yfir vikugömlum ''Vísi'', með blýants krossi á bakinu, við smáleturs auglýsingu: ''Húsvön stúlka óskar eftir vist.''

———

Það var komið rétt að miðdagsverði. Frú Stefanía Steinnes tók kakopottinn af eldinum, og beiddi Sveinbjörgu að flýta sér að hýða kartöflurnar, og Gunsu blessaða að fara inn með smjörkúpuna. (''Biðjið ætíð um Otto Mönsteðs smjörlíki''). Fyrstu mötunautarnir voru að koma inn. Þórir og Arngrímur, skólapiltar. Og rétt á hælunum á þeim voru þær ''Kjaldalssystur'' svo nefndar: Herdís og Hallfríður Hávarðardætur, sem ekki fengu Kjaldalsnafnið í vöggugjöf, fremur en húsbóndi þeirra, heldur hafði fólk af hugulsemi gefið þeim það eins og nokkurs konar dýrtíðaruppbót fyrir langa þjónustu í skrifstofum Kjaldals.

''Fiskur eins og vant er—fiskur, fiskur, *fiskur* í alla mata!'' sagði Herdís um leið og hún snaraðist úr regnkápunni. ''Fiskur, kakósúpa, blár vellingur, blóðmör með háðsmerki og kartöflumjölsbúðingur! Það mundi líða yfir mig af undrun, ef annað væri á borðum rúmhelgan dag.'' — ''Það eru nú auðvitað vandræði, að vera húsmóðir, á meðan á þessu seðla fargani stendur,'' bætti Hallfríður við, um leið og hún losaði sig við sólhlífarnar; en þegar hún sá háðssvipinn á systur sinni, flýtti hún sér að segja: ''Það er ekki látið í askana okkar, sem utan á heimasætuna fer,'' og systir hennar áréttaði það: ''Það ætlar samt að dragast fyrir þeirri gömlu, að koma þeim saman, Eysteini ríka og hofróðunni, þó hún sé búin að halda henni til fyrir honum síðastliðin þrjú ár; þess vegna verðum við, ræflarnir, ag láta okkur nægja með fisk í alla ma— —''

''Ó, fyirgefið!'' Gerða Steinnes kom eins og vindstroka inn í andyrið og nærri því kollsigldi þær systur.

''Skárra er það!'' muldraði Herdís, um leið og hún opnaði borðstofuna, en Gerðu duttu í hug agúrkurnar, sem ekki voru súrsaðar í Lagermans ediki.

Þegar síðustu tónarnir af eftirspili miðdagsverðar sónötunnar—diskaglamrið—höfðu horfið út í geiminn, gekk frú Steinnes inn í svefnhús sitt, settist á rúmið, varpaði mæðilega öndinni og mælti við dóttur sína—sem sat í ruggustólnum "og tók það með ró" "Það er eins og bylur detti af húsi, þegar allur skarinn fer. Hamingjan veit, eg verð svo fegin í hvert skifti, sem máltíð er um garð gengin, að eg segi við sjálfa mig: 'Guði sé lof þangað til næst'. Eg held eg verði að taka af mér skóna og leggjast út af augnablik."

"Já, elsku mamma, gerðu það," sagði Gerða, um leið og hún setti höndurnar undir hnakkann, spyrnti í gólfið og lét stólinn spretta úr spori. "Þú klárar þig á því að hafa svona marga—svona marga matmenn, eins og Eysteinn kemst að orði."

"Það var honum líkt, að segja það! Nærgætnari mann er ekki hægt að hugsa sér. Hún er ekki lánlaus, stúlkan, sem hann tekur að sér. Hann er alveg framúrska— — —"

"Heyrðu, mamma!" greip Gerða fram í; hvenær ætlar þú að láta verða af því, að skreppa vestur? Þú ættir að gera það, á meðan skipin ganga til New York. Það er ekki víst, hve lengi það verður. Það er svo miklu ódýrara. Þú sannarlega þyrftir að lyfta þér upp."

Stefanía hristi höfuðið. "Eg hefi ekki nóg enn þá fyrir ferðinni og minnisvarðanum, og hvernig ætti eg að komast að heiman, hverjum ætti eg að trúa fyrir húsinu og öllu hér; hver heldur þú að vildi taka það að sér, nema með einhverjum afarkostum?"

"Eg,' sagði Gerða og teygði úr sér.

"Þú! Ertu alveg frá þér! Heldurðu að eg fari að láta þig standa í öðru eins stímabraki? Heyrðu! kom ekki einhver inn í stofuna? Vittu!"

Gerða spratt á fætur, opnaði hurðina, og stóð augliti til auglitis við Eystein útgerðarmann Ásmundsson. Það kom dálítið fát á hann, þegar hann sá að Stefanía lá út af, og byrjaði að biðja afsökunar; en frúin fleygði út línu, tilkynti að hún væri að eins dálítið þreytt, og beiddi hann um að tylla sér. Gerða roðnaði, tók rauðan silkikjól, sem hékk á herðatré fyrir ofan saumavélina, og fór í óða önn að draga úr þræðingar. Hún virtist upp á síðkastið þurfa að keppast við eitthvað, þegar Eysteinn "kom á milli mata", eins og hann var farinn að hafa fyrir sið.

"Þér verðið að fyrirgefa, hvernig hér lítur út. Við höfum verið að grípa í þetta saumarí í frístundum okkar."

"Frístundum! Eg hélt þér hefðuð ekki margar frístundir, frú Steinnes."

"Það er von þér segið það. Það er nærri broslegt, að heyra mömmu tala um frístundir! Eg er viss um, að hver einasta vinnukona mundi snúa á grindina, ætti

hún að gera þrítugasta og áttunda partinn af því, sem mamma gerir!" Hin kolbrúnu augu Gerðu Steinnes tindruðu. Eysteinn horfði á glóbjart hár hennar. Þaðan hvörfluðu augu hans að höndum hennar, sem keptust við að koma þræðingunni fyrir kattarnef.

"Vertu ekki að þessum ýkjum, góða barn!" Stefanía reis á olnboga.

"Það eru engar ýkjur, mamma. En því meira sem þú leggur þig í líma fyrir þetta fólk, því vanþakklátara verður það. Það heldur það geti fengið hangiket og steik á hverjum degi, og haldið áfram að borga þriðjungi minna en aðrir setja upp! Ef eg heyri Kjaldals Herdísi segja oftar: 'Fiskur í alla mata!', þá held eg að eg geti ekki stilt mig um, að segja henni að hypja sig."

"Ha! ha! Það væri vel af sér vikið. Má eg kveikja í vindli?"

"Já! gjörið þér svo vel. — Það er nú auðvitað nokkuð satt í þessu með fiskinn, Gerða mín; en hvað á maður að gera, þegar ekki fæst svo mikið sem íshúskjöt, og alt annað er hnitað niður á seðla? — Maður á ekki að vera svona hörundssár — og þær borga báðar skilvíslega, og það er meir en maður getur sagt um sumt af hinu fólkinu—þegar maður undanskilur yður, sem ætíð borgið fyrir fram, stundum fyrir nokkra mánuði. Maður getur ekki búist við að hitta svoleiðis menn á hverju strái."

Eysteinn roðnaði og saug vindilinn í ákafa. — "Blessaðar verið þér, frú Steinnes! Fyr mætti nú vera tuddaskapurinn, ef eg léti yður bíða eftir fæðispeningunum. Mér þykir að eins eitt leitt, og þér vitið vel hvað það er, að þér hafið aldrei viljað lofa mér að borga meira en hinir 'matmennirnir'. Bæði er nú það, að eg er færari um það en flestir; og svo hafið þér verið svo einstakar að lofa mér að vera hér heimagang. Mér hefir fundist eg eiga hér heima, en ekki í stofunum á Hverfisgötunni."

"Yður hættir nú að finnast það, þegar húsið yðar er tilbúið."

"Getur verið," svaraði Eysteinn lágt.

Gerða var eins og á nálum. — "Mér finst þú ættir að láta Kjaldalssysturnar fara, og aðra, sem baktala okkur og finna að öllu."

"Það finst mér líka," sagði Eysteinn.

"Já, það væri auðvitað æskilegt. En fátæk ekkja eins og eg, verður að láta slíka smámuni eins og vind um eyrun þjóta. Ef eg hefði ekki aðra en sjálfa mig að taka tillit til, þá væri alt öðru máli að gegna."

"Mamma! eg man ekki hvað oft eg hefi beðið þig um að lofa mér að vinna eitthvað í sumarfríunum. Heldurðu ekki að mér hafi þótt það blóðugt, að láta þig vinna fyrir mér, fulltíða stúlku!"

Tár lögðu hulu yfir augu frú Steinnes. "Eg veit þér skiljið það, Eysteinn, að mig langar til að einkabarnið mitt fái þá mentun, og komist í þá stöðu, sem eg

svo árangurslaust óskaði mér. Þess vegna hefi eg látið hana ganga á kvennaskólann, látið hana læra að leika á píanó, og í það heila tekið veitt henni eins góða mentun og mér var unt. Eg er vön að vinna; þréttán ára, þegar eg fór að vinna fyrir mér, og tvítug stóð eg uppi með kornbarn á handleggnum og átti einu sinni ekki fyrir útför mannsins míns sáluga."

"Mamma!"

"Það má hver maður lá mér það sem vill, þó mig langi til að telpan mín lendi ekki í því sama — að svo miklu leyti, sem eg get afstýrt því."

"Eg mun verða síðasti maður til að lá yður það" — Eysteinn reykti í ákafa.. "Eg vildi eg fengi einhvern tíma tækifæri til að halda ræðu í heyranda hljóði fyrir minni yðar. Það væri nokkuð einkennilegt að halda skálaræðu, og vita fyrir Guði og samvizku sinni, að ekkert lofsyrði væri ofmælt."

"Ó, blessaðir verið þér! Svei mér ef eg held ekki, að þér séuð þegar byrjaður!" — Stefanía roðnaði. — "Hamingjan sanna! Eg var nærri því búin að gleyma því, að eg lofaði konu vestur í bæ að koma til hennar í dag, það var vel á minst! Eg verð að biðja yður að afsaka mig. — Nei, nei! Eg var ekki að reka yður út. Gerða! viltu ekki spila eitthvað af þessum nýju lögum, sem þú fékst um helgina?" — Gerða hnyklaði brýrnar, en Eysteinn keptist við að dusta ímyndaða ösku af vestinu.

---

Frú Steinnes virtist hafa átt meir en lítið erindi við konuna vestur í bæ, að minsta kosti fanst dóttur hennar það. En þegar hún svo loks lauk upp hurðinni, varð Gerðu svo bylt við, eins og kallað hefði verið að kviknað væri í húsinu.

"Hvar er Eysteinn?" spurði Stefanía, og leit undrandi í kring um sig, eins og hún byggist við, að hann hefði falið sig í einhverju horninu.

"Farinn," hvíslaði Gerða, og hnipraði sig kafrjóð og niðurlút í sófahorninu.

Stefanía fálmaði skjálfhent eftir hattprjóninum, þeytti frá sér kápunni, og settist í sófann. — "Gerða! lof mér að kyssa þig!"

"Fyrir hvað, mamma?" Það var kuldablær í röddinni.

"Fyrir hvað! Eg er nú eldri en tvævetur, barnið mitt. Eg er ekki blind á báðum augum, sem betur fer. Eg hefi séð, hvað var í aðsigi."

"Eg veit ekki hvað þú átt við."

"Ef það finst einurðarminni maður en Eysteinn Ásmundsson, má seppi heita í höfuðið á mér!"

"Það er vissara fyrir þig að taka þá hótun aftur. Hann— hann beiddi mín."

"Vissi eg ekki, að þetta skilningsleysi var tóm ólíkindalæti! Lof mér að — — —"

Gerða spratt upp úr sófanum, settist á píanóstólinn, fálmaði við vasaklútinn sinn og horfði í

gaupnir sér. — "Mamma! það er alveg eins og þú gangir út frá því eins og gefnu, að eg hafi—hafi tekið honum!"

"Hvað þá! ekki hvað? Þú ætlar þó ekki að reyna að telja mér trú um, að þú hafir — — —"

Gerða einblíndi á móður sína, eins og hún hefði aldrei séð hana fyr. "Hafði þér virkilega dottið í hug, að eg væri skotin í honum Eysteini? Er þér alvara, mamma! Hefirðu ekki tekið eftir því, að hann er farinn að skifta rétt fyrir ofan eyrað, til að hafa eitthvað til að—til að greiða yfir skallann!"

"Nú hefi eg aldrei heyrt skoplegri ástæðu! Varstu ekki alveg nýlega að dást að Gunnari lækni? sagðir hann væri eins og ungur piltur—hamingjan veit, ef hans höfuðhár væru talin, mundi verða mjótt á milli — — —"

"Jú, en þeir eru nú svo ólíkir menn. Eysteinn er ekki svo gamall eftir kirkjubókinni, en hann er gamall og ráðsettur, alveg eins og hann væri tilbúinn að setjast í helgan stein."

"Að þú skulir ekki — Ætlar þú að telja manni það til ógildis, að hann sé ráðsettur! Eg hefi aldrei heyrt annað eins, síðan eg heyrði eftir stúlkunni, að hún vildi ekki eiga skikkanlegan mann! Það getur vel verið, að Eysteinn beri einhver merki þess, hve vel hann hefir unnið, hvað miklar áhyggjur hann hefir haft. Hugsaðu þér, það eru ekki nema fjórtán ár, síðan hann kom labbandi ofan úr sveit, rúmlega tvítugur, með fimm kindur, og fjörutíu og sjö krónur í vasanum. — Hann sagði mér það sjálfur— Og nú er sagt, að hann eigi að minst kosti hálfa miljón."

"Hýða mig á Lækjartorgi, fyrir hálfa miljón," muldraði Gerða.

Stefanía lét sem hún heyrði ekki, færði sig til í sófanum og sagði: "Komdu hingað, lambið mitt!"

Gerða stóð upp með hægð, eins og hún ætti von á hirtingu.

"Þú hefir ekki gefið honum algert afsvar? Þú getur ekki fengið betri mann en Eystein. Eg veit hvað eg er að fara með, hefi þekt hann í sjö ár. Þú manst hann kom til okkar árið eftir að við komum að vestan. Nærgætnari mann er ekki hægt að hugsa sér, hann mundi bera þig á höndum sér, léti alt eftir þér, og sigldi með þig hvenær sem þig langaði. Minnir þú værir að tala um það nýskeð, hvað þig langaði til Hafnar?"

"Jú, en ekki með—með honum."

"Eg sem hafði verið að hlakka til — —"

"Mamma! Hvernig stendur á, að þér skyldi detta annað eins í hug?"

"Hefirðu nokkurn tíma hugsað út í það, barnið mitt" —það var gráthljóð í röddinni — "hvernig æfin mín hefir verið? Vinna og áhyggjur — áhyggjur og vinna, síðan eg var þrettán ára. Nei, þú skilur ekki hvað það er, að þreyta kapphlaup við fátæktina, þetta skrímsli, sem drekkur blóðið úr þeim, sem hún hremmir. Þú veizt ekki, hve nærri eg var að gefast upp, einkum fyrst í stað, þegar eg

varð að senda þig á vöggustofu, meðan eg þrælaði í eldhúsinu á Hotel Harrison. Eg hefi heldur ekki dansað á rósum, síðan eg kom heim, að hafa allan þennan fans í fæði, og fákunnandi stúlkur til hjálpar. En það, sem hefir kveðið í mig kjarkinn — þegar eg hefi ætlað að gefast upp—ert þú. Eg hugsaði sem svo: Eg hefi ekki fengið þá mentun, sem mig langaði til, eg hefi aldrei haft heimili eftir mínu geði; í stuttu máli, aldrei haft neitt í námunda við óskir mínar—, svo eg vafði öllum óskum mínum og vonum um þig. Þú skyldir fá þá mentun, er eg þráði, þú skyldir fá að þekkja áhyggjulausa gleði unglingsáranna, og að þeim loknum giftast góðum manni, sem bæri þig á höndunum, sem hefði bæði vilja og getu til að gefa þér gott heimili. Þegar eg svo sá, hvað Eysteini bjó í brjósti, var sem allar mínar óskir væru að rætast.

"Eg skil vel, elsku mamma. En þú blíndir um of á Eystein. Það eru til margir aðrir góðir menn."

"Það eru fáir Kára líkir. Manstu hvað hann var henni Unu gömlu góður? Þú getur nærri, hvernig hann mundi verða konunni sinni, þegar hann sýnir gamalli uppgjafa sveitavinnukonu aðra eins alúð og umhyggju, bara af því hún hafði vikið góðu að honum, þegar hann var drengur. Það hefði einhver verið búinn að gleyma því nokkrum sinnum. Eg gæti hugsað mér, að oddvitinn gamli í Leifstungu hreppi, vildi gjarnan hafa komið öðru vísi fram, þegar hann sá hvað — —. Og eg sem hélt, að þér þætti vænt um Eystein — eg skil ekki framkomu þína. Nú er húsið hans að verða tilbúið, snjóhvítt steinhús, með öllum þægindum, gas, rafljós, baðherbergi og hvað eina. Eysteinn lét byggja það eftir lýsingu minni á húsi Berggreen fasteignasala — þú manst eg gerði þar hreint rétt áður en við fórum heim. — — Nei! Eg þekki engan mann, sem eg er jafn-viss um að bæri konu sína á örmum sér."

"Eg kæri mig ekkert um að vera borin á höndum eins og barn. Eg vil standa við hlið mannsins míns, og taka þátt í baráttunni með honum."

"Þetta væri nú gott og blessað fyrir lokasetningu á kvenréttindafundi. En lífið er ekki pólitísk slagorð og ræðuhöld. Það er sagt, að gæfan berji að eins einu sinni að dyrum. Elsku barnið mitt, láttu hana ekki fara fram hjá."

Gerða grúfði sig niður við höfðalag sófans, herðar hennar skulfu.

Stefanía strauk um höfuð henni. "Gerða mín! Hjartans barnið mitt, hvernig stendur á, að þú tekur þetta svona? Eg hélt afsvar þitt væri að eins unggæðisháttur, og þú vildir láta hann ganga á eftir þér. Mér hefir fundist þú koma svoleiðis fram við Eystein, að þú værir að eins að bíða eftir — —"

"Nei! nú-er-eg-svo-aldeilis-steinhissa!" stundi Gerða upp.

Stefanía starði á hana; hún var líka steinhissa. "Mér er innanbrjósts eins og iðrandi afbrotamanni. Þarna hefir hann spurt

mig um alla tilhögun á húsinu, og jafnvel pantað eftir verðskránni húsgögn, sem þú varst að tala um þér þættu svo falleg! Þó hann hefði aldrei nefnt þig á nafn í sambandi við húsið, þá hefi eg lesið á milli línanna, það sem fram er komið. Mér þykir allra sárast, að þú skyldir gefa honum svona undir fótinn.''

Gerða settist upp—horfði grátbólgnum augum á móður sína—: ''Eg hefi aldrei viljandi gefið honum undir fótinn — eg get ekki gert að því, að þú hefir gert það fyrir mína hönd. — Mér hefir aldrei til hugar komið, að hann væri að hugsa um mig. Raunar hefi eg ekki kunnað við framkomu hans upp á síðkastið. En mér datt aldrei í hug — —''

Stefanía tók utan um dóttur sína, lagði grátvott andlit hennar upp að vanga sínum. ''Það er þó vænt eg ekki neinn annar, sem þú ert að hugsa um?''

''Eg—eg veit ekki''.

''Ha?''

''Eg—eg —

''Segðu mér nú eins og er, elskan mín. Þú veizt að öll mín hugsun er og verður um velferð þína. Framtíð þín, er það eina sem mér liggur á hjarta.''

''Mamma, þú veizt—''

''Segðu mér það, hjartað mitt!''

''Eg á svo bágt með að tala um það, það er svo — svo nýtt.''

''Nýtt?

''Ekki alveg tíu dagar síðan —

''En *hver* er það?''

'''Þú veizt það.''

''Nei, það veit hamingjan! Eg veit ekki hver það getur verið. Það er þó vænti eg ekki —

''Nei, mamma, eg get ekki sagt — Ef til vill áður en hann siglir á spítalana''.

''Það er þó ekki Sverrir Daníelsson, læknastúdent?''

''Hann útskrifaðist fyrir viku síðan, með fyrstu einkun.''

''Drengur á aldur við þig. Barnið mitt gott!''

''Þrem árum. Verður tuttugu og fjögra í sumar.''

''Hálfbakaður læknaskólastústúdent, með rokna klyfjar af skólaskuld á bakinu. Guð sé oss næstur!''

''Það er ekki eins og við ætlum að gifta okkur strax (en það er nú einmitt sem Sverri langar til, hugsaði Gerða) en okkur langar til að opinbera, áður en hann fer til Hafnar.''

''Ár í Höfn að minsta kosti — eins og sagt er að sukkið sé þar — og fá svo einhvern útkjálka skika þegar heim er komið — það-an sem engum er aftur kvæmt! Hefurðu hugsað út í, hvernig hagar til með embættisveitingar lækna hér? Það er eins og að draga á tombólu: Getur fengið fimtíu króna lampa; en meiri líkur til að fá gamla reykjapípu, eða götugann flibba. — Kotbóndasveit norður við Sandfjörð, eða eitthvað því um líkt. Guð hjálpi þér, barnið mitt!''

''Mamma, mér þykir svo vænt um hann. Eg vildi heldur fara með honum til Hornstranda, eða út í Grímsey, heldur en giftast

manni sem ætti—ætti alla Reykjavík!"

Stefanía hrukkaði brýrnar, og roðinn sem hafði verið að smá aukast, færðist niður á hálsinn. "Þú veizt ekki hvað þú ert að fara með. Ást og blávatn er *allright* í eldhúsrómönum. En eg gæti hugsað mér, að það kvæði við annan tón, þegar þú færir að búa í moldarbaðstofu, og bíða hrædd með barn á handleggnum, meðan maðurinn þinn væri að brjótast áfram í sköflunum, eða að velkjast í einhverju mótorbáts-skriflinu, sem vélin gæti dumpað úr á miðjum firði. Ekki svo mikið að þú gætir haft góðar bækur til að skemta þér við — þið hefðuð ekki ráð á að kaupa þær. Fyrstu tíu árin hefðuð þið fult í fangi með að borga verkfærin hans, og grynna á skólaskuldum."

"Mamma, þú lítur eitthvað svo — svo Ameríkulega á þetta."

"Viltu gera svo vel að láta Ameríku vera fyrir utan þetta tal. Annars hefur mér satt að segja stundum fundist, það gerði ekki til þó landinn hér heima, hefði svo lítið meira af mannshug Ameríkumanna, þó þeir þá hefðu einni mörk minna af andlegheitum og amen-tali, pappírs-sjálfstæði og sögudýrkun. — En svo ekki meir um það. Hvað eg vildi segja en ekki þegja. Eg hefi komið í of náin kynni við fátæktina, til að láta einkabarnið mitt lenda í sama, eða verra — alveg mótmælalaust."

"Þú þarft að tala við Sverri, mamma. Hann er ekki hræddur við erfiðleikana. Hann kvíðir því ekki, þó hann svo fengi landshorn úr — úr tombólukassanum. Það yrði of langt mál að telja upp alt, sem hann ætlar að gera og laga til, þar sem hann verður læknir. Til dæmis — "

"Já, til dæmis, t. d., og svo framvegis, o. s. frv. Eg kannast vel við þær ráðagerðir. Eg held það hafi verið fyrsta árið okkar hérna, að Þórólfur læknir á Dalatanga, var í fæði hjá mér mánaðartíma, eða svo. Hann var nýkominn frá Höfn, og var að bíða eftir happadrætti úr skríninu góða. Brennandi af áhuga var hann; ætlaði að gera einskonar hreinlætis stjórnarbyltingu í héraði sínu; byggja sjúkraskýli, láta steinsteypa alla brunna, láta hvern mann sofa við opinn glugga, útrýma öllum óþrifnaðar sjúkdómum, eins og taugaveiki, kláða, o. s. frv., láta byggja náðhús á hverjum bæ; eins og þú sagðir: of langt mál að telja það alt upp, sem hann ætlaði að gera. Sástu hann um daginn, þegar hann kom eftir sjö ára veru út á landshorni? Hann, snyrtimennið! órakaður með ekki of hreinann flibba, og í fötum sem litu út eins og hann hefði sofið í þeim alla leið. Hann, sem einn af kennurum hans sagði um, að hann væri sá eini af nemendum sínum, sem sér þætti líklegt að verða mundi eftirmaður sinn — er nú talið það eitt til gildis, að hann sé "dágóður lungnabólgu læknir."

"Það eru margir læknar búnir að koma því í verk, sem þessi Þórólfur þóttist ætla að gera. Mér finst þessi drykkfeldi Dalatanga

læknir, vera bágborin rök fyrir máli þínu. Svo er sagt, að hann sé mjög örgerður, og hefur náttúrlega farið hranalega að bændunum — viljað breyta öllu í hendingskasti. Sverrir er bóndasonur, og veit hvað lipurlega verður að fara að bændafólki. Og ekki er hætt við hann drekki, hann hefur aldrei bragðað vín."

"Hann er nú ekki búinn að vera í Höfn, góða mín. En það segi eg satt, að eg er alveg hissa á því, að allir læknar skulu ekki vera drykkfeldir. Það er nú fyrst og fremst, að engir menn aðrir hafa það jafn ónæðissamt; rifnir upp hvernig sem viðrar, og eru iðulega svangir og kaldir í svaðilförum á sjó og landi; en svo hafa hinir vitru löggjafar — ofan á þetta alt saman — þraungvað þeim til að vera vínsalar. Ef eg væri karlmaður, mundi eg heldur vilja vinna eyrarvinnu, en vera útkjálkalæknir. Hugsa sér, að eyða öðrum helmingi æfinnar til að binda sér skuldafjötra, og hinum helmingnum til að losa sig úr þeim."

"Veiztu það, mamma, að þú ert sá röksamlegasti lækna málsvari, sem eg hefi fyrir hitt. En þú gleymir því sem mest er um vert: útkjálkafólkinu. Læknarnir eru til fyrir fólkið, en fólkið ekki fyrir læknana."

"Málsvari læknanna! Ef þú heldur að eg hafi verið að halda varnarræðu fyrir læknana, þá hefi eg skotið þokkalega fram hjá markinu. Það getur vel skeð. að útkjálkafólkið eigi skilið að hafa góða lækna, eg get vel unt því þess; en þegar framtíð barnsins míns er í veði — þegar eg á að sjá öllum vonum mínum og óskum fleygt út á útkjálka, þá held eg varnarræðu — gegn því. Eg veit við erum nokkuð einhliða mæðurnar — sjáum ekkert annað en börnin okkar, þegar hætta er á ferðum; og eg skal fúslega kannast við það, að eg get ekki tekið hag einhvers ókunnugs fólks, fram fyrir hag barnsins míns, eg vildi gjarnan sjá þá móðir sem öðruvísi væri gerð, eg býst við að það sé leitun á henni. En þú ert ekki alveg ákveðin? — Hún dró Gerðu þéttar að sér — þið eruð ekki—"

"Jú, við erum — og þó við ekki værum — þá mundi eg aldrei giftast Eysteini, það er ekki til neins að nefna slíka fjarstæðu."

"*My God!* eins og eg hefi hlakkað til að hafa þig hérna nálægt mér, geta heimsótt þig, og glatt mig yfir því, hve vel þér liði. Þegar svo þið væruð komin heim úr brúðkaupsförinni, gæti eg skroppið Vestur til að sjá gamla kunningja, og setja stein á leiðið hans föður þíns sáluga. En þó sú álman af loftköstulum mínum hryndi, ef eg aðeins væri örugg um framtíð þína. Eg skal raunar ekki segja mig betri en eg er; eg hafði hugsað mér að hafa minna umleikis, þegar eg væri orðin ein — hafa aðeins nokkra alþingismenn, og heldrafólk utan af landi, því satt að segja, er eg farin að gefa mig."

"Mamma! hjartans elsku mamma, gráttu ekki!"

"Lof mér að vera í friði! Það gerir ekkert til með mig. Eg er

svo ósköp þreytt. Lofðu mér að hvíla mig."

Gerða settist við píanóið litla stund, en þegar hún heyrði að mamma hennar var hætt að gráta, sneri hún sér við á stólnum og sagði: "Mamma mín góð! Þetta getur lagast — breyzt eitthvað."

"Svona, við skulum ekki tala meir um það." Stefanía settist upp, og lagði hendurnar á hnén. Gerðu hnykti við, þegar hún sá í fyrsta sinn, að móðir hennar var þreytuleg miðaldra kona, og að hár hennar var ekki lengur kolsvart í vöngunum.

"Hver veit nema — "

"Komdu hérna augnablik, og seztu í keltu mína."

Gerða settist, lagði hendurnar utanum háls henni, og kysti hana. Það var löng þögn, sem Gerða rauf að lokum. "Hver veit nema Sverrir — "

"Manstu þegar eg kom með völurnar, sem eg tíndi úr ruslakassanum á Hótel Harrison? Eg held þér hafi aldrei þótt vænna um nokkurt leikfang, er þú eignaðist. Komdu með greiðuna þína, svo eg geti greitt þér eins og þegar þú varst lítil. Man eg hvað mér þótti vænt um að blessaður kollurinn var bjartur, og sveipur í vinstri vanganum, alveg eins og á honum pabba þínum sáluga. Í fyrstunni var eg að vona að augun þín væru blá, en svo fanst mér það ekkert gera til þó þau væru brún, af því þau eru svo falleg. Þá er eg búin; farðu nú að hátta, eg kem rétt bráðum."

Gerða brosti í gegnum tárin á meðan hún afklæddi sig; brosti framan í myndina af framtíðarlandinu, um leið og hún hafði yfir í huga sér orð skáldsins:

"Þar skyggir aldrei ský á sól,
þar skína dagar nætur-laust.
Þar allir tímar eru jól
og enginn vetur þar né haust."

Hún var í engum efa um, að óskaland elskenda, hefði vakað fyrir skáldinu, þegar þetta fagra ljóð varð til — þó það hefði komist kirkjuklætt inn í sálmabókina. En líklega mundi einhverjum finnast það goðgá, sá skilningur sem hún legði í versið; hún ætlaði að tala um það við Sverri á morgun; það yrði gaman að heyra hvað hann segði; en áður en hún gerði sér í hugarlund, hvað hann mundi segja — var hún sofnuð. — — —

Sveinbjörg stóð á píanóstólnum, og teygði úr sér til að þurka framan úr myndinni af Ole Anderson Steinnes.

"Það er gott að sú gamla sér þig ekki standa á berum stólnum — eg veit ekki hvað hún mundi segja. Hérna er gamall "Víser", stígðu á hann!"

Sveinbjörg hröklaðist ofan af stólnum, og gerði eins og henni var sagt.

"En það skal eg segja þér, að það er béfað pjatt og snurfuss, að taka út þessar teppapjötlur og gæruskinns bleðla á hverjum degi, þó sú aldraða segi það; ef þú strýkur vel í kringum þær. En ef kerlingin spyr þig, þá segir þú að þú hafir gert það, því annars færðu skömm í hattinn."

"Eg lofaði mömmu því, að gera ætíð eins og mér væri sagt."

"Það er ekki hægt að segja annað, en þú gerir það, ef þú ferð eftir því, sem eg segi þér. Þú verður að læra að verða svolítið sjálfstæð, og fara ekki eftir öllum tiktúrum kerlingarinnar — þú veizt ekki alt sem eg veit — líka. En það skal enginn geta sagt það um hana Gunsu mína, að hún fari með slúður. Eg ætla ekki að fara að útbásúna það, hvers vegna miljónerinn kom ekki í morgun."

"Miljónerinn? endurtók Sveinbjörg, og fitlaði við rykþurkuna.

"Hélztu mér yrði mismæli? Maður þarf ekki að fara alla leið til Am'riku til að ná í miljónera. Eg skil bara ekkert í hvað vitlaus hún er, að vilja hann ekki. Hún heldur líklega að hún geti krækt í Fidda krónprins."

"Hver?"

"Hvaða ógnar sauður ertu, Bagga mín! Frökenið hérna, hún Gerða."

"Hún Gunna í húsinu fyrir handan, sagði hún væri altaf með einhverjum skólapilti — einhverjum á læknaskólanum."

"Háskólanum meinar þú! Eg skil ekki hún meini mikið með því. Veiztu ekki, að skólapiltar eru gengnir úr móð, síðan miljónerarnir komu til sögunnar? En sumt fólk er svo grefili grunnhyggið! Kannske hún hafi þess vegna hryggbrotið Eystein. Eg sá þegar hún hryggbraut hann — sá það í gegnum skráargatið. Hann féll nú samt ekki á kné, eins og Baron Adolf í sögunni: "Den röde Dame", sem eg var að lesa í gærkveldi. — Seztu hérna á stólinn, legðu fingurnar á nóturnar, eins og þú værir að spela — svona! Nú gríp eg um hendurnar á þér og segi: Gerða! mig hefur lengi langað til að — þú sprettur á fætur, og verður steinhissa; það verður maður ætíð — þey! þey! kom ekki einhver inn í forstofuna? Ætla það sé mögulegt, að Am'ríka gamla sé búin að ljúka sér af niðr' í bæ? Blessuð! þú verður að látast vera að þurka af einhverju, ef það er hún." Gunsa rauk í svæflana á sófanum, og klappaði þeim óþrymilega.

"Eru þið ekki búnar, stúlkur mínar?" spurði Stefanía, um leið og hún kom inn.

"Rétt að enda," sagði Gunsa, en Sveinbjörg roðnaði og skauzt út.

Stefanía settist við lítið dragloks skrifboð, sem var eitt af þeim fáu munum, sem hún hafði komið með frá Ameríku; dró út skúffu, tók þaðan verðskrá frá Lindstrom, Sturmer & Co., minnisvarðaverzlun, St. Paul; fletti henni eins og í hugsunarleysi; stanzaði við snotran marmara kross, horfði á hann, þar til hann hvarf í þoku; tók svo verðskrána; reif hana í tætlur; og kreisti tætlurnar svo fast í hendi sinni, að hnúarnir hvítnuðu. Það var eins og steinn dytti ofan í pappírskörfuna, þegar hún loks opnaði lófann.

Gerða koma inn, gekk rakleitt inn í svefnherbergið; lagði frá sér hatt og kápu, kom svo fram í dyrnar og staðnæmdist þar hikandi.

"Það er — er indælt veður í dag."

"Já."

Þögn.

"Gullfoss fær gott veður til — til Hafnar, ef þessi tíð helzt."

"Það er ástæða til að halda það."

Alt í einu virtist Gerðu vaxa ásmegin. Hún gekk einbeittum skrefum í áttina til móður sinnar, tók báðum höndum um axlir hennar, og hvíslaði: "Sverrir fer með Gullfoss. Hann er búinn að kaupa hringana. Elsku mamma! Eg get ekki — get ekki annað. Reyndu að ryfja upp fyrir þér tímann, þegar þið pabbi sálugi voruð ung í Minnesota. Spurðu sjálfa þig, hvort þú hefðir snúið við, þó þér hefði leyfst að skygnast inn í framtíðina. Viltu reyna að gera þér í hugarlund, hverja sálargleði það veitir, að hjálpa öðrum. Manstu hvað hann Jón gamli nágranni okkar sagði, þegar við komum að kveðja hann? Blindur og hjálparvana eins og þú manst: "Ef mér væri unt að fara heim — þú veist það Stefanía mín, að gæti viljinn greitt fargjaldið mitt, væri eg löngu farinn — og gæti farið höndum um gróðurlausu holtin og melana heima; mundu grös og jurtir spretta, þar sem fingur mínir hefðu snert. Öll mín ást og þrá til eyjunnar kæru, mundi streyma eins og gróðurmagn í gegnum fingurgóma mína. Eg hvísla þessu að þér, því fólkið hérna héldi að eg væri gamalær, ef það heyrði til mín. — Eg veit þú manst það, mamma. Og þegar Sverrir kemur heim, þá ætlum við að reyna á einhvern hátt, að láta trú Jóns heitins blinda rætast. Því Sverrir hefir lofað að taka að sér Jökulness umdæmið, þegar hann kemur frá Höfn."

Stefanía hafði á meðan á þessu stóð, haldið hendinni um lykil, sem stóð í skrifborðsskúffunni; nú opnaði hún hana, tók þykkann seðlabunka og nokkra smápeninga, og lagði þá á skrifborðið.

"Hérna eru þrjú þúsund tvö hundruð og ellefu krónur, fimtíu og sex aurar, það er alt sem eg á í reiðum peningum. Það er ekki stór heiman mundur; sér ekki langt í dýrtíðinni; en eg get ekki betur."

"Mamma! Brúðargjöf — heimanmundur." Gerða stokkroðnaði.

"Já, þið giftið ykkur, og þú ferð með honum til Hafnar. Eg hefi aldrei kunnað við þetta opinberunar *business* hérna heima."

"Nei! nei! Eg get ekki tekið við því. Það eru peningarnir sem þú hefur verið að draga saman fyrir minnisvarðanum og ferðinni Vestur. Eg tek ekki við því!"

"Sérðu, góða mín — Stefanía talaði óvenjulega hægt og stilt; einblíndi út um gluggann — þú hefir tekið eftir því í blöðunum, að krónan okkar er að falla í verði. Hvað heldur þú að yrði úr þessum krónum, færi eg að breyta þeim í dali? Eg var að hugsa um það í nótt, hvað heppilegra það væri að bíða með minnisvarðann, þar til lögun kæmist á peningagengið. Svo vil eg endilega vera heima þegar þið komið aftur. Eg reyni

að láta dytta við þetta hús — eigandinn vill ekkert gera, eins og þú veizt. Það er alveg ómögulegt fyrir mig að fá annað húsnæði; hver verður að sitja þar sem hann er kominn, að minsta kosti meðan að húsaleigu-löginn eru í gildi. Þegar eg líka hugsa nánar um það, þá held eg mér mundi leiðast, að hafa aðeins fáeina alþingismenn; eg held þeir séu ekkert upplífgandi sumir þeirra."

Gerða lagði hendurnar um hálsinn á henni og Stefanía vafði hana að sér; slepti henni svo alt í einu og sagði: "Þú ferð nú og segir Sverri frá þessu, og lætur hann kaupa leyfisbréfið, þið verðið að hafa hraðan á; skipið fer ekki á morgun, heldur hinn daginn."

"Elsku mamma! Þú ert eitthvað svo — svo undarleg á svipin. Eg — "

"Undarleg? En sú vitleysa! Svolítið út á þekju, ef til vill. Eg var einmitt að hugsa um hvað það verður gaman þegar þú kemur að heimsækja mig, og fólkið spyr mig hver þessi fríðleikskona með brúnu augun og bjarta hárið sé, sem verið hafði að ganga með mér "stórarúnt" — og eg segi: dóttir mín; læknisfrúin frá — hvað heitir það nú aftur — Jökulnesi. Farðu nú! — Undarleg? En sú vitleysa!"

---

Það var barið hægt að dyrum, og hurðin opnuð um leið. Gunsa kom inn. Frú Steinnes lá með höfuðið fram á hendur sér, hún hrökk saman þegar Gunsa spurði:

"Hvað ætti að hafa til kvölds."

*"O, darn it!"*

"Ha?"

"Fisk! — Hvaða físk sem þú getur fengið."

"Hún sagði fisk og þúaði mig," sagði Gunsa við Sveinbjörgu, svo hátt að Stefanía heyrði.

"Fiskur í alla mata! ha! ha!"



*Á VÉLASTÖÐUM.*

Eftir Þorstein Þ. Þorsteinsson.

---

Sálin smækkar — verður Lækjarlonta—
læst í stálsins köldu heljarvöld.
Gef mér heldur Grallarann og Ponta,
guð, en þessa blindu vélaöld.

# Að leikslokum.

Eftir Guðrúnu H. Finnsdóttur.

Walker leikhúsið stóð alt uppljómað og prýtt. Það glitraði og glóði út í náttmyrkrið eins og töfrahöll í æfintýri. Það var líka mikið um dýrðir í kvöld. Þar átti að sýna og syngja hinn undurfagra söngleik Wagners, Lohengrin,—leikinn, sem öllum fremur hrífur áheyrandann inn í undralönd þjóðsagna og söngva. Fólkið streymdi að úr öllum áttum. Bifreiðarnar ruddust blásandi og blístrandi í gegn um þröngina upp að gangstéttinni framan við aðaldyr hússins.

Þar sló svo mannfjöldanum saman, og allir tróðust áfram með hægð að leikhúsdyrunum. Þar ýttu sér áfram hlið við hlið ríkisfólk, klætt silki og safala, og fátæklingar, klæddir snjáðum vaðmálsfötum. Allir voru jafningjar þessa stuttu leið og með sama takmark fyrir augum: að komast í sæti sín í tíma. Yfir gangstéttina og að dyrunum náði þetta jafnrétti, en heldur ekki lengra. Þar skildu vegir aftur og fólkið skiftist eftir verðmati, eftir því hvað hver og einn var fær um að borga fyrir sætið sitt. Sauðunum var skipað til hægri og höfrunum til vinstri eins og áður. Þeir útvöldu hurfu inn um aðaldyrnar, inn í marmara forstofuna, gengu eftir þykkum, mjúkum gólfábreiðum inn í aðal húsið niðri og voru leiddir til sætis í flosfóðraða fjaðrastóla rúmgóða og þægilega, eða í hliðarstúkurnar, sem var nú lang fínast, enda sitja þar aldrei aðrir en hefðarfólkið, er gefur þannig alþýðunni allra náðarsamlegast kost á að horfa á sig. — En hinir, sem fóru inn um hliðardyrnar, klifruðu stiga eftir stiga, þar til þeir voru komnir upp í efstu hæðir hússins. Þar eru gólfin ber og sætin harðir trébekkir. Hver varð að láta sér nægja, að sitja þar í röð eins og kindur á jötu og taka því með þolinmæði, að vera troðið um tær eða fá olnbogaskot frá næsta nágranna, og svo hverju öðru, sem að þeim barst.—Þó var eitt, sem bætti úr þessu öllu. Hljómurinn barst þangað upp, jafnvel betur en um húsið niðri, barst til hæða eins og honum er eðlilegt, hvað sem skrautinu og verðinu á sætunum leið.

Húsið var troðfult upp í rjáfur. Fólkið talaðist við í lágum róm, en kliðurinn líktist þungum, fjarlægum sjávarnið. Þarna var á öllum tungum talað, enda var þar saman komið fólk frá öllum skautum jarðar, — loðmæltir, óhreinlyndislegir Gyðingar, feitir og hláturmildir Ítalir, kvikir og masandi Frakkar, þunnleitir og hæglátir Englendingar, kringluleitir, flatnefjaðir og þunglyndislegir Rússar, bjartleitir og bláeygðir Norðurlandamenn, kolsvartir niðjar hinnar foru Ethiopíu, sem þrátt fyrir nýja tungu og siðu, eru enn og verða svartasti bletturinn á menningarsögu Norð-

ur-Ameríku. Og þarna voru líka Íslendingar, þögulir og alvarlegir. Láta þeir sjaldan mikið yfir sér á mannamótum; er sú prúðmenska þeim meðfædd, því fæstir þeirra hér, hafa enn sem komið er lært eða tekið upp "Mannasiði" Jóns.

Á efsta lofti í neðstu röðinni sat íslenzk kona. Hún hafði komið snemma og var ein og út af fyrir sig, gaf engan gaum hávaðanum eða skvaldrinu alt í kring um sig. En mörgum varð þó að gefa henni gætur, því hún var ljómandi fríð og hafði yfir sér yndisþokka, sem fáum er gefinn. Hún bar höfuðið hátt, hárið var ljósjarpt og mikið og fór vel, hörundið bjart, augun grá, stór og fögur og djarfleg. Yfir henni hvíldi alvara og látlaus ró, sem ósjálfrátt gaf til kynna, að hún væri sátt við lífið og tæki hlutunum eins og þeir gæfust.

Hún hallaði sér fram á handriðið og studdi hönd undir kinn og horfði beint fram undan sér á tjaldið eða öllu heldur á síðustu línur einkunnarorðanna frægu eftir Shakespeare, sem á það eru letruð: *"Sermons in stones and good in everything."* Undarlegt! "Good in everything". Hún horfði æfinlega á þessi orð eins og þau væru rituð með logaletri, einblíndi á þau og hafði á móti sannleikanum í þeim. Í fyrsta sinn, er hún kom í þetta hús, var hún hrifin af þessum orðum, hrifin af fegurð hljóms og söngs, hrifin af lífinu sjálfu, því hún var glöð og ung, — í hug og hjarta "var morgun um himin og lönd".

Hér hafði hún séð Elvar fyrsta sinni. Lítið hafði hana grunað þá, að vegir þeirra lægju saman síðar.

Hljóðfærasveitin byrjaði að spila inngang leiksins. Tónarnir liðu út yfir húsið, stórfeldir, þungir og voldugir eins og hjartaslög hafsins—lifandi, titrandi, þrungnir af tign og dýpt. Það var eins og opnuðust æðri heimar og maður sæi inn í dýrðina, og þaðan streymdu þessir undra hljómar.

Bergljót drakk inn tónana, er fléttuðust og vöfðu sig um sál hennar og hjartaslög; því músík er það töframál, er talar allar tungur, en þó bezt af öllu tilfinningamál mannssálarinnar. Þar staðnæmist skáldskapur oftast í fordyrinu, en músík er þar kunnug í hverjum krók og kima, á þar heimalönd, sem engum er leyft að stíga fæti inn á nema henni einni og óskabörnum hennar. Hún á ítök í þyt stormsins og gný hafsins, í buldri morgungolunnar og suði lækjarins, í þrumufleygum, í bliki norðurljósanna, í litbrigðum blómanna og brosi barnsins. Hún er um fram alt tunga samræmisins, enda þó ósamræmið gefi henni nauðsynleg ummerki. Hún er hjartsláttur mannssálarinnar í öllum hennar geðbreytingum, því "þeim finst, er glaðir við faðm þinn leika, sem feli kliðurinn léttan hlátur, en þeim, sem harmandi hjá þér reika, þeim heyrist niðurinn þungur grátur." Þungur grátur — það var undirtónninn, sem Bergljót hafði heyrt nú lengi — heyrt æ síðan síðasta kvöldið, sem Elvar og hún voru saman í þessu húsi.

Ljósin voru slökt, tjaldið leið upp. Var þá sem töfrasprota hefði verið drepið á dyr liðinna alda, og fram úr þögninni og rökkrinu leiddi skáldið og tónsnillingurinn fjarlæga óma og anda á meistaralegan hátt, íklædda holdi og blóði —lifandi, glæsilegan virkileika. Alt hjálpaðist til að mynda fullkomna heild: músíkin fögur og tignarleg, nærri því með helgiblæ, íburður og skraut á búningum og leiksviði og snild í leik og söng. — En sagan, þessi gamla þjóðsaga, var saga mannkynsins niður aldifnar, — hatur, öfund, valdagirni, græðgi, — réttur lítilmagnans fótum troðinn, — og Lohengrin, hetjan góða og guðumlíka, er sendur var til að bjarga Elsu og bróður hennar úr klóm Ortrudar og Telramunds, fær að launum tortrygni og vanþakklæti. Og jafnvel Elsa treystir honum ekki til fulls. — En þurfti hún að lá Elsu svo mjög? —

Og nú sá Bergljót ekki lengur fram undan sér skrautbúna söngsveit, því hugur hennar hvarflaði til baka yfir liðin ár, hvarf til baka til kvöldsins, sem hún fyrir tilviljun hafði séð Elvar fyrsta sinni. Það hafði staðið líkt á þá og nú, því á sama leikhúsinu hafði verið söngleikur, er hana langaði til að sjá og heyra. Ætlaði hún sér að kaupa ódýrt sæti að vanda, en er til kom, voru þau öll seld, að eins örfá dýr sæti á neðsta gólfi voru þar á boðstólum, og keypti hún eitt, heldur en fara heim við svo búið.

"Gaman að vera rík og fín eitt kvöld á æfinni,"—hugsaði hún og brosti um leið og hún settist niður. Í sömu andránni bar þar að aldraða konu vel búna, og ungan mann, sem auðsjáanlega var sonur hennar, og var þeim vísað til sætis sitt hvoru megin við hana. Þau spurðu um, hvort sætisnúmerin væru rétt, og sannfærðust um, að svo var. Bergljót sá, að þeim líkaði miður að vera aðskilin, svo hún bauð að skifta sæti og stóð upp um leið, og færði sig. Gamla konan var sezt og brosti til hennar góðlátlega í þakklætisskyni. En maðurinn sneri sér að henni og sagði í kurteisum róm: "Eg þakka yður kærlega fyrir." Það var blærinn í röddinni, hljómmikill og hlýr, sem kom henni til að líta upp, og hún gat aldrei gert sér grein fyrir því, hvort það byrjaði þá eða síðar, er þau kyntust meir, að þessi rödd og augu festust í huga hennar og fylgdu henni æ síðan. Bergljótu til mikillar undrunar, fóru þau að tala saman á íslenzku. Konan talaði góða íslenzku, en sonur hennar stirt mál með útlendum hreim. Þau sýndust hafa það að gamni sín á milli. —

Svo leið fram á sumarið. Hún hugsaði stundum um, hvaða Íslendingar þetta væru. Hún var sannfærð um, að hún hafði aldrei séð þau á íslenzkum mannamótum, og því urðu þau að hálfgerðu æfintýrafólki í huga hennar.

Síðdegis á laugardegi í júlímánuði í brennandi hita, flúði fólkið borgina í þúsunda tali. Alla þyrsti í að komast norður að svölu Winnipegvatninu úr hitamollunni, rykinu og borgarskröltinu. Þrengsl-

in í lestinni voru svo óskapleg, að ekki varð þverfótað, og stóð hver og sat þar sem hann var kominn. Bergljót var ein af þeim, sem varð of sein að ná í sæti og stóð í ganginum og við hlið hennar í þrönginni staðnæmdist Elvar. Þeim varð báðum litið upp og augu þeirra mættust. Þau þektust strax og hvorugt reyndi að dylja það.

Sumir halda því fram, að það sé ókurteist að ókunnugt fólk talist við—það gjöri ekki aðrir en ruslaralýður af lægra taginu, en svo er ekki ávalt—þar ráða kringumstæður algjörlega. Á ferðalögum, einkum skemtiferðum, er fólk örari í lund og kynnist fljótar en endrarnær.—

Upp frá þeim degi hittust þau og kyntust smátt og smátt, eins og ungu fólki er títt, sem er hrifið hvert af öðru og fellir hugi saman. Og fyrir þeim opnaðist nýr himinn og ný jörð—undra og æfintýra lönd ástarinnar — heimur út af fyrir sig, bjartur og fagur. sem þeir einir byggja, er unnast.

Elvar var aðlaðandi og skemtilegur maður, — undarlegt sambland af þjóðareinkennum foreldra sinna. Faðir hans var úr Suðurríkjum Bandaríkjanna; frá honum erfði hann örlyndi, riddaraskap og prúðmensku. En frá móður sinni, Íslendingnum, hafði hann náð festu og drenglyndi, björtum yfirlit og bláum augum. Hann var aðaleigandi í stórri verksmiðju, er hann stjórnaði mestmegnis, síðan faðir hans féll frá.

Þannig leið sumarið og næsti vetur, og vorið eftir ætluðu þau að giftast. Tíminn leið á vængjum hamingjunnar, og þá fyrst fékk Bergljót ljósa hugmynd um, hve lítils hún hafði notið af þessa heims gæðum. En þeim mun meiri fögnuði fylti það sálu hennar. Nú sat hún ekki lengur á hörðu bekkjunum uppi undir rjáfri leikhússins, heldur í dýrustu sætunum niður í húsinu og þangað komu þau oft.

Um vorið, nokkru áður en brúðkaup þeirra átti að standa, símaði hann henni og bað hana að koma með sér um kvöldið á leikhúsið til að sjá Cinderellu, nýjasta leik Barries. Kvað hann sér mundi létta í skapi í félagsskap með henni og Barrie. Hann hafði átt andstætt undanfarið, því öllu hafði slegið í bál og brand á milli vinnuveitenda og verkalýðsins. Fleiri og fleiri verkamannasambönd lögðu niður vinnu, unz alment verkfall hafði verið fyrirskipað af leiðtogum verkamanna. Allar samningstilraunir höfðu að engu orðið, og var eigi um annað að ræða, en bíða átekta og sjá, hvor hliðin yrði úthaldsbetri.

En leikhúsgangan varð þeim þó ekki að tilætluðum notum, því í stað þess að koma þeim til að gleyma ástandinu í Winnipeg um þær mundir, þá varð innri þráður leiksins einmitt til þess að ýfa upp í huga þeirra mál, sem þau í seinni tíð höfðu oftast hliðrað sér við að ræða; en það var lífskjör og ástand verkalýðsins. —

Vesalings Cinderella, umkomulaus verkastúlka, sem ekkert á nema hjartagæzku, tekur að sér

fjögur munaðarlaus ungbörn á stríðstímum og heldur í þeim lífinu. Hún er þó svo fátæk, og vinna hennar svo illa launuð, að hún fellur í öngvit af hungri og harðrétti. En hún hefir samúð með smælingjunum, af því að hún þekkir svo vel skortinn. Það er sú eina hlið lífsins, sem henni er kunn.

Í draumnum dregur svo höfundurinn kátlega mynd af skoðunum hennar á heldra fólkinu. Konungshjónin montin, hégómleg og einföld, skrautið frekjulegt og ósmekklegt, hirðfólkið skríðandi og flaðrandi brúðufólk, og biskupinn, í mörgæsarlíki, svo önnum kafinn að hugsa um sína eigin tign, að hann lítur ekki til hægri eða vinstri.

Þau voru óvenjulega þögul, og að leikslokum hröðuðu þau sér út og heim á leið. — Kvöldið var milt og fagurt, og bifreiðin rann mjúklega og hávaðalaust eftir strætunum. Nú sáu þau bezt, hvað Winnipeg var ólík sjálfri sér. Þegar alt gekk sinn vana gang, voru strætin fáfarin og róleg um þenna tíma kvölds. En nú stóðu stórir hópar af verkamönnum á hverju götuhorni; eftir gangstéttunum streymdi mannfjöldi, og þrengslin voru svo mikil, að varla varð þverfótað. Það var ekki sparibúið fólk, sem var úti að létta sér upp og leita sér að skemtun eftir unnið dagsverk, heldur var fjöldinn fátæklegt og slitlegt verkafólk. Bergljót undraðist yfir í huga sínum, hversu mörg olnbogabörn Winnipeg sýndist eiga. Svipþungt, alvarlegt og þögult gekk fólkið eða stóð, hingað og þangað; en það var eins og þögnin væri ógnandi og ekki þyrfti nema lítið atvik til að hleypa öllu í uppnám.

Bergljót gaf þessu öllu nánar gætur, og það setti að henni óhug. Hún tilheyrði verkalýðnum og í huganum fylgdi hún þeim að málum, en Elvars vegna hafði hún dregið sig í hlé, hvorki sótt fundi eða á annan hátt tekið opinberan þátt í neinu.

Hún sá, að hann var í þungu skapi og drap því fingrunum léttilega á handlegg hans og sagði brosandi: "Engum nema Barrie hefði dottið í hug að breyta lögregluþjóni í prins."

"Hann hefði ekki gert það, ef hann hefði þekt lögregluþjónana okkar," svaraði Elvar.

"Heldurðu að engir töfrar hefðu getað breytt þeim í prinsa?"

"Nei—þeir sýna bezt, hverskonar kóngablóð rennur í æðum þeirra, þar sem þeir standa aðgjörðalausir og látast ekkert sjá, hvaða óhæfa sem höfð er í frammi. Nú, þegar mest ríður á liðveizlu þeirra, hengja þeir niður hendurnar og fylgja verkalýðnum að málum."

"Ég get tæplega láð þeim það. Eru þeir ekki verkamenn sjálfir, og er ekki verkafólkið að gjöra sanngjarnar kröfur?" mælti hún.

"Sanngjarnar kröfur!" tók hann upp eftir henni. "Ef það fær eitt, þá heimtar það annað. Það heimtar hærra kaup, en jafn-

framt því sem kaupið hækkar, heimtar það styttri vinnutíma. Og því styttri sem vinnutíminn verður, því meira svíkst það um og verður kærulausara. Sjálfsábyrgð, samvizkusemi eða áhugi fyrir vinnunni þekkist ekki lengur."

"Þetta er að eins þín hlið á málinu. En þekkir þú nógu vel kjör verkamannsins og hefir þér nokkurn tíma komið til hugar, að fyrir þeim flestum er öll æfin vinna, þreyta, svefn. Það er öll tilveran, með naumindum að fá haldið saman líkama og sál. Eins lengi og okkur sjálfum líður vel, kemur eymd annara okkur ekki við. Lauslega og í fjarlægð vorkennum við þeim sem t.d. deyja úr hungri og harðrétti og erum kölluð hjartagóð fyrir. En ef það kemur óþægilega nálægt okkur, verður lítið úr meðaumkuninni."

"Þetta er óþarflega hörmulegur uppdráttur hjá þér. Fólkið hefir nógu hátt kaup til að geta lifað góðu lífi. En nú vill það ráða öllu, setja okkur vinnuveitendum stólinn fyrir dyrnar; við eigum að hlýða þeirra boðum og banni. En það sýnist ekki taka með í reikninginn, að iðnaður og framleiðsla í landinu hvílir á herðum vinnuveitenda, og þeir þurfa að halda öllu svo í jafnvægi, að tekjur og útgjöld, að minsta kosti, standist á. Viðskiftalífið verður að byggjast á virkileika, en ekki á tómum draumum og fegurðar hugsjónum." —

"Fyrst eru þó draumarnir, og næst er að koma þeim í framkvæmd. Hafa ekki mennirnir öld eftir öld, verið að kenna hver öðrum þessa setningu, sem tekur öllum jafnaðar kenningum fram: "Það sem þér viljið að mennirnir geri yður, það skuluð þér og þeim gera."—Þegar til framkvæmdanna kemur, að breyta eftir þessu, er henni stundum snúið þannig: Það sem þér ekki viljið að mennirnir geri yður, það gerið þér þeim. En þó er bót í máli, að eins lengi og smælingjarnir eru ofsóttir, verður til drengskapur og mannúð, sem hefst handa, en það kostar ávalt stríð, stríð af einhverri tegund, og verkfallið núna er einmitt eitt af þeim."

"Blessuð minstu ekki á drengskap og mannúð. Ef þú heldur að verkamanna leiðtogarnir séu að þenja sig af mannkærleika, ertu á rangri skoðun, þeir eru að skara eld að sinni köku. Þarna gafst þeim tækifæri að slá sér upp á því, að þykjast vera frelsispostular, — æsa lýðinn til að ná hylli og pólitisku fylgi. Hvað hafa þessir menn, sem blása hæzt, gert fyrir fólkið?"

"Mikið! — Hvernig voru kjör verkafólksins áður en verkamannafélög voru mynduð? Það átti alt undir harðstjórn eða þá göfugmensku vinnuveitenda."

"Já, og nú er verkalýðurinn að sýna göfugmensku sína, hótar öllu illu, ef ekki er gert alt, sem þeim þóknast, og vita þó um ástandið í landinu núna. Það er ekki frítt við, að maður missi tiltrúna á ráðvendni, sómatilfinning og göfugmensku fjöldans."

"Elvar, ef þessu heldur áfram, verður uppreist. Er ekki hægt að miðla málum?"

Hörkusvipur sem hún átti ekki að venjast, kom á hann um leið og hann svaraði:

"Nei, fólkið þorir ekki að gera upphlaup, því það veit að þá verður herliðið boðað út."

Herliðið! — Henni stóð stuggur af orðinu — bræður og synir verkamannanna — óhugsanlegt — skammarlegt!

"Hermennirnir hlýða ekki að berja á sínu eigin fólki, — alþýðunni; þeir taka höndum saman við hana. Sagan sýnir, að ef fólkið legst á eitt, þá er það voldugt afl, líkast stórfljóti í vorleysingum. Engan grunar þann kraft, er þar býr, unz straumurinn, þungur og sterkur, hrífur alt með sér, sem fyrir er, út í vilt iðukastið. Vorleysing kemur æfinlega á eftir, jafnvel hinum lengsta vetri — og líka í huga fólksins. Stjórnarbyltingarnar bera þess ljósast vitni."

"Jú, og eina vörnin er herinn, en hann verður ekki boðaður út fyr en í síðustu lög."

Bergljótu setti hljóða, henni hraus hugur við þessu öllu. Svo svaraði hún í köldum og þurrum róm:

"En sú mannúð — þegar við komum til dyra eins og við erum klædd og öllum slæðum er svift í burtu, erum við ekki svo langt á undan mannætunum — aðeins dálítill munur á aðferðinni. Og svo stöndum við og hælum okkur fyrir hve langt áleiðis við séum komin í göfugum hugsjónum og kristilegum kærleika — svei!"

Þau voru nú komin heim að húsinu sem Bergljót bjó í. Bæði voru gröm og í æstu skapi. Bergljót steig hægt ofan úr bifreiðinni, hún gat ekki fengið sig til að rétta honum hendina. Hann sat grafkyr og hélt báðum höndum um sveifina, og hún sá að hvítnaði fyrir á hnúunum.

Svo bauð hún góða nótt, þakkaði fyrir kvöldið og bætti við um leið:

"Ef herinn verður boðaður út, til að berja á okkur verkafólkinu, skal eg ekki verða í aftasta hópnum, sem herjað verður á."

Hann sótroðnaði, horfði fast í augu hennar um leið og hann sagði:

"Þessa setningu kendi móðir mín mér ungum, og kvað vera eitt af aðalboðorðum forfeðra okkar: Með lögum skal land byggja, en ólögum eyða." Svo lyfti hann hattinum, bauð góða nótt og bifreiðin rann hljóðlega af stað út í náttmyrkrið.

Bergljót gekk hröðum skrefum inn í húsið og til herbergis síns, fleygði kápu og hatti af sér og gekk yfir að glugganum og starði út, án þess þó að sjá nokkuð. Svona hafði þá kvöldið endað, þeim hafði stundum áður sýnst sitt hvoru, en svona mikið hafði þeim ekki borið á milli fyr. Hún var sár við þau bæði í huga sér, þau hefðu átt að geta talað saman þykkjulaust, þó málið væri báðum viðkvæmt. Hann var ósanngjarn, einhliða og blindur í þess-

um málum. Hvað var hann að tala um lögleysi; lítill vandi að vera friðsamur og löghlýðinn, þegar skór laganna kreppir ekki manns eigin tær. Setjum nú svo, að hann væri verkamaður, mundi hann vilja láta kúga sig? Nei, ástæðan er ekki ást eða virðing fyrir lögunum; það sem eru ólög í dag, er stundum orðið að lögum á morgun — hún liggur dýpra, hún liggur í óttanum við breytinguna á mannfélagsskipuninni. Þessir menn taka fegins hendi nýjum uppgötvunum, breyttum og bættum vélum, en hugsunarháttur fólksins má ekki breytast; hann einn á að standa í stað. Því gat Elvar ekki séð þetta, ekki var hann þó sá harðstjóri, og enginn vissi betur en hún, hve hjartagóður hann var, hann sem ekkert aumt mátti sjá. Hún gekk yfir að dragkistunni og tók upp mynd af honum og horfði á hana lengi; tárin komu fram í augum hennar, henni þótti svo innilega vænt um hann, og svo skyldi þeim nú ekki lynda. — Nei, ómögulegt! Og með valdi rak hún þá hugsun frá sér. Hún hafði að vísu séð hjónabönd stranda á ýmsum skerjum, en það var alt annað með Elvar og hana. Þar var engin hætta, engin. Þau mundu þola að vera sitt á hvoru máli einstöku sinnum. Enginn hætta — á morgun, eða næst þegar þau hittust, mundu þau brosa hvort framan í annað með gætnu augnaráði, og svo væri það búið — næði ekki lengra.

Það var orðið framorðið, nóttin bauð þreyttum lýðnum hvíld. Bergljót stóð um stund og horfði upp í heiðstirnda hvelfinguna, og hún gat ekki varist þeirri hugsun, hvað alt þarna uppi var hreint og hátt og ólíkt þessari hringiðu af hatri, úlfúð og eirðarleysi, sem menn gjörðu þessa stuttu æfi að. Og aumast var þó, að þurfa að játa, að hvert sem litið er í ríki náttúrunnar, er eins líf annars dauði.

Hún hrökk upp úr þessum hugleiðingum við það, að dyrabjöllunni var hringt hastarlega og hún heyrði mannamál niðri. Eftir fáein augnablik var drepið á dyr hjá henni, og húsmóðirin kom inn. Bergljót sá strax á henni, að eitthvað hafði komið fyrir. Konan stansaði fyrir innan dyrnar, og hún mundi eins og í þoku það sem hún hafði sagt: Elvar hafði orðið fyrir bifreiðarslysi, hann hafði verið á heimleið og keyrt hratt, drengir höfðu verið í knattleik á strætinu og einn þeirra, lítill drengur hljóp á eftir knettinum, beint í veg fyrir bifreiðina, sem kom á fleygiferð. Það var um ekkert að ræða nema renna yfir barnið, eða taka það ráð, sem hann gerði, að snúa bifreiðinni snögglega þvert úr leið; en vegna þess hvað hraðinn var mikill kollsteyptist hún. Hann hafði heldur kosið hættuna sjálfur, en að barnið yrði fyrir slysi. Þetta skifti ekki augnabliki, en það kostaði mannslíf.

Elvar lá nú dauðvona á sjúkrahúsinu. Dauðvona á sjúkrahúsinu — var það eina sem festist í huga hennar þá. Hún varð að

komast til hans strax — sjá hann lifandi — biðja hann fyrirgefningar. — Svo hann hafði heldur kosið sjálfur hættuna, en að meiða lítið barn. Og hún hafði verið að bera honum á brýn hörku. Ó, guð, láttu hann lifa, láttu hann lifa! Hálfsögð bæn, kom í huga hennar, og var hrópuð í himininn.

Hún varð að komast til hans áður en það yrði of seint. — Hann kanske lifði — guð minn góður lofaðu honum að lifa — lofaðu honum að lifa.

Henni fanst óravegur yfir á sjúkrahúsið, en er þar kom, var hann að skilja við.

Hún stóð við rúmið hans stilt og þögul og hélt í hendina á honum, og reyndi að horfa inn í hálfbrostin augu hans síðustu kveðjunni, en í sál hennar var angist svo djúp og sár, að þögnin ein var möguleg.

Augun stóru og fögru, störðu nú á móti henni brostin. Hún laut niður að honum og horfði á þennan frið, tignarbrag og fjarlægð, sem dauðinn merkir sína með. Fyrir örstuttri stund var hann lifandi — lifandi með öllu sem felst í því orði—en nú, guð minn, hvar var hann nú? Sama eilífa spurningin — sama eilífa þögnin.

Ósegjanlegur harmur og örvænting greip hana, það var eins og ískaldar járnhendur nístu sál hennar. — Sama sálarangistin og uppreistin á móti dauðanum, fyrir þeim sem eftir lifa. Það var eins og hún hefði verið tætt í sundur, og stæði eftir blæðandi, titrandi af sársauka; ekki búin að átta sig á, hve miklum eða sárum — til þess var hún of yfirkomin. Í hug hennar og hjarta, og alt í kringum hana var auðn og tóm. Það var eins og hún sjálf væri dauð, aðeins lítill partur lifandi — sorgin og sársaukinn.

Og nóttin leið í vonleysi, ásökunum og gráti, eins og aðrar nætur hafa liðið um þúsundir ára, fyrir þeim, er hafa orðið að sjá þeim á bak, er þeir elskuðu.

Og hún hélt áfram að lifa og starfa, og reyna að vera hugrökk, en það veitir stundum sársauka.

Sorgin og efinn gengu henni sitt við hvora hönd og fylgdu henni eins og skuggar.

Oft stóð hún og starði á gullin kvöldskýin og sólarlagið. Mundi hann vera þar, yfir á björtum löndum í vestrinu, eins og Forn-Egyptar trúðu — eða hvar?

Og smám saman fór aftur að skýrast fyrir augum hennar. Hún athugaði nú lífið í kringum sig með nýjum skilningi. Hún sá að allir höfðu byrðar að bera, sorgir og sár. Hún sá allar tegundir af mannlegu böli vera bornar með hetjuskap, og hetjunum mætti hún oft þar sem hana sízt hefði grunað.

Og henni óx meðaumkvun, þolinmæði og kjarkur við að læra í skóla lífsins. Hún sá, þó að hennar litli heimur væri hruninn, var veröldin alveg eins björt, fögur og glöð og áður. Sólin skein eins skært, blómin uxu, fuglarnir sungu og börnin léku sér.

Hún hélt áfram — áfram. Þrátt fyrir torfærur og örðugleika, verð-

ur mannsandanum ekki haldið til baka. Þó seint gangi losnar sálin smátt og smátt úr læðingi. Smámunir hverfa, og fram úr efanum, myrkrinu og sorgunum, stígur maðurinn hreinni, stærri og göfugri en nokkru sinni áður.

Bergljótu græddist kærleikur og samúð til mannanna á vegferð sinni, og þegar hingað var komið, hafði hún gengið langa vegu.

Þó hún ekki vissi það, var hún komin alla leið að fótaskör Drottins sjálfs.

---

Hljómurinn steig upp til hennar, mildur, ljúfur og fagur. Inn í sál hennar streymdi fegurð, samræmi og dýpri skilningur. Tónskáldið talaði til hennar í gegnum skynsemi tilfinninganna. Hún fann að hugleysi og sjálfsvorkun höfðu gengið að henni. Elvar var horfinn inn í eilífðina, — inn í eilífa hvíld og frið. Hún stóð að vísu áveðurs enn þá, en allir stormar líða hjá fyr eða síðar.

Og tónarnir héldu áfram að tala til hennar skýrara og betur, en nokkur mannleg tunga getur talað.

Það var eins og rykvef hefði verið svift frá augum hennar og sál hennar leyst úr herfjötrum. Í hjarta hennar ríkti ró og friður.

Nú sat hún heldur ekki lengur ein; við hlið hennar var Elvar heilbrigður, ungur, lífsglaður. Augu hans ljómuðu af fögnuði og ást. Þannig mundi hann verða henni samferða um alla ófarna æfi.



# Fardagar.

Eftir **Gísla Jónsson.**

---

Svo misjafnt okkar aldursskeið frá upphafsstundu fer,
að fót minn þyngja þreytuspor, er þig að garði ber.
Þér hlæja blómguð hlíð og tún, þinn himinn skýlaus er, —
við hestasteininn hímir jór og hneggjar eftir mér.

Þér tíminn heilsar hýr á brún—eg heyri 'ans vængjaþyt;
því innreið þín fer að í senn, að út og burt eg flyt.
Eg þekki staðinn út og inn—hans ömurleik og strit;
en þú sér aðeins opnað hlið og eygir fyrst hans glit.

Því hefði' eg viljað hinkra við um heimaengi og tún,
og lesa blóm og hlusta' á hljóm, er hreiðrin fyllast dún,
og hrinda knerri' úr votri vör og voðir draga' að hún,
og klífa með þér hjalla og hlíð að hæsta fjallsins brún.

En tíminn er það undrasvið, er öllu skapar kjör.
Þar fylgjast að um örstutt skeið, þau, æska, þroski' og kör.
Þó sífelt týni tölu sveit og tífaldist hans ör,
þá bætast alt af aðrir við á endalausri för.

Svo gakk þú með mér garði frá, er glitra kvöldsins ljós.
Til eins eg mælist, minja til — það mér til handa kjós:
Úr þínum bjarta blómareit ef ber eg eina rós,
þá finn eg æskan fylgir mér, þótt feigðar nálgist ós.

Þér verði æskan ljúf og létt og löng og glöð og blíð, —
því mín varð ærið endaslepp og inntengd frosti og hríð.
En bráðum glymur Gjallarbrú, er geyst eg helveg ríð.
Þar yzt í vestri eygló skín — þar eftir þér eg bíð! —

# Haf.

Eftir Einar P. Jónsson.

---

Fagra, bjarta, breiða haf, —
brúað sólargeisla staf.
Alla leið sem augað sér,
ertu líkt og slípað gler.
Í þér speglast heiðishátt
himinhvolfið djúpt og blátt.

Líkt og bæn frá barnsins sál,
birtast mér þín Huldumál.
Snemma unglings andi minn
yndis naut við barminn þinn.
Með eldi fylta farmanns þrá,
eg flúði þínar náðir á.

Vítt um bjartan bárustig
borið hefir lífið mig.
Enn mig heillar unnarspil,
út eg lengra sigla vil.
Kanna fleira, fleira sjá,
ferðavolki þessu á.

Þú ert ímynd ægivalds,
engan krefur hafnargjalds.
Býður opið brúðarfang
barningsmóðum ferðalang.
Bárukirkjan bláa þín,
býður öllum heim til sín.

Fagra, bjarta, breiða haf, —
brúað sólargeisla staf.
Eg er líkt og annar hver,
að eins dropi af sjálfu þér.
Svöl við bárubrjóstin þín
bíður hinsta rekkjan mín.

# Þjóðrœknis-samtök Íslendinga í Vesturheimi.

Eftir **Rögnvald Pétursson.**

---

(*Framhald frá fyrra ári*).

Þess er áður getið, að Íslendingar er vestur fluttust og staðnæmst höfðu flestir í borginni Milwaukee í Wisconsin - ríki, efndu til hátíðahalds í einum lystigarði borgarinnar 2. dag ágústmánaðar 1874. Tilefni hátíðarinnar var, að minnast þess, að þjóðin hafði þá fullnað þúsundasta árið. Þó hátíðahaldið stæði eigi í beinu sambandi við hin almennu hátíðahöld um þetta leyti á Íslandi, átti það samt sem áður rót sína að rekja til þeirra. Sami dagur var kjörinn og skipaður var almennur þjóðhátíðardagur heima fyrir. Munu fæstir hafa talið sig það fjær farna, að eigi teldist þeir eftir sem áður óskiftur hluti þjóðarinnar. Mintust þeir því þessa atburðar sem hefði þeir heima setið og hvergi flutt.

Næstu ár þar á eftir voru umbrota ár, svo að stóð á sífeldum flutningum. Það er því eigi fyrr en stofnaðar eru fastabygðir, og sezt er að til fulls, og sjálfstæðis tilfinningin vaknar í samkeppninni við hina aðra þjóðflokka, að upp á því er brotið, að Íslendingar í Vesturheimi taki upp sérstakan *Þjóðminningardag*. Er þessu fyrst hreyft í Winnipeg. Ritgjörð birtist í Heimskringlu 19. júlí 1888 (tlbl. 29.) með fyrirsögninni "*Íslendinga hátíð*". Getur höf. þess, að þetta hafi þegar komið til orða, og hafi ýmsir gefið í skyn, að Íslendingar vestan hafs ættu að halda sinn þjóðhátíðardag á ári hverju, eins og tíðkað væri meðal margra þjóðflokka í landinu, því það mundi hjálpa til að halda við þjóðerni þeirra og efla félagsskap manna á meðal. En alt sem setti menn í nánara samband hvern við annan, sem gæddi betri tilfinningar og hærri hugsun um stefnu þjóðarinnar væri þarflegt. Væri þetta því hið mesta nauðsynja mál.

Vill höf. helzt, að hátíðahald þetta sé með þeim hætti, að stofnað sé til almennrar samkomu á einhverjum einum stað, t. d. í Winnipeg, og þangað sæki svo allur almenningur úr öllum íslenzkum bygðarlögum. Engin tormerki telur hann á, að þetta megi takast, þó bygðirnar standi dreyft, ef vilji er með, því hvað fjarlægð snerti, þurfi sá örðugleiki eigi að vaxa í augum þar sem samgöngur séu góðar og fljótfarið. Eigi þurfi heldur kostnaður að standa í vegi, því fæstir dugandi menn séu svo illa staddir, að eigi hafi aflögu það sem til þess þarf. Hið eina, sem beri að óttast sé samtakaleysi og óeining. En fari svo, að á því strandi, sé það ljós vottur um þroskaleysi og

menningarleysi þjóðarinnar. Hitt hljóti að liggja öllum í augum uppi, að þar sem Íslendingar séu aðeins fáar þúsudir á víð og dreif innan um margar miljónir annara þjóða, þurfi þeir að geyma það alt í fersku minni, er þeir eiga föðurþjóð og fósturjörð að þakka, að þar sem þeir ekki hafi vanist félagsskap né lært sem aðrar þjóðir, að stríða gegn sameiginlegri hættu, eða skoða sig sem sjálfstæða þjóð og vinna að sameiginlegri velferð, þarfnist þeir þess er sameini hugi þeirra, glæði þjóðlífið, sameini kraftana og kenni þeim að vinna að þjóðaheill. En þetta muni almenn þjóðminningarhátíð gjöra. Enginn sérstakur tími er tiltekin á árinu, hvenær hátíðin skuli haldin. Bent er á, að hana megi halda á afmælisdegi þjóðhátíðar Íslands eða í sama mund og íslenzka kirkjufélagið heldur þing sitt, eða um sama leyti og þjóðhátíðir Bandaríkjanna og Canada, eða einhvern annan dag, þó megi ákveða það seinna. Fastlega er brýnt fyrir mönnum, að koma hugsun þessari í framkvæmd. Hinn þjóðernislegi arfur sé of dýrmæt eign til þess, að honum sé á glæ kastað, en svo verði hann bezt varðveittur að eigi falli mönnum úr minni, hver þjóðin hafi verið og hvað hún hafi gert. Íslendingar séu frjálsir borgarar og hafi rétt til að minnast lands síns og þjóðar sem hverjir aðrir. Það sé því aðeins um það að ræða hvort þjóðin sé þess virði, að hennar sé minnst. Er því svarað að Íslendingar þurfi ekki að fyrirverða sig fyrir þjóð sína, heldur fyrir eigin ættleraskap. Íslenzka þjóðin hafi átti tiltölulega jafn mikinn, ef ekki meiri, þátt í sögu mannkynsins og aðrar mentaðar þjóðir, þegar á mannfjöldan sé litið. Forn-Íslendingar líkist Forn-Grikkjum meira en nokkur önnur þjóð. Og löngu eftir að *ljómi* frægðarinnar, frelsisins og listarinnar hafi horfið af Olympí-tindum, slái hann "gullfögrum geislum á þrúðhelga Þingvelli Íslands." Fundur Vínlands, lýðveldi hetjanna og bókmentir þeirra, séu þeir gimsteinar í kórónu hinnar íslenzku þjóðar, sem tímans hrifsandi hönd hvorki fái rænt eða hulið. Frægð Íslands sé enn þá ekki horfin, né afreksverk forfeðranna gleymd. Þau lifi, og lýsi afkomendunum áleiðis. Ennfremur megi svo álíta, að saga þjóðarinnar kenni, að það sem gagnlegt sé, sé rétt.

Grein þessa mun Eggert Jóhannsson hafa ritað. Hann var þá við blaðið ásamt Frímanni (Bjarnasyni) Ásgrímsson, er fór nokkrum mánuðum seinna alfarinn frá Winnipeg. Sjálfsagt hefir ritgjörðin vakið einhverja til frekari umhugsuna um þetta, en þess sér þó engan vott, enn um nokkurn tíma. Liggur því málið í þagnar gildi á annað ár, svo að ekki er á það minst. En þá er við því hreyft að nýju.

Vorið 1890 20 apríl, kemur Jón ritstj. Ólafsson til Winnipeg. Verður hann meðritstjóri og ráðsmaður við blaðið "Lögberg".

Hreyfir hann nú máli þessu, ritar um það alllanga grein, og hvetur til þess, að Íslendingar láti það að framkvæmdum verða, að haldin verði þjóðhátíð það sama ár.[1]) Mælir sterklega með 2. ágúst sem sjálfkjörnum hátíðisdegi. Var máli þessu svarað í "Heimskringlu". Dregur ritstjórinn það í efa að dagurinn sé heppilega valin, bendir á, að um það leyti hafi bændur naumast lokið heyönnum í hinum norðlægari bygðarlögum, en í kornyrkju héruðunum fari kornskera í hönd. Álítur hann þó að uppástungu þessari megi hlýta að þessu sinni, en vill eigi að með því sé slegið nokkuru föstu með daginn. Seint þykir honum og á þessu vera byrjað, og telur vafasamt að af hátíðahaldi geti orðið það sumar. En fyrir ötula frammistöðu beggja ritstjóranna að "Lögbergi", var þegar byrjað á undirbúningi. Forstöðunefnd var valin, til að standa fyrir hátíðahaldinu, þannig að hvert íslenzkt félag í bænum var beðið að velja fulltrúa frá sér í nefndina, með ritstjórum beggja blaðanna og ritstjóra Sameiningarinnar. Urðu öll vel við þeim tilmælum og er nefndin tekin til starfa með júlí byrjun. En þessir voru í forstöðunefnd hins fyrsta "Íslendinga-dags", en svo var hátíðin nefnd, og hefir það nafn haldist oftast síðan.

Einar Hjörleifsson Kvaran
Jón Ólafsson
Eggert Jóhannsson
Gestur Pálsson
Sigurður Einarsson
Jón Blöndal
Sigtryggur Jónasson
Séra Jón Bjarnason
W. H. Paulson
Jóhannes Gottskálksson
Mrs. Signý Pálsdóttir Olson
Eleónóra Júlíus
Halldór G. Oddson
Guðjón Jónsson.

Fyrstu auglýsingu um hátíðina birti nefndin í báðum íslenzku blöðunum hinn 23. og 24. júlí. Fylgja auglýsingunni áskoranir frá ritstjórunum til almennings, að sækja hátíðina. Í blöðunum 30. og 31. júlí, er skemtiskráin birt, og skýrt frá því, að komið verði saman að morgninum kl. 9½ á balanum sunnan við íslenzku kirkjuna (við götuhornið Ross og Sherbrooke) og þar skipað í fylkingar og farin skrúðganga austur Ross stræti suður Isabel, austur Notre Dame ofan á Portage Ave., þaðan ofan í Aðalstræti og norður eftir því að Rupert stræti, austur eftir því og inn í "Victoria Gardens", en þann garð hafði nefndin fengið léðan til hátíðahaldsins. Var þannig ráðgjört, að gengið yrði nær hálfa aðra mílu gegnum meginhluta borgarinnar, eftir því sem þá var. Hornleikaraflokkur hermannaskólans var fenginn, til þess að ganga fyrir liðinu og skemta um daginn með hornablæstri. Fimm minni voru auglýst, ort og flutt. Minni Íslands, kvæði Jón Ólafsson; ræða Gestur Pálsson; minni Vesturheims, kvæði Einar Hjörleifs-

1) Lögb. 3. ár. 4. júní 1890, nr. 21, "Fram, fram, Íslendingar."

son; ræða séra Jón Bjarnason; minni gesta, ræða Eggert Jóhannsson, og ræður frá gestum: Minni Vestur-Íslendinga, kvæði Gestur Pálsson, ræða Einar Hjörleifsson; minni kvenna, kvæði Kristinn Stefánsson; ræða Jón Ólafsson. Ekki var nú neinum liðleskjum teflt fram, enda hefir þess oft verið getið síðan. Þess utan var auglýstur söngur og alls konar íþróttir, svo sem hlaup, stökk, glímur, kappróður, og að lokum danz eftir kl. 8.

Forseti samkomunnar var kjörinn Vilhelm H. Paulson. Nóttina fyrir hátíðina gerði allmikla rigningu, en bjart var um morguninn, og fór alt fram sem áætlað var. Skömmu eftir dagmál tók fólk að safnast saman á hinum tiltekna stað, grundinni sunnan við kirkjuna, og um kl. 10 lagði skrúðgangan af stað. Kerrur til að aka kvenfólki í og börnum hafði nefndin vistað. Fjörutíu voru þar til staðar, en þó mikils til of fáar, svo að margar konur urðu að ganga. Íbúar Winnipeg töldust þá eitthvað um 30,000 manns, og vel tíundi hlutinn Íslendingar. Var hátíð þessi með stærstu viðburðum í lífi borgarinnar. Aðkomandi voru gestir úr Nýja Íslandi og einkum úr Dakota-bygðinni. Var hátíðin hin fjölmennasta. Þá voru þar og margir boðsgestir svo sem, Schultz fylkisstjóri Manitoba, Taylor Bandaríkja konsúll, Green Danakonsúll; Scarth sambandsþingmaður; Thomas Scott, tollgæzlustjóri í Winnipeg; Bennet, yfirmaður við innflutningadeild fylkisins; dómsmálastjóri, Isaac Campbell, Metcalfe þingmaður frá Ontario og ýmsir fleiri. Hátíðahaldið var sett með ræðu; ávarpaði forsetinn gestina og mælti fyrst á íslenzka tungu því næst á enska, og bauð alla velkomna. Lék þá lúðraflokkurinn þjóðhátíðarlagið "Ó Guð vors Lands", að því loknu var sungið minni Íslands: "Já, vér elskum Ísafoldu' er áa vorra bein, o. s. frv.", ort af Jóni Ólafssyni, og sungið þá í fyrsta skifti. Mælti hann fyrir þessu minni, þótt áður hefði það verið ætlað Gesti Pálssyni. Var Gestur ófrískur og því ófær til þess sökum veikinda. Þá var sungið minni Vesturheims, kvæði eftir Einar Hjörleifsson, "Önnur lönd með ellifrægð sig skreyta, æfa-löngu dauðum kappafans, o. s. frv.", einnig ort við þetta tækifæri, og því sungið og lesið þá í fyrsta sinn. Mælti þá séra Jón Bjarnason fyrir minni Vesturheims. Flutti þá Eggert ritstj. Jóhannsson ræðu á enska tungu fyrir minni gestanna, er þeir svöruðu með sínu ávarpinu hver, Schultz fylkisstjóri, Scott, Scarth þingmaður, Taylor konsúll, Hespeler konsúll, Metcalfe og Bennett. Luku þeir allir lofsorði á Íslendinga, og töldu þá hið ákjósanlegasta fólk fyrir álfu þessa.

Nokkrir ræðumannanna fundu þeim það helzt til lofs, hve fljótir þeir væru að semja sig eftir siðum og háttum innlendum. Voru þá og þeir kostirnir taldir, er þeir

hafa löngum orðið að þola að heyra um sig sagða síðan. En þá var þetta ósvikið hrós og mælt af fullri vináttu.

Dagblöðum bæjarins, "*Manitoba Daily Free Press*" og *Winnipeg Daily Tribune*", varð og tíð rætt um hátíðahald þetta, og bæði luku á það lofsorði. Fluttu bæði blöðin ítarlegar ritstjórnargreinar um landið og þjóðina. Benti "*Free Press*" á, að þjóðin ætti sér þúsund ára menningarsögu, og mætti með sanni segja, að Canada væri naumast komið af barnsaldri, ef bera ætti saman við Ísland. Gat það landafunda Íslendinga að fornu, bókmenta þeirra og þjóðskipulags, lýsti á hvaða mentunarstigi þjóðin stæði á síðari tímum, að naumast findist svo tíu ára gamalt barn, að það væri eigi lesandi og skrifandi, áleit að leitun myndi þeirrar þjóðar, er hið sama yrði sagt um. Máli sínu lauk það með, að lýsa því yfir, að þótt stoltir væri af þjóðerni sínu yrði þeir eigi minna metnir fyrir það, heldur öllu meira af öllum skynbærum mönnum.

Nokkuð á sama hátt fórst "*Tribune*" orð. Gat það þess, að skrúðgangan hefði verið hin stærsta, er enn hefði farið um götur Winnipeg borgar, og mörgum verið það opinberun og undrunar efni að Íslendingar væri svo margir í borginni. Þá hafði það upp söguna um mentunar yfirburði þeirra, sparsemi, iðjusemi, ráðvendni og trúmensku, er orðið væri að orðtaki. Með nokkurri skynsemi leiðir það svo rök að þessu máli sínu. Þótt þjóðin sé fátæk heima fyrir og eigi við óblíð kjör að etja, er þó annar kostur þessu fylgjandi. Á vetrum er umferð ill og oft fáferðugt, en landið strjálbygt. Er þá þeim tíma varið til lesturs og mentunar unglingum. Af þessu leiðir það, að engir fara á mis við alla fræðslu, allir læra nokkuð. En með þessu hefir líka þjóðin náð því stigi, að verða jafnmentaðri en nokkur önnur þjóð í heimi. Jafnvel meðal mestu fátæklinga er þekking til, glögg og skýr svo undra vert má þykja.

Hátíðin heppnaðist vel, náði hinum fyrsta tilgangi sínum, að vekja athygli innlendu þjóðarinnar á þjóðerni og sögu Íslendinga. Hún heppnaðist og líka að því að vekja Íslendinga sjálfa, og efla hjá þeim sjálfstæðishug gagnvart samborgurum þeirra, draga þá saman, utan um það sem sameiginlegt var með þeim, og þeim var ósjálfrátt en meðskapað, — þjóðerni þeirra og tungu.

Þeir sem heima sátu í sveitunum og eigi gátu sótt hátíðina lásu með ákefð, það sem um hana var ritað í íslenzku blöðunum og hétu sér því, ef lánið léði, að sækja hana seinna. Ræðurnar og kvæðin ryfjuðu upp margt er farið var að fyrna yfir. Gekk svo til hin fyrstu ár. Þeir sem hátíðina sóttu höfðu þá frá ýmsu að segja, er heim kom aftur, og voru þess utan spurðir ýmissa tíðenda, eigi ósvipað og að þeir kæmi að hálfu leyti úr Íslandsferð. Þeir hittu

líka menn úr öðrum sveitum og bygðarlögum á hátíðamótinu, og fengu þannig fregnir af líðan manna alstaðar að. En frá ferðinni heimanað og vestur, í stórhópunum er tvístruðust um hinar ónumdu sléttur álfunnar — áttu ýmsir kunningja. Spáin, um að almenn þjóðhátíð myndi draga saman hina dreyfðu innflytjendur og skapa hjá þeim sjálfsvitund, sem sérskilinni þjóð — innan um allann þjóða-fansins — varð að sannindum.

"Íslendinga-dagurinn" kom á hinum ákjósanlegasta tíma, er hans var sönnust þörf, og áhrif hans gátu orðið sem víðtækust fyrir hugsunarhátt þjóðarinnar. Er vanséð ef seinna hefði verið, að hann hefði haft nokkura varanlega þýðingu til að bera. Brölt og búflutningar voru um garð, landaleita leiðangri lokið og nýlenduskoðun. Nýlendurnar allar stofnsettar, að einni undanskilinni (Vatnabygð), og bygðarlögin öll að færast í fastar skorður, eftir atvinnugreinum og staðháttum er auðkendu hvert um sig. Héraðsstjórn var hin sama innan þessara sveita sem annarsstaðar í landinu, sem eðlilegt var, þó embætti og embættisfærzla væri oftast nær í höndum Íslendinga sjálfra. Yfirboðarinn var ríkið, er til sín laðaði hugsunarháttinn og sagði fyrir verkum. Þá var viðskiftalífið líka að færast í hið innlenda horf, og þær aðferðir að takast upp, er þar voru tíðkaðar. Alþýðuskólar voru allvíðast komnir á fót, með hinum föstu námsgreinum er lögin fyrirskipa, en því miður of oft eftirskilja enga lyst eða löngun hjá nemandanum að fræðast um önnur lönd en þau, er hann á heima í, sökum þess að hann heyrir þeirra sjaldan eða aldrei getið. Veit því naumast að þau séu til, en þó enn síður hvað auðkennir mentalíf og menningarsögu þeirra þjóða er þar búa. Nokkrir hinna yngri manna voru byrjaðir á háskólanámi, einkum í nýlendunum í Bandaríkjunum.

Án nokkurrar þjóðernislegrar vakningar hefði eigi getað hjá því farið, að minningarnar hefðu skjótlega máðst burtu úr huganum er geymdar voru frá ættlandinu, þekkingin þorrið á því, sem íslenzkt er, og þjóðarrækt og metnaður orðið að skari er að lokum hefi kulnað út. Þó hægt færi, voru smá raddir farnar að heyrast, er fastlega réðu til, að alt íslenzkt væri þegar lagt niður, og siðir og tunga "landsins" tekið upp í þess stað. Hugkvæmdist þeim eigi, að á því væri nokkurir örðugleikar. En þeir voru nú hvorki meiri né minni en það, að í bráð hefði orðið að svifta allan þorra manna bæði máli og rænu. En þar töluðu námgreinarnar við hina "frjálsu lýðskóla" — þ. e. hinir í skóla gengnu. Báru öll rök og líkingar þess vott.

Stofn bygðanna var íslenzkur, hinn ráðandi hlutinn, og var því móttækilegur fyrir þá vakningu, er hátíðahaldið gat veitt. Megin þorri unglinga og barna mundu og eftir "ferðinni að heiman" þó

lítið hefði af föðurlandi sínu að segja. Minningarnar — allar minningar — eru því töfraafli gæddar að þær fá leyst úr öllum spurningum, sýnt of alla heima, skýrt hverja sögu og brugðið upp þeim myndum, er auga hefir eigi séð.

Hátíðin vann sér þegar til hefðar, eða öllu heldur hlutverk það, er henni var ætlað að vinna. En það lá í tilfinningu manna, að hún gæti aðeins verið haldin á einum stað, og þangað yrði allir að fara er taka vildi þátt í henni. Var það afar óheppilegt, þótt það gerði hana að vissu leyti tilkomu meiri. Með því náði hún eigi eins út til sveitanna. Hún var Þjóðminningar samkoma, er alla heimti saman á einn stað, frá austri og vestri, norðri og suðri, en eigi þjóðminningardagur, er hvarvetna mætti hátíðlegan halda þar sem tveir eða þrír voru samankomnir. Hún var einskonar Olympmót. Að þessum skilningi studdu Winnipeg-blöðin og margir hinna leiðandi manna. Liðu því nokkur ár áður en hún var tekin upp út um sveitir, og eru til þau bygðarlög, er enn hafa eigi haldið Íslendingadag.

Þó nú fyrsta þjóðminningarhátíðin væri haldið 2 dag ágústmánaðar, var eigi þar með frá því gengið, að svo skyldi jafnan vera. Næsta hátíð var haldin 18. júní 1891, í hinum svonefnda *Dufferin Park*. Að hátíðin var færð til, mun hafa stafað af því, að álitið var að samkoman yrði betur sótt utan úr sveitunum, ef sumar-annir væru eigi byrjaðar. Og svo voru einhverjir óánægðir með 2. ágúst og stjórnarbótina 1874, og svo réði því ef til vill einhver flokka ágreiningur líka.

Fer hátíðin fram með hinum sama hætti og árið áður. Forsetinn, Sigtryggur Jónsson, ávarpar gesti um leið og hann setur samkomuna. Ræðumenn eru: Séra Hafsteinn Pétursson, er mælir fyrir minni Íslands; Gestur Pálsson, er mælir fyrir minni Vesturheims, og séra Friðrik J. Bergmann, er mælir fyrir minni Vestur-Íslendinga. Af hálfu gestanna fluttu ræður þeir bræður, Skapti B. Brynjólfsson og Magnús lögfræðingur Brynjólfsson. Kvæði ortu þeir Gestur Pálsson, fyrir minni Íslands: "Til einskis er að glápa á gamlar tíðir, og gráta frægð sem nú er orðin hjóm". Sigurðu J. Jóhannesson, fyrir minni Vesturheims: "Þú Vínland, Vínland góða," og Einar Hjörleifsson Kvaran, fyrir minni Vestur - Íslendinga: "Nú leggjum niður þref og þjark, er þreyttum áður vér." Hefir oft verið vitnað til þessa síðasta kvæðis, þó eigi hafi oft verið sungið síðan. Stóðu deilur þá það hæzt, er þær hafa komist. Voru því upphafs orðin eftirtekta verð. Þá þótti ræða Gests Pálssonar óvanaleg, og eigi öll í orðum falin. Var það síðasta ræðan er hann flutti frá opinberum stað, því hann andaðist fáum vikum síðar (19. ágúst). Líkir hann Ameríku við útsæinn: "Þjóðlífið í Ameríku er svo stór-

kostlegt og breytilegt, að það er í raun og veru ekki líkt nokkru öðru þjóðlífi í heimi. Manni finst, að þar séu öll höftin í mannlífsstiganum fólki fylt, frá því efsta til þess neðsta. Þar er auðugasti maður heimsins og fátækasti, þar ægir saman öllum þjóðum í óútmálanlegri heild." Þetta minnir hann á úthafið. "Svo langt sem augað sér, breiðir sjórinn sig, óyfirsjáanlegur og óútreiknanlegur. Í fljótu bragði sýnist hver báran á sjónum annari lík, en þegar maður fer betur að gá að, eru þær að einhverju meira eða minna leyti ólíkar. Hverfleikinn á hafinu er eigi og síður eftirtekta verður, er skiftast á stillur og stórsjóar. Öldurnar rísa, skýin bruna um himin hvolfið, eldingum slær niður, þrumurnar öskra svo að ekkert heyrist nema það. Þá finnst manni mannlífið svo óumræðilega smátt og lítilfjörlegt." Þessi hverfleiki minnir á fjölbreytni hins ameríska þjóðlífs. "En fjölbreytnin gjörir það að verkum, að Ameríka er mögulegleikanna land. Tala mögulegleikanna er alveg óendanleg. Mönnum finst stundum, að ekki þurfi annað en grípa hendinni niður fyrir fætur sínar, til að taka upp einhvern mögulegleikann, einhverja lukku, öldungis eins og malarinn hérna á árunum fangaði vindana, og lét þá í pokann sinn. En þeir láta ekki ætíð fanga sig, þessir mögulegleikar hérna í Ameríku. Til eru þeir samt, maður horfir á þá, hefir von um að ná í einhvern þeirra, stritar og berst fyrir þessari von, þangað til maður nær í einhvern eða — deyr. Hverjir foreldrar sem eiga dreng í vöggu, geta vonast eftir, að sonur þeirra verði *president* í Bandaríkjunum, eða *premier* í Canada. Það getur náttúrlega eins vel verið, að pilturinn verði bara brennisagari; gangi út með sögina sína á bakinu alla sína æfi og sagi í eldinn fyrir náungann."

Samkoman var ærið fjölmenn, og miklu voru þar fleiri gestkomandi úr sveitunum, en hið fyrra árið. Er svo sagt, að um 400 manns hafi verið þar aðkomandi. Afföll voru veitt á fargjöldum með járnbrautum úr öllum helztu bygðarlögunum, eftir beiðni forstöðunefndarinnar. Eigi leið þó á löngu eftir samkomuna, að óánægja hreyfði sér út af tímafærslunni. Þótti sumum, að almenningur hefði eigi verið að því spurður er bæði nafni (en samkoman var nefnd þetta ár og hið næsta þar á eftir: *Þjóðhátíð Vestur-Íslendinga*) og dagsetningu hátíðarinnar var breytt. En deilur voru þá svo tíðar um alla hluti, að hjá því gat eigi farið, að einnig yrði brýna slegin út af þessu. Ritgjörð birtist þá um þetta leyti, frá skáldinu J. Magnúsi Bjarnasyni, er lýsir mæta vel deilugirni þeirra tíma. Kvartar hann yfir því, að svo virðist sem Íslendingum ætli ekki að auðnast að lifa í einingu, eða sem þjóðflokki í landinu. "Mesta óeiningin orsakast af hinum breytilegu trúarskoðunum

þeirra, — — í dag geta tveir verið aldavinir, á morgun svo stækir óvildarmenn, að þeir geta ekki heilsað hver öðrum, og orsökin er sú, að annar trúir ekki öllu sem biblían kennir, en hinn trúir hverju orði.” Vill hann, að menn gæti betur hófs í þessu efni, en þó einkum hinir lærðu menn, er mestri sundrungunni valdi. Bendir á þá þýðingu, er þjóðminningardagurinn geti haft ef um hann geti verið eining og sátt.

Árið 1892 er hátíðin færð aftur til baka, til mánudagsins 1. ágústs. Fer hún fram með hinum sama hætti og fyrr. Er samkoman ágætlega vel sótt, og er þess getið að yfir 1,200 Íslendingar hafi tekið þátt í hátíðahaldinu. Samkoman var haldin suður í svonefndum *Elm Park* og byrjaði með íþróttum er þreyttar voru fram til hádegis. Tóku þá við ræðuhöld, söngvar og hljóðfærasláttur. Ræðuhöldum stýrði Páll Sigurgeirsson Bardal, er var kjörinn forseti hátíðahaldsins. Fyrstur mælti fyrir minni Íslands Einar Hjörleifsson Kvaran, næstur honum séra Hafsteinn Pétursson fyrir minni Vesturheims og síðastur Jón Ólafsson fyrir minni Vestur-Íslendinga. Engin kvæði voru ort við þetta tækifæri, en minni sungin frá fyrri árum. Færra var um boðsgesti innlenda á hátíðinni en í hin fyrri skifti og kvartaði blaðið *Free Press* yfir því í ítarlegri ritgjörð, er birt var í blaðinu 2. ágúst. Taldi ritstjórinn það illa farið, hve viðkynningin væri enn takmörkuð milli Íslendinga og hinna innlendu samborgara þeirra. Gat hann þess, að naumast myndi níu tíundu hlutar hins enskumælandi fólks í bænum kunna deili á þjóðflokki þessum og því síður þekkja nokkuð til sögu hans og menningar. Vildi hann, að á þessu væri unnin bót. Benti hann á, að þá á næstliðnu ári hefði andast í bænum ágætlega mentaður Íslendingur [1]), rithöfundur, er samið hefði rit er þýdd hefðu verið á ýms Norðurálfumál og væri víða lesin; hann hefði dvalið á annað ár í borginni, en verið þó flestum eins óþektur og búið hefði í villilöndum Afríku. Orsakir þessa ókunnugleika taldi hann vera þær, að félags samblendni millum þeirra og hinna enskumælandi manna væri lítil, eigi þó fyrir þá skuld, að Íslendingar teldust nú lengur mállausir og framandi, þar sem allflestir þeirra mæltu á enska tungu, heldur sökum hins, að þeir myndu hafa orðið lítilsvirðingar varir á fyrri árum og það vakið tortrygni í huga þeirra Álítur hann það því vera kurteisisskyldu hinna innlendu, að stíga fyrsta sporið í þá átt að kynni geti orðið meiri og betri.

“Sannur vinur,” segir hann, “er ekki sá, sem smjaðrar fyrir kjósendunum undir kosningar, og kannast við verðleika þeirra þegar hann þarf á hjálp þeirra að halda, heldur sá, sem heldur þeirra taum þegar þeir eru lítils metnir, og tekur svari þeirra, þegar þeim er hallmælt. Slíkur vinur var Dufferin

1) Gestur Pálsson, d. 19. ágúst 1891.

lávarður Íslendingum og að lofsyrði hans um þá 1877 [1]) urðu þeim að góðu gagni, kom að miklu leyti af því, að þau voru töluð á þeim tíma, er margir í Winnipeg litu á þá sem lélegan flokk innflytjenda, er óhæfir væri fyrir þetta land. Sem betur fer, hefir aldei verið nein veruleg þjóðernis fæð eða óvild lögð á Íslendinga. En á löngu hefir liðið þangað til kostir þeirra fóru að vekja verulega eftirtekt. Þeir hafa nú búið 16 ár í landinu og eru töluverður hluti íbúa bæjarins, en alt fram að þessu ári hafa þeir engan haft af sínum þjóðflokki í bæjarstjórn.[2]). Þótt það sé viðurkent, að þeir standi mörgum öðrum þjóðflokkum framar að mentun, þá hefir þó enginn þeirra til þessa dags verið kosinn í skólanefnd bæjarins, og þeir hafa ekki tiltölulega eftir fjölda, lagt kennara til barnaskólanna né menn í þær stöður, er lærdóm útheimta. Þótt þeir fræði sjálfa sig aðdáanlega vel um öll almenn mál, þá hefir þó enginn þeirra árætt að gera kost á sér til þingkosningar. Hví skyldu Englendingar, Írar og Canadamenn hafa á móti að kjósa Íslending, þegar þeir láta sér vel lynda, að kjósa Skota, sem minna hefir til síns ágætis?'' [3])

Sannarlega var Íslendingadagurinn að bera árangur í fleiri en einum skilningi. Með ritgjörð sem þessari, í aðalblaði alls Norðvesturlandsins, gat eigi hjá því farið, að farið yrði að veita Íslendingum meiri eftirtekt en áður, og að álitaskifti væri í vændum meðal hinna enskumælandi íbúa landsins. Og þótt sú skoðanabreyting væri að vísu ofur þýðingarlítil í sjálfu sér og hvorki yki við eða næmi nokkuð af manngildi þeirra, var hún samt sem áður eigi einskisverð, er kom til almennra viðskifta.

Hátíðin var nú þriggja ára gömul og hafði verið færð fram og aftur svo hana bar aldrei upp á sama daginn, svo sem til að leitast fyrir með hvaða tími myndi heppilegastur. En að því reyndu, munu þó flestir hafa þar frá snúið jafn ófróðir. En hitt var það, að hinum enskumælandi meðborgurum þótti það kynlegt, að þjóðminningar hátíð Íslendinga skyldi eigi geta alla jafnast borið upp á sama dag ársins. Það gekk þeim illa að skilja og áttu þeir eigi slíku að venjast sín á meðal. En til þess fundu Íslendingar eigi. Dagafærslan hafði orðið þess valdandi þeirra á meðal, að ákveðinn ágreiningur var risinn um hátíðisdaginn. Vildi annar flokkurinn binda hátíðina við einhvern dag síðla í júnímánuði, en hinn að haldið væri fast við upphaflega daginn. Jón Ólafsson hafði átt tillöguna um 2. ágúst. Var hann þá meðritstjóri að ''Lögbergi'', en var nú kominn að ''Heimskringlu''. Fylgdi hann nú 2. ágúst fram og kvað ''Lögberg'' vilja færa daginn til júní svo hátíðin legðist undir kirkjufélagið

1) Dufferin lávarður heimsótti Íslendinga að Gimli 14. sept. 1877.

2) Árni kaupm. Friðriksson var kosinn í bæjarráðið 15. des. 1891.

3) Þýðing Jóns Ólafssonar í Hkr. 10. ágúst 1892, nr. 56.

og saman færi Íslendingadagurinn og kirkjuþingið. En eigi var þetta með fullri sanngirni sagt, því sem kunnugt er, var kirkjuþing eigi haldið á einum og sama stað ár eftir ár, og gat því eigi verið um samband þess og hátíðarinnar ávalt að ræða. Þá skiftust og menn eigi um þetta mál eftir trúarskoðunum, sem og naumast gat verið. Hafi verið um nokkurn skoðana ágreining að ræða, mun hans miklu fremur hafa verið að leita innan landsmálaágreiningsins, það að flokkarnir voru tveir, og máttu því ekki vera sammála um neitt. Menn skiftust í þessu sem öðrum málum með blöðunum, svo að öðrum megin var "Lögbergsflokkurinn", en hinum megin "Heimskringluflokkurinn." Úr þessu sléttist þó svo, þá í svipinn, að komið var sér saman um að halda hina fjórðu hátíð þá um sumarið 2. ágúst.

Óhætt mun að fullyrða, að þessi hin fjórða þjóðminningarhátíð, "Íslendingadagurinn 2. ágúst, 1893," hafi verið einhver hin allra bezta og ánægjulegasta sem haldin hefir verið fyrr eða síðar. Árið 1893 var hið mikla heimssýningarár. Verið var að minnast 400 ára afmælis Ameríkufundar Christophers Columbusar, með veraldarsýningunni miklu í Chicago. Óbeinlínis hafði mikið verið ritað og rætt um Vínlandsfund Íslendinga í því sambandi. Norðmenn höfðu og gjört sitt til að minna á þann atburð með því að senda dreka mikinn og skrautbúinn til Ameríku, og sigla honum alla leið upp til Chicago. Þá hafði og komið til orða, að hið mikla handritasafn "Flateyjarbók", er geymt er á konunglega bókasafninu í Khöfn, yrði léð til Chicago, svo gestum gæfist kostur á að horfa á heimildirnar fyrir sögu þeirri, að vestur hefði komið landnámsmenn norrænir löngu á undan Spánverjum, Frökkum og Englendingum. Er til kom, tímdi Danastjórn eigi að ljá handritið úr landi, en sendi sýningarnefndinni í þess stað eftirgerð ljósmyndaða, er þar var svo höfð til sýnis. Buðust þó Ameríkumenn til að senda herskip eftir handritinu, ef stjórnin þættist með því óhultari um varðveizlu þess. Alt þetta vakti umtal í innlendum ritum um Ísland, Íslendinga, sögu þeirra og bókmentir að fornu og nýju. Ómar þess máls bárust til eyrna Íslendingum sjálfum. Auðugasta þjóð veraldarinnar girntist fornrit þeirra og taldi þau kjörgripi.

En það sem öllu öðru fremur skóp þjóðernislega vakningu þá í bili og gerði hátíðina minnilega, var hvorki, Drekinn norski, né handrita ljósmyndir Flateyjarbókar, né hið innlenda blaðaskvaldur, heldur heimsókn skáldsins þjóðkunna, séra Matthíasar Jochumssonar. Var hann staddur í Winnipeg Íslendingadaginn og flutti kvæði og ræðu fyrir minni Vestur-Íslendinga. Brýndi hann fyrir þeim að varðveita vel bæði sögu sína og tungu, þó síðar væri betur, með "Bragarbótinni", er hann sendi þeim eftir heimkomuna. Samkomunni stýrði Árni

Friðriksson kaupmaður. Minni Íslands flutti Jón Ólafsson; minni Canada: Einar Hjörleifsson Kvaran; minni Bandaríkjanna: séra Hafsteinn Pétursson. En kvæði ortu: Minni Íslands: Einar Hjörleifsson Kvaran: "Nú andi vor lyftir sér austur um geim að æskunnar dýru stöðvum sínum"; minni Canada: Kristinn Stefánsson: "Canada, hafvíða, heimkunna veldi"; minni Bandaríkjanna: Jón Ólafsson: "Þú Franklíns þjóð, í Leifs hins heppna landi."

Árið eftir eru þeir báðir brott, Einar Hjörleifsson Kvaran og Jón Ólafsson. Einar alfluttfluttur til Íslands, en Jón Ólafsson til Chicago. Skiftir því um ræðumenn á hinni næstu hátíð. Flutti nú W. H. Paulson ræðu fyrir minni Íslands, en kvæði Kristinn Stefánsson. Fyrir minni Canada talaði Friðjón kaupmaður Friðriksson, en fyrir minni Íslendinga í Vesturheimi B. L. Baldwinson. Að öðru leyti er samkoman mjög með sama hætti og sami er forseti og áður. Fer nú þessu fram um hríð. Skift er árlega um ræðumenn. Árið 1895 mælir Sigtryggur Jónasson fyrir minni Íslands, Magnús Paulson fyrir minni Canada og Canada Íslendinga, og Barði G(uðmundsson) Skúlason, er þá var nýútskrifaður frá ríkisháskólanum í Grand Forks, N.-Dak., talaði fyrir minni Bandaríkjanna og Bandaríkja-Íslendinga. Talaði hann á enska tungu og þótti það galli. Þá kveður Stephan G. Stephansson minni Vestur-Íslendinga: "Vort djarfa, fagra móðurmál."

Árið 1896 er annað merkisár í sögu hátíðarinnar. Er samkoman þá haldin 3. ágúst. Þá voru staddir í Winnipeg um það leyti Dr. Valtýr Guðmundsson frá Khöfn, Jón Ólafsson, er kom snögga ferð að austan frá Chicago, og skáldið Þorsteinn Erlingsson. En svo bar til að þeir voru þar Dr. Valtýr Guðmundsson og Þorsteinn Erlingsson, að þeir voru fengnir til þess að ferðast til Boston og yfirlíta þar fornleifar (fornar húsatóptir), er fundist höfðu upp með Karlsá (Charles River) sunnanvert við Cambridge. Voru það ágizkanir fræðimanna þar eystra, að leifar þessar gætu stafað frá tíð Íslendinga í Vesturheimi. Eftir að þeir höfðu lokið þeim rannróknum, er til einskis leiddu, því þeir gátu eigi fallist á að þar væri um forn-íslenzkar eða norrænar menjar að ræða, skruppu þeir vestur; D. Valtýr til að heimsækja móður og systkini, en Þorsteinn til þess að sjá sig um meðal Íslendinga, um nokkra daga. Ferðaðist Dr. Valtýr um helztu bygðarlögin og hvarf eigi heimleiðis fyrr en seint í ágústmánuði; en Þorsteinn hafði viðdvöl öllru skemmri og gat eigi beðið hátíðarinnar. Kvæði orti hann og skildi eftir fyrir minni Íslands. Er það ekki tekið upp í seinni útgáfum "Þyrna" og því sett hér:

"Gamla Fróni handan haf
hætt er við menn gleymi,
sem að auðnan annan gaf
óðal vestur í heimi

Þó mun lengi lifna þrá,
leynd í hjörtum inni,
þegar helgri hátíð á
hljómar Íslands minni.

Þá er frítt þitt fanna skaut,
forna, kalda landið,
stjarnan eina á allra braut,
eina fasta bandið,
lítil ey, sem alein ver
okkar tungu' og minni,
þegar málið þetta hér
þagnar hinsta sinni."

Sami var forseti hátíðarinnar og áður. Dr. Valtýr Guðmundsson mælti fyrir minni Íslands, Jón Ólafsson fyrir minni Vestur-Íslendinga, er það síðasta ræðan, er hann flytur vestan hafs, en W. H. Paulson fyrir minni Ameríku. Áætlað var, að um 1,500 manns hafi verið á samkomunni, og látið vel yfir hversu hátíðin hafi tekist. Kvæði ortu: Kristinn Stefánsson: Minni Vestur-Íslendinga, og Jón Ólafsson: Minni Ameríku.

Fram að þessum tíma var hátíðahaldið að mestu bundið við Winnipeg. Enn var það ein fastákveðin hátíð, er útrýmdi úr hugum manna minningardeginum. Þó var eitt bygðarlag þar undanskilið, Alberta-bygðin, er tók upp Íslendingadag strax sumarið 1893, en einhverra orsaka vegna eigi um sama leyti og í Winnipeg, var hátíðin haldin þar 5. ágúst. Á næstu tveimur árum var hátíðin látin bera upp á sama dag og í Winnipeg, en árið 1896 er hún færð fram til 25. júlí, og sú ástæða færð fyrir þeirri ráðbreytni, að engu skifti um daginn, meðan þjóðin heima hafi eigi fastákveðið þjóðhátíðardag. Eins og það varðaði engu, að Íslendingar vestra leituðu einhverrar einingar í þessu efni. Var og lítil ástæða að ætla, að þjóðhátíðardagur yrði lögskipaður á Íslandi. Hefir þjóðin jafnan átt landið og eigi þurft um það að deila við neinn. Ein hefir hún setið að því og eigi átt við aðrar þjóðir að etja heima fyrir. Þurfti því eigi þess konar tyllidag sér til minningar um þjóðernislegt sjálfstæði. Slík hátíð þar gæti aldrei orðið annað en "auka messa", þó einhver sérstakur dagur yrði lögskipaður. Hin helzta þýðing hans yrði sú, að halda hátíð til samlætis þeim, sem fluttir væri af landi burt og yrði þá aðalefnið einskonar minning um útflutninga, er orkað gæti tvímælis hvort fremur bæri að minnast með söknuði eða gleði. En svo hefir þessi bygð eigi verið ein um þessa skoðun, því víðast hvar hefir hinu sama verið brugðið við, og enn eru margir í Winnipeg og víða annarstaðar að bíða eftir hinum *lögskipaða degi* alþingis.

Merki finnast til, að Íslendingadagur hafi verið haldinn í tveimur bygðarlögum upp að þessum tíma. Í Duluth er þess getið, að til samkomu hafi verið efnt 2. ágúst 1891, en svo getur þeirra samkvæma eigi oftar, enda var þar aldrei öðruvísi en fáment, þegar þar taldist sem flest. Þá er og þess getið, að Íslendingadagur hafi verið haldinn að Hnausum í Nýja Íslandi 2. ágúst 1894. En þau voru tildrögin, að fylkisstjórnin hafði látið þau boð út ganga, að á þeim degi yrði þar

staddir umferðar kennarar, er tilsögn myndi veita að tilbúningi smjörs og í ostagerð. Var skorað á fólk að vera þar til staðins til að færa sér kenslu þessa í nyt. Margir, bæði karlar og konur, voru komnir þangað snemma um morguninn, en svo leið fram á hádegi, að kennararnir komu ekki. Urðu menn þá úrkulavonar að þeir myndi koma. Með því nú að svo margir voru þar saman komnir, var stungið upp á því, að hafa skemtanir það sem eftir væri dagsins. Menn rendu huganum upp til Winnipeg til þjóðhátíðardagsins og mintust þess, að þetta væri Íslendingadagur, ákváðu því næst, að halda brot af Íslendingadegi þar hjá sér, völdu til þess forstöðunefnd og stofnuðu til leika, söngvar voru sungnir og ræður fluttar og stóð samkoman til kvelds. Árið eftir var samskonar mót haft á sama stað, en svo er þess eigi getið í blöðunum, að það hafi verið endurtekið þriðja árið, en var þó haldið og með meira fjöri en áður.

Þó nú búið væri að halda hátíðina í sjö ár og með því mætti virðast, að hún væri komin á fastan fót, var þó enn megn óánægja með dagsetninguna, hin sama og í byrjun. Þótti mörgum hún haldin of síðla sumars og voru færðar til hinar sömu ástæður og áður hafa verið nefndar. Þá vildu og nokkrir gjöra sér og öðrum sögulega grein fyrir því, af hvaða ástæðum að ekki mætti binda hana við annan ágúst, og þær minningar, er honum fylgdu, þó annað væri ekki fundið til. Og aðal agnúinn var stjórnarskráin frá 1874, er bent var á, að öll íslenzka þjóðin væri sár-óánægð með, og hefði eigi fyrr öðlast en hún hefði viljað fá henni breytt. Var þetta eigi athugað nákvæmar en það, að talið var, að stjórnarskráin hefði í gildi gengið þenna dag, þó í raun réttri hún öðlaðist staðfesting konungs 5. janúar, og samkvæmt skipun hans, er hann gaf út í Reykjavík, kæmi í gildi fyrsta ágúst, og hið íslenzka stjórnarráð tæki þá til starfa. Leitað var svo eftir gildum ástæðum til að ákveða hátíðina einhvern annan dag og var þá helzt þreifað fyrir sér í júnímánuði. Var það hentugur tími til samkomuhalda, einkum fyrir sveitamenn og bændur, er virðist um létti, og því líklegur til að hljóta meðhald þeirra.

Þó nú þetta héti svo, að færð væri fram rök með og mót og málið gjörskoðað eftir ástæðum, þá var það þó hvorki ein ástæðan eða önnur, er ósamkomulaginu olli; hvorki Stjórnarskráin eða stöðulögin, eða hámessan í dómkirkjunni 2. ágúst, né þá heldur umhyggjan með sveitamönnum og vinnuhægðin í júnímánuði, heldur að stjórnmálin og félagsmálin höfðu skift Íslendingum í tvo öndverða flokka, er hvorki vildu né gátu komið sér saman og gerði svo alla samvinnu um tíma lítt mögulega. Það voru þessir flokkar, er mæla hugðust afl sitt hvor við annan og vildu þannig láta til skarar skríða um það, hvor þeirra hefði yfirráðin í framtíðinni, er

stríddust á og vörpuðu þessu þrætuepli fyrir almenning. Blöðin voru ausin barmafull um þetta mál, en einkum stóð þó deilan um annan ágúst og hve illa hann væri fallinn til hátíðardags. Út í frá mun eigi öllum hafa verið ljóst í hverju þessi ágreiningur lá, en æsingarnar og orðakastið gripið tilfinningar þeirra, og skipuðu þeir sér svo á víxl til beggja hliða, eftir því sem andinn inngaf þeim. Frá Selkirk var rituð löng grein og þar dregin hryggileg mynd af Jóni Sigurðssyni forseta, er átti að hafa neitað að eiga nokkurn þátt í hátíðahaldinu á Íslandi 1874, en setið tárfellandi í Khöfn af gremju og óánægju yfir Stjórnarskránni.

Að mál þetta var þannig vaxið og að til sameiningar myndi eigi draga, þó farið væri að hrófla við því á ný, hefðu þeir átt að sjá, er einkum báru velferð Íslendingadagsins fyrir brjósti, en létu sig litlu skifta flokka ágreininginn, svo sem eins og Kristinn Stefánsson, Eggert Jóhannsson og fleiri. En vafalaust hefir þeim þó hugkvæmst, að einhverju samkomulagi mætti koma á, og þá helzt ef því væri vísað fyrir allan almenning um land alt, og gengið til atkvæða um það.

Þetta mun því hafa leitt til þess, að samtalsfundir voru haldnir veturinn 1897 fyrir milligöngu nokkurra hluthafa beggja blaðanna, til þess nú enn á ný að reyna að komið Ameríku í júní, og að það er vafalaust, að hinir fyrstu íslenzku landnámsmenn á þessari öld stigu ast að einhverri niðurstöðu. Var ritstjórum beggja blaðanna í samfélagi við sex menn aðra, fengið málið til meðferðar, og skyldi svo þessi átta manna nefnd, er heita mátti sjálfkjörin, tilkynna á sínum tíma að hvaða niðurstöðu hún hefði komist. Eftir nokkra umhugsun birtir svo nefnd þessi tillögur sínar með opinberu ávarpi [1]) í báðum blöðunum, "til Íslendinga vestan hafs", og lætur þess getið, að hún hafi ályktað að hátíðin skyldi færð fram til júnímánaðar, "*til fimtudagsins, er falli frá 11. til 17. dags mánaðarins.*" Vill hún að hátíðin nefnist á íslenzku "*Íslendingadagur*", eins og verið hafi, en að hátíðahaldið nefnist, "*Þjóðminningarhátíð Íslendinga.*" Á enskri tungu nefnist dagurinn "*The Icelandic National Day*" og hátíðin "*The Icelandic National Celebration*". Færir hún rök fyrir þessum úrskurði sínum í niðurlagi ávarpsins á þessa leið:

"Þegar vér völdum daginn (fimtudaginn 11. til 17. júní), þá höfðum vér fyrir augum, að alþingi Íslendinga var sett þenna dag í upphafi, og eftir hinu gamla tímatali, og þegar alþingi var þannig sett í fyrsta sinni, má álíta að hin íslenzka þjóð hafi verið fullmynduð, með því, að þá hafi hið forna íslenzka lýðveldi verið stofnað. Vér höfðum það á bak við eyrað, að líkur eru til að Ísland hafi verið fundið í júnímánuði, að Leifur Eiríksson hafi fund-

1) Íslendingadagurinn: Ávarp til Íslendinga vestan hafs, Hkr. XI. ár, nr. 9, 25. febrúar 1897.

fyrst fæti á land í Ameríku, til að taka sér bólfestu í landi Leifs hins heppna, í júnímánuði 1870. Þegar alls þessa er gætt álitum vér, að hin íslenzka þjóð í heild sinni, geti sameinað sig um dag þann í júní, er vér höfum valið, sem almennan þjóðminningardag, og skorum á alla Íslendinga að halda hina árlegu hátíð sína—Íslendingadag—fimtudaginn, er fellur þann 11. til 17. júní ár hvert."

Winnipeg, Man., 22. febr. 1897.

Sigtryggur Jónasson.
Einar Ólafsson.
Árni Friðriksson.
Kristinn Stefánsson.
Eggert Jóhannsson.
Magnús Paulson.
Björn Halldórsson.
Kristján Ólafsson.

Ágizkan þessa um setning hins forna Alþingis kom Björn Halldórsson (frá Úlfsstöðum í Loðmundarfirði) með og var frá því skýrt seinna. Reiknaðist honum svo til, eftir orðum Íslendingabókar, er segir að upphaflega hafi Alþingi verið sett, þá níu vikur voru af sumri, að í elztu tíð hafi þingsetningardagurinn verið þessi.

Með "Ávarpinu" mæltu báðir ritstjórarnir. Getur ritstjóri "Lögbergs", Sigtryggur Jónasson, þess, að upphafsmaður að þessari miðlun hafi verið Eggert Jóhannsson. Telur hann málinu vel borgið, ef Íslendingar sameinist um þessa tillögu. Aftur lætur Eggert þess getið, að eins og komið sé, og Íslendingadagur alment haldinn út um sveitir, verði að finna einhvern milliveg svo hátíðin geti hvarvetna verið haldin sama daginn. Báðir eru þeirrar skoðunar, að almennur þjóðminningardagur skuli upp tekinn í stað eldri tillögunnar frá 1888, að haldin sé almenn samkoma. Bendir ritstjóri Hkr. á, að á síðastliðnu sumri hafi hátíð verið haldin í fjórum bygðarlögum, sinn daginn í hverri bygð. "Það er auðsætt, að annað eins ástand og þetta má ekki eiga sér stað," segir hann, "og að það er miklu sæmra, að leggja þetta hátíðahald alveg niður, en að hafa það þannig í molum. — Að ræða þetta mál af kappi og frá ýmsum hliðum í blöðunum, hefir enga þýðingu. — — Það er úrlausn málsins, en ekki framhaldandi kappræða, sem ríður á."

En tillögunni var ekki vel tekið. Sem sagt, málið var flokksmál, og þá gilda nú sjaldnast miklar röksemdir. Í öðru lagi var annar ágúst búinn að öðlast hefð í hugum manna með hátíðahöldunum á undangengnum árum, einkum meðal utanbæjarmanna, er sótt höfðu hátíðina. Virtist þeim söguþráðurinn vera slitinn, ef fara ætti nú að færa til. Þá ritar Jón Ólafsson fá Chicago langa varnargrein fyrir öðrum ágúst og réðist á þessa tillögu og gjörði lítið úr hinum vísindalega stuðning hennar, setning Alþingis og fundi Íslands og Ameríku. Átti hann upphaflegu tillöguna að því, að annar ágúst var valinn. Birti hann ritgjörð þessa í "Hkr." 18. marz. Í vikunni sömu var fundur haldinn að Hallson í Norður Dakota (20.

marz), til þess að ræða þessa tímafærzlu hátíðarinnar, og miðlunartillagan feld. Var ákveðið að halda þar þjóðminningardag á komanda sumri, 2. ágúst og þriggja manna nefnd kosin, Björn Pétursson, Jóhann P. Hallson og Jón S. Gilles, til að sjá um undirbúning hátíðahaldsins. Var nefndinni veitt leyfi til þess að bæta við sig síðar, og var þá þessum meðal annara bætt við: G. J. Gíslason (nú læknir í Grand Forks), Th. J. Gíslason (kaupmanni að Brown, Man.), Jóni Hörgdal, Tryggva Ingjaldssyni og fleirum. Voru þetta því meiri andmæli á tillögu nefndarinnar sem eigi hafði áður verið haldinn Íslendingadagur í Dakota, en bygðarmenn margir sótt hátíðina til Winnipeg. Var þetta fyrsti og síðasti Ísl.dagur haldinn í Dakota. Þá risu fljótt upp deilur í Winnipeg. Var loks ákveðið að láta almennan fund skera úr þrætu þessari. Ákvað þá nefnd Íslendingadagsins, frá árinu áður, að boða til fundar. Var fundur þessi haldinn að kveldinu 14. apríl í kirkju Únítarastafnaðarins á Nena stræti. Fyrir fundartíma var þangað komið fjölmenni svo mikið, að húsið mátti heita fullsetið og bættust þó margir við eftir það. Voru þrengsli þá svo mikil, að naumast var hægt að snúa sér við. Urðu margir frá að hverfa. Fundarstjóri var Baldvin L. Baldwinson. Fór fundurinn stilt fram í byrjun, en ókyrðist eftir því sem á leið unz að lokum, að ekki var viðlit að þar heyrðist orð, þó stöðugt væri haldið áfram að tala. Tók Sigtryggur Jónasson fyrstur til máls, skýrði fyrir fundarmönnum hver tilgangur átta-manna nefndarinnar hefði verið, með uppástungu hennar að færa hátíðisdaginn fram. Meðan þeim skýringum fór fram, var áheyrn góð, og kyrð meðal fundarmanna. Sneri hann þá máli sínu að Jóni Ólafssyni og ritgjörðum hans og ástæðum þeim er meðhaldsmenn annars ágústs færði fram með deginum. Tók þá heldur að ókyrrast og áður en langt var komið því máli kvað við blísturshljóð og háreysti svo að yfir tók og ekki heyrðist framar orð til ræðumannsins. En strax sem hann gekk til sætis, var aftur komin á kyrð í húsinu. Tók þá Einar Ólafsson til máls, einn hinna átta, er undirskrifuðu breytingartillöguna. Lýsti hann því yfir, að í fyrstu hefði hann fallist á þá skoðun, að almenningur áliti þjóðhátíðina setta á óhentugum tíma eins og verið hefði og myndi því óska eftir breytingu. En eftir það sem fram væri komið í bygðarlögunum, að eins margir, ef ekki fleiri, aðhyltust annan ágúst fremur en einhvern annan dag, þá hefði skoðun sín breyzt í þessu efni og teldi hann sig nú andvígan allri breytingu. Vildi helzt að til atkvæða væri gengið sem fyrst. Lítið vildi hann gera úr hinni sögulegu þýðingu, er nefndin hefði fundið júní-deginum til, og taldi sig þar sammála Jóni Ólafssyni. Fékk hann sæmilega áheyrn fram undir ræðulokin, en þá ókyrðist á ný og byrjaði pípublástur. Tóku

þá einhverjir fleiri til máls, en lítill gaumur eða enginn var þeim ræðum gefinn. Bað þá forseti sér hljóðs og kvaðst vilja bera nefndartillöguna undir atkvæði, en mælti jafnframt eindregið á móti henni. Magnús Paulson kvaðst þá vilja segja nokkur orð, væri hann hér sakar aðili, því hann hefði átt þátt í nefndar tillögunni, og væri hann enn sömu meiningar og áður, að dagsetning hátíðarinnar hefði verið afar óheppileg og skapað örðugleika stóra, að nauðsynjalausu. Kvaðst hann nú vilja bera fram breytingartillögu, að 17. júní sé viðtekinn sem almennur þjóðhátíðardagur. Benti á, að þegar væri búið að sýna fram á það í blöðunum, að eigi bæri síður að minnast Jóns Sigurðssonar forseta, en þess hluta starfs hans, er Jón sjálfur hefði verið óánægður með, sem væri Stjórnarskráin frá 1874, Almenningur óskaði eftir, að hátíðin væri miðuð við fastákveðinn dag, væri ósk hans fullnægt með þessu, að tekinn væri upp fæðingardagur Jóns Sigurðssonar sem almennur þjóðminningardagur. — Var þá gengið til atkvæða, en eigi urðu báðir málspartar á eitt sáttir um það, hvernig þau hefðu fallið. Voru fjórir menn beðnir að telja. Var þá fyrst viðhöfð handa upprétting, en nokkrir réttu upp báðar hendur og rugluðu svo tölunni. Var þingheimur þá beðinn að rísa á fætur, á víxl með og móti, og standa meðan talið væri. Lyktaði þeirri atkvæðagreiðslu þannig, að með breytingartillögu Magnúsar Paulsonar um, að 17. júní yrði viðtekinn sem hátíðisdagur, voru 89, en á móti 119 manns. Var þá nefndartillagan borin undir atkvæði með sama hætti og áður, að hátíðin væri miðuð við fimtudaginn 11. til 17. júní, og féllu atkvæði svo, að 88 voru með en 119 á móti. Að lokum var þá borin upp tillaga um, að annar ágúst yrði framvegis hinn viðtekni hátíðisdagur og voru 129 manns með þeirri tillögu, en óvíst hve margir á móti, því samtímis tók fólk að streyma burt úr fundarsalnum og varð þá engri reglu við komið. Allmargir greiddu alls eigi atkvæði.

En þar með var þessu máli eigi lokið. Greindust menn nú fyrst í alvöru í tvo flokka. Var annarr kendur við 17. júní, hinn við 2. ágúst. Höfðu 17. júní menn beðið ósigur á fundinum, en létu þó þar við sitja það sumar. Var hátíðin haldin 2. ágúst, þó samtök væri með tregara móti. Um úrslit fundarins sagði Eggert Jóhannsson, að eigi bæri að kvarta. Var hann þó helzti frumkvöðull breytingarinnar: "Það eina, sem vér vildum og viljum enn, er að allar bygðir Íslendinga sem á annað borð vilja hafa þjóðminningardag, haldi þann dag á einum og sama degi. Vér getum, sem sagt, ekki betur séð, en það sé í meira lagi álappalegt, að hafa 2, 3 eða fleiri þjóðminningardaga á einu ári."[1])

Meðan á þessu stóð, voru fundir haldnir víðsvegar út um sveitir, og var nú sem Íslendingadagsmálið yrði hið helzta á dagskrá. En

---

1) Hkr. 22. apríl 1897, nr. 17.

flokkaskiftingin varð hin sama þar og í Winnipeg um dagana 17. júní og 2. ágúst. Fundur var haldinn í Argyle-bygðinni 13. apríl og þar samþykt að færa hátíðina fram til 17. júní. Eins fór í Minneotabygðinni. Fyrsti Íslendingadagur þar var haldinn árinu áður og þá 11. júní, átti að haldast hinn 6., en varð sökum óveðurs að færast til. Samskonar samþykt var gerð við Íslendingafljót, en árinu áður var hátíðin haldin 8. ágúst. Í hinni svo nefndu Laufás-bygð (Pipestone) var samþykt á fundi, er haldinn var í húsi Alberts Guðmundssonar, að efna til hátíðahalds þá um sumarið og var til þess valinn 17. júní. Aftur var Íslendingadagur haldinn í Brandon 29. maí og getur eigi orsaka til þess. Fram að þessu höfðu Íslendingar í Utah eigi haldið Íslendingadag. En nú samþyktu þeir á fundi, er haldinn var í Spanish Fork, að efna til hátíðahalds 2. ágúst. Samskonar ráðstöfun var gjörð að Hnausum í Nýja Íslandi og í ísl. bygðinni í Alberta. Árið áður héldu Álftvetningar þjóðminningardag 1, ágúst, en nú var hann haldinn 17. júní. Skiftust bygðarlögin þannig að heita mátti í tvær andstæðar sveitir. Þó það leiddi til þess í bili, að hátíðin væri alment upptekin, þá stóð það eigi alls staðar lengi; mátti því teljast vafasamur ávinningur. Var áhuginn mestur og framtakssemin, meðan deilurnar ráku sem bezt á eftir. Er þeim slotaði, dró úr hátíðafjörinu svo að þess sáust víða lítil sem engin merki, þegar frá leið. Hvarvetna voru þessar samþyktir bráðabyrgða samþyktir, er skyldu standa þangað til Alþingi ákvæði einhvern vissan þjóðminningardag. Þá skyldu þær falla og hinn lögskipaði dagur orðalaust upp tekinn á öllum stöðum.

Nú var svo komið, að dagarnir voru tveir, er milli sín skiftu bygðarlögunum, var þó fjarri, að eining væri í hverri bygð um þann daginn, er ofan á varð. Í Winnipeg leið svo fram til sumars, að eigi var meira um málið rætt opinberlega, en illa undu margir úrslitunum og þótti í óvænt efni komið, er orðnir voru tveir þjóðminningardagar hjá sama þjóðflokkinum og sinni minningunni helgaður hvor þeirra. Báðir dagarnir voru merkir að sögulegum viðburðum og góðir til hátíðahalds —ef vel viðraði. Bar júnídagurinn með sér minningar um komu fyrstu Íslendinga til Norður Ameríku, um fæðing Jóns Sigurðssonar forseta og fleira, en ágúst-dagurinn minti á þúsund ára afmæli þjóðarinnar, stjórnarbótina frá 1874 og annað í því sambandi. Hver dagurinn um sig hefði vel getað gagnað til þess að minnast alls þess, er á milli þeirra var skift, ef samkomulag hefði verið með, og samt eigi verið ofhlaðinn minningum, því alt var Íslands.

Sú var orðin venjan, er hér var komið, að forstöðunefnd hátíðahaldsins frá því árinu áður skyldi boða til næsta kjörfundar. Samkvæmt því var það í valdi nefndarinnar er kosin var 1897, hvenær

til fundar yrði boðið. Bárust henni áskoranir um veturinn að fresta eigi fundardegi fram á sumar, því enn þótti eigi fullreynt, hvort eigi mætti miðlun á koma svo þessi daga þræta yrði útkljáð. Forseti nefndarinnar var Baldvin L. Baldwinson og samkvæmt áskorunum þessum boðaði hann til fundar laugardagskveldið næsta fyrir hvítasunnu, 28. maí, í samkomusal Guðmundar kaupm. Jónssonar, við Isabel og Ross (Northwest Hall). Var fundarboðið birt í báðum blöðunum, er út komu hinn 26. maí og með því tilkynt, að til atkvæða yrði gengið hvorn daginn velja skyldi til hátíðahalds þá um sumarið. Í því sambandi er þess óskað, "að fullorðið fólk beinlínis en ekki börn, sæki fund þenna og leiði málið til lykta."

Áður en frá fundi þessum er skýrt, verður að geta atvika, er áhrif höfðu á úrskurð fundarmanna og ollu þeim afleiðingum, er af úrskurði þessum hlauzt. Frá því árinu áður, er deilufundurinn stóð í Únítarakirkjunni um tillögu "áttmenninganna", hafði flokkaskiftingin orðið töluvert ákveðnari og mest fyrir þá sök, að fyrir ágreiningi þessum stóðu sinn á hvora hlið menn, er áður höfðu leitt hesta sína saman og sótt hvor á móti öðrum við fylkiskosningar. Báðir voru þjóðkunnir, báðir áttu marga meðhaldsmenn og vini, og hvorjum um sig fylgdi hans pólitiski flokkur. Sem talsmaður fyrir 17. júní flokknum stóð Sigtryggur Jónasson. Hann var þá fulltrúi Gimli kjördæmis á fylkisþingi Manitoba og ritstjóri Lögbergs. Andspænis honum stóð Baldvin L. Baldwinson, sem fulltrúi 2. ágústmanna. Hann hafði beðið ósigur fyrir Sigtryggi í kosningunni 1896, en var nú aftur í kjöri við næstu kosningar, er taldar voru eigi alls fjarri. Höfðu þeir þá deilt lengi í blöðunum um fylkismál og fleira, og var nú báðum jafnhugað um að bíða eigi lægra hlut á fundinum. Þótt nú fundarmálið væri að efninu til íslenzkt og um þjóðminningardaginn, var kappsmálið og atkvæðagreiðslan um fylkispólitík. Að bera hærra hlut í öðru, var að bera hærra hlut í hinu.

Fundurinn var fjölmennur, svo fjölmennur, að eigi hafði Íslendingadagsfundur verið haldinn fjölmennari. Rúm var í fundarsalnum fyrir 300 til 400 manns, en fleiri komu en komist gátu fyrir inni. Var því gangurinn upp í fundarsalinn troðfullur og fram á stræti. Ber báðum blöðunum saman um, að Íslendingar hafi aldrei "sýnt jafnmikinn áhuga fyrir þessu máli, síðan það fyrst varð að ágreiningi." Allmiklar umræður urðu um það, hvor dagurinn væri heppilegri. Með 17. júní töluðu: Sigtryggur Jónasson, Árni Friðriksson, Benedikt Pétursson og Stephen Thorson. Benti Sigtryggur á hvernig máli þessu væri komið út um sveitir. Hefði síðastliðið sumar sýnt hver dagurinn væri bygðarmönnum kærari, þar sem 17. júní hefði verið kjörinn í flestöllum íslenzkum bygðum innan Canada. Engar vonir áleit

hann með að 2. ágúst yrði tekinn upp sem þjóðhátíðardagur á Íslandi utan Reykjavíkur. Hefðu Austfirðingar sýnt það með samkomuhaldi sínu síðastliðið sumar. Þá kvað hann og engar líkur til, að Bandaríkja Íslendingar myndi velja 2. ágúst framvegis. Hefði það verið af alveg sérstökum ástæðum, að hátíðin hefði verið haldin að Hallson 2. ágúst, en eigi hinu, að sá dagur væri Íslendingum kær. Í Minnesota kvað hann fyrstu hátíðina hafa átt að halda 6. júní, landtökudag fyrstu vesturfara. Sagðist hann upphaflega hafa aðhylst þann dag, en til miðlunar sætt sig við 17. júní. [1])

Með 2. ágúst mæltu aftur: Einar Ólafsson, Jóhannes Eiríksson, S. B. Jónsson, Lárus Guðmundsson og einhverjir fleiri. Gekk ræða Einars mest út á að sýna, hve mjög væri misskilin hin sögulega þýðing, er Stjórnarskráin hefði haft fyrir framfarir þjóðarinnar.

Eftir að ræður höfðu gengið lengi, var loks komið með tillögu um, að haldið væri fast við hinn sama dag og verið hefði. Uppástungumaður var Sigfús Anderson (Einarsson, frá Tunguseli í N.-Þingeyjarsýslu). Gerði þá Stephen Thorson þá breytingartillögu, "að 17. júní skyldi valinn fyrir Íslendingadag á þessu sumri". Eftir allmiklar umræður um þessa tillögu, kom loks fram önnur breytingar tillaga, "að Íslendingadagur skuli haldinn í Winnipeg 2. ágúst í sumar og framvegis." Uppástungumaður var Árni Jónsson (ættaður úr N.-Múlasýslu). Óvíst þótti, hvort breyting þessi væri samkvæm fundarsköpum, en forseti kvað svo vera, og var að lokum gengið til atkvæða um hana og hún samþykt með 173 atkvæðum gegn 83. Margir greiddu ekki atkvæði. — Að atkvæðagreiðslu lokinni tók fundurinn að ókyrrast og margir að fara, var þá og liðið mjög á kveldið. Varð því að fresta nefndarkosningu. Kapp var mikið á fundinum, en alt fór þó skipulega fram. Fundarstjóri var Baldvin L. Baldwinsson.

(Framh.)

1) Lögberg, 2. júní 1898.



# Þriðja ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

var haldið í Goodtemplarahúsinu í Winnipeg dagana 22., 23. og 24. febrúar 1922.

Klukkan hálf gengin þrjú eftir hádegi var fjölmenni saman komið, og forseti félagsins, séra Jónas A. Sigurðsson, setti þingið með því að biðja alla að syngja sálminn "Faðir andanna". Því næst flutti séra N. Stgr. Þorláksson stutta bæn.

Þá las ritari upp þingboð með væntanlegri dagskrá, og er hún á þessa leið:

1. Þingsetning (kl. 2 e. h.).
2. Skýrslur embættismanna.
3. Ólokin störf—
   (a) Grundvallarlagabreytingar,
   (b) Útgáfumál kenslubóka.
4. Áframhaldandi störf—
   (a) Útbreiðslumál,
   (b) Íslenzkukensla.
   (c) Tímaritið,
   (d) Samvinna við Ísland og mannaskifti,
   (e) Sjóðstofnun til íslenzkunáms.
5. Ný mál.
6. Kosningar embættismanna.

Var skráin síðan samþykt að því einu viðbættu, að kosningar embættismanna skyldu fram fara kl. 3 eftir hádegi þann 24.

Forseti las upp langt heillaóskaskeyti frá íþróttamanninum Jóhannesi Jósefssyni. Var honum falið að svara því í umboði félagsins.

Voru þá lagðar fram skýrslur embættismanna.

Forseti las allítarlega skýrslu, sem fylgir:

*Ársskýrsla forseta 1922.*

Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi er þriggja ára gamalt. Eins og flest eða öll önnur þjóðbrot af útlendu bergi í Ameríku, eigum vér loks vort eigið þjóðræknisfélag, sem þegar hefir lifað þrjú fyrstu ár sín.

En æskuskeið alls er fæðist og lifir, er talið undirorpið mestum hættum. Barnadauðanum er við brugðið. Félagslíf manna er og háð því lögmáli. Félagssýkingin og félagsdauðinn notar sér einatt þroskaskort æskuáranna.

Félag vort fæddist undir vondri stjörnu. Það mæltu hinir stjörnufróðu í félagsmálum vorum. Styrjöldin mikla var að vísu að taka enda á vetvangi, en óflutt úr sálarlífi og samstarfi ýmsra. Félagið var því talið styrjaldar afkvæmi. Feigðarspár fékk það að tannfé. Ekki var þó í það ráðist, að bera það út. En að fæðing þess gerðu sumir góðir gaman, í anda Jóns Þorlákssonar, er hann kvað:

"Hvað er í fréttum, hvað er títt?
Hvort er eg orðinn faðir?"

Móðursýkin enska, er gekk um allan Vesturheim á hinum óskaplegu styrjaldarárum, — og sem þá var afskapleg, — flýtti, ef til vill, fæðing félags vors, er aðrir vinir vorir telja það aftur stofnað helzti seint; en slíkt hindraði þroska möguleik þess á bernskuskeiðinu. Þannig varð það ósjálfrátt frá öndverðu arfþegi ýmsra meina. Hið smávaxna íslenzka þjóðlíf vestan hafs, tætt í sundur af ýmsu barnalegu þrasi, spáði sízt góðu um framtíð félagsins, né samvinnu manna í því, er í flestu öðru gátu alls ekki komið sér saman, eða öllu heldur: sem lögðu trúnað á, að alt slíkt samkomulag og öll slík samvinna væri með öllu ómöguleg. Þó hefir reyndin orðin sú, að Suðrið og Norðrið, hvað ýmsar aðrar stefnur snertir,

hafa enn unnið saman í Þjóðræknisfélaginu og það deilulaust, — svipað því, er Sunnanmenn og Norðanmenn tóku höndum saman um þjóðareininguna að loknu borgarastríði Bandaríkjanna. Eg fæ heldur ekki séð, að *meira* hafi borið á milli í málum Vestur-Íslendinga á umliðnum styrjaldarárum, en hjá bræðrunum syðra, er vinna saman að varðveizlu þjóðar sinnar og þjóðernis. Miklu fremur hygg eg, að þessi félags-samvinna geti, auk aðal tilgangsins, orðið verkfæri í hendi viturra og góðra drengja til að draga úr deilum vorum.

Vestur-íslenzkum blöðum ber að þakka. Þau hafa léð félaginu, en einkum hugsjón þess og stefnu, hiklaust fylgi frá öndverðu. Forgöngumenn félagsins vildu leggja grundvöll þess með gætni og eftir megni hafa þeir reynt að stýra fram hjá skerjum flokksmála og halda velli gegn öfugum tíðaranda.

Árið liðna hefir reynst erfitt ár á flestum stöðvum Íslendinga hér vestra. Má það ekki gleymast, er stjórnarnefnd og starf félagsins er lagt á metaskálar. Í búskap og flestum viðskiftum hefir lítil eða engin framför átt sér stað, en víða hnignun og tjón. Hygg eg það alkunnugt. Þegar þannig er ástatt. sýpur félagsskapur manna af því seiði. Þó hygg eg, að Þjóðræknisfélagið hafi vonum framar þolað megurð ársins. En dregið hefir illærið óhjákvæmilega úr útbreiðslustarfi þess, og vafalaust tafið til muna greiðslu iðgjalda.

Erindi um þjóðrækni, eða um hollustu Íslendinga hér við hugsjón og stefnu félagsins, hefi eg flutt á árinu í ýmsum bygðum Íslendinga í Kanada. Hafa þeir mannfundir ávalt verið fjölmennir og undirtektir almennings hinar beztu.

Ein félagsdeild með nálægt 40 meðlimum, deildin *Harpa* í Winnipegosis, Man., myndaðist á árinu. Auk þessa hafa ýmsir einstaklingar gerst félagar og meðal þeirra sumir leiðtogar og mentamenn vorir.

Í vetur hefi eg sagt til í íslenzku á heimili mínu nálægt 25 ungmennum. Flest eru þau um og yfir lögaldur. Hafa þau komið einu sinni eða tvisvar í viku. Kenslan stóð öllum í grendinni til boða og var með öllu ókeypis.

Í Winnipeg hefir deildin *Frón* starfað með áhuga og góðum árangri. Eitt aðalstarf hennar, kenslan, er unnið í eining við Þjóðræknisfélagið. Réðu þau félög sameiginlega tvo farkennara. Val kennaranna tókst vel. Kensla byrjaði með nóvember-mánuði. Nemendum hefir verið safnað saman í heimahúsum, þar sem þess var kostur, hina almennu skóladaga. Alls hafa nemendur verið 120 frá 50 heimilum og aldur þeirra frá 5—17 ára. Kenslan er fólgin í lestri, réttritun, skýring leskafla, sögu skýringum og endursögn þeirra, m. fl. Starfstími kennara hefir að jafnaði verið 6—8 klstundir á dag.

Á laugardögum er einnig kent í heimahúsum frá kl. 10—12, en í húsi G. T. frá kl. 3—4½ síðdegis. Þá kenslu hafa að jafnaði sótt 55 nemendur. En við þann skóla hefir oft verið hörgull á kennurum.

Efalaust er eitthvað átt við íslenzkukenslu af fleirum og víðar, þótt mig skorti ábyggilegar fregnir um það.

Hjá deildinni *Fjallkonan* í Wynyard hefir húsnæðisskortur hamlað kenslu. Þó á deildin kost á ókeypis húsnæði í samkomusal Quill Lake safnaðar, en þar skorti sæti. Nú hefir deildin varið $100.00 til sætakaupa, svo kensla í íslenzku geti farið þar fram. Auk þess varði sú deild $150 til íslenzkra bókakaupa og gaf $100 til íslenzku sýningarinnar í New York. Eins og að undanförnu annaðist hún um Íslend-

ingadagshald í Wynyard í sumar.

Frá Markerville, þar sem þorri Íslendinga mun heyra til Þjóðræknisfélaginu, hefi eg, í greinilegu bréfi, fengið bendingar til félags heilla, meðal annars um kenslu í íslenzku, íslenzkunám við Manitoba háskólann og lækkun iðgjalds. Verður það bréf síðar athugað, ef þing æskir.

Þess ber að geta, að auk deildarinnar *Fjallkonan* hafa íslenzkir menn og íslenzkar sveitir, þar sem þjóðræknir menn dvelja, aðstoðað hvatamenn íslenzku sýningarinnar New York, er haldin var þar um mánaðamótin október og nóvember síðastliðinn. Óbeinlínis hefir félagið orðið því málefni að liði, þótt stjórn félagsins sæi sér ekki fært að taka beinan þátt í því fyrirtæki, þegar, að áliðnu sumri, mál það kom til hennar kasta.

Að því er séð verður, hefir og þáttur Íslendinga í þeirri sýning vakið athygli á þeim og orðið oss vegsauki. Er það gleðiefni og þakkarvert.

Samkvæmt tillögum síðasta þings í Lesbókarmálinu taldi eg varhugavert að leggja að svo stöddu út í ný útgáfufyrirtæki, með fram sökum óhagstæðs árferðis, dýrtíðar hvað snerti útgáfu bóka og sjúknað þess manns, er stjórn félagsins hugði helzt til samvinnu við í því efni. Það mun og sanni næst, að naumast er það frágangssök fyrir oss, að nota þær lesbækur íslenzkar, ásamt úrvali af sögum vorum og ljóðum, sem eru fyrir hendi að heiman, meðan æðri skólar Íslands hagnýta enn í dag útlendar kenslubækur. En mál þetta liggur, samkvæmt dagskrá, fyrir þinginu til umsagnar.

Þá samdi stjórnarnefndin, samkvæmt tillögu síðasta þings, við séra Rögnvald Péturssn um ritstjórn Tímaritsins. Hefir hann einn saman haft það starf með höndum og er það samkvæmt hans eigin tilmælum.

Á ferðum mínum um Winnipeg hefir stjórnarnefndin ávalt—og án mín—komið saman, og rætt það er til heilla horfði fyrir félagið. Allir játum við fúslega, að orka til framkvæmda hefir verið minni en áhugi. Ekki verður því heiðruðum þingheimi, né félaginu bent á nein afreksverk né verðleika af vorri hálfu, en bróðurleg hefir samvinna nefndarinnar verið og er það ekki einskisvirði fyrir félagsskapinn.

Þann tel eg arð ársins mestan, og áranna, sem félagið hefir starfað, að vestur-íslenzkur almenningur er áreiðanlega að vakna til fyllri vitundar um þýðing þjóðverndunarmálsins. Þjóðrækni íslenzkra manna er að aukast, nema ef til vill meðal sumra hinna yngri, sem búsettir eru í stórborgum. Þó ber ekki framkoma Íslendinga í New York vott um það.

— — —

Hér þarf ekki að minna á þau mál, er samkvæmt auglýstri dagskrá koma fyrir þingið, en á það vildi eg mega minna, sem mér finst ljóst að teljist sem aðalþættir starfsins:

1. Að fá íslenzku talaða á íslenzkum heimilum.
2. Að aðstoða börn og unglinga við íslenzkunám.
3. Að fá Íslendinga til að læra sín fegurstu ljóð og lesa og segja þeim yngri úrvals sögur: um Ingimund gamla, Áskel goða, Síðu-Hall, Njál o. fl.
4. Að stofna og styðja íslenzka söngsveit, er síðar hjálpi til að syngja fagnaðarerindi ættjarðarfræðanna inn í hjörtu Vestur-Íslendinga.
5. Að sníða starf vort og leiðrétta lög vor þann veg, að félagið geti þess vegna náð til sem flestra Íslendinga vestan hafs.

Um eitt, og einkum það eitt, bið eg að lokum heiðraðan þingheim, — alla, sem hér eiga hlut að máli: Vátryggið

framtíð félagsins með framkomu yðar hér gegn öllum flokkadrætti, sem er hið eina er getur grandað að fullu og öllu félagslífi voru. Sundrung er oss það, sem mistilteinninn var Baldri. — Gerið, í því efni, hjörtu yðar hlutlaus ríki friðarins. Þjónið þjóðrækninni eins einlæglega sem óbreyttir liðsmenn. Leyfið hinum heitu og helgu endurminningum um Ísland, — ættjarðarástinni, að verma lífsstarf yðar, svo þar gæti einkis kulda. Ef vér stjórnum þannig sjálfum oss og samstarfi voru, þurfum vér ekki að bera kvíðboga fyrir andróðri annara manna.

Þá verður Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi einhvern framtíðardag svipað í augum bræðranna, er fluttu feigðarspár við fæðing þess, sem Helga fagra varð síðar í föðuraugum Þorsteins á Borg.

Varist einungis víg og deilur út af Helgu.

p.t. Winnipeg Man., 2. febr. 1922.

*Jónas A. Sigurðsson.*

Ritari gaf stutta skýrslu um fundarstörf á árinu, sem fylgir:

*Skýrsla ritara.*

Ritari hefir, því miður, stutta og mjög ómerkilega skýrslu að gefa á þessu þingi. Hann hefir það eitt gjört, sem nefndin hefir falið honum, auk þess að bóka fundargjörninga. En nefndin hefir í heild sinni verið fremur afkastalítil, að sumu leyti sjálfsagt fyrir óhæga afstöðu forseta og að sumu leyti af því, að ritstjórn Tímaritsins var falin sérstökum ritstjóra, svo verkið hefir orðið ritara umfangslítið.

Á árinu hafa alls verið haldnir 10 fundir. Stýrði forseti 5, en varaforseti 5, og var ritari staddur á þeim öllum, að einum undanteknum, er honum var boðaður tæpum hálftíma fyrir fundarbyrjun. Kom sá fundur félagsmálum lítið eða ekkert við og hefði eins vel mátt vera óboðaður.

Fundirnir voru allir haldnir á skrifstofu Lögbergs nema einn, er var á heimili ritara að 906 Banning St., og annar að heimili A. P. Jóhannssonar á Agnes stræti.

Það helzta, sem á fundunum hefir gerst, hefir verið, *að* samþykkja nauðsynlega reikninga til útborgunar, *að* ráðstafa útbreiðslu útkomu og prentun Tímaritsins og *að* ráða tvo kennara til umferðarkenslu barna og unglinga hér í bænum, og veita fé til þess, samkvæmt ráðstöfun síðasta þings.

*Gísli Jónsson.*

Féhirðir las upp fjárhagsskýrslu félagsins, og er hún birt á öðrum stað í Tímaritinu. Var hanni útbýtt prentaðri meðal fundarmanna, og sömuleiðis prentuð í heilu lagi í blöðunum. Ber hún með sér, að fjáhagurinn er í góðu ástandi, sem má þakka hinum ötula og áhugasama féhirði félagsins.

Næst kom skýrsla fjármálaritara, var hún að mestu samhljóða skýrslu féhirðis í þeim liðum er að starfi þeirra beggja laut.

Að síðustu lagði skjalavörður fram skýrslu um sölu tímaritsins. Nægir og að vísa til fjárhagsskýrslunnar í því atriði.

Stuttar umræður urðu um skýrslur þessar, og voru nefndir skipaðar til þess að yfirfara þær og gefa þinginu álit sín um þær. Voru þær síðan samþyktar með smáveægilegum athugasemdum.

Þá var tekin til umræðu þriðji liður dagskrár. (a) Grundvallarlagbreytingar. Var hin fyrri breyt.tillaga um niðurfærslu ársgjalds, en hin síðari um nauðsynlegan atkvæðafjölda til þess að lagabreytingar öðlist gildi.

Urðu strax umræður um hið fyrra

atriði og nefnd skipuð til að íhuga breytingarnar. Í þeirri nefnd voru:

Séra Guðmundur Árnason,
Ásm. P. Jóhannsson, og
Fred. Swanson.

Degi síðar kom nefndin með álit sitt. Er það all-langt mál, en aðal niðurstaða þess var, að ráða þinginu frá því að lækka ársgjöld félagsins. En að samþykkja tillöguna um atkvæðafjölda við lagabreytingar.

Urðu um fyrra atriðið langar og snarpar umræður, er enduðu með því, að lagabreytingunni um lækkun ársgjaldsins var hafnað með litlum atkvæðamun. Síðari lagabreytingin var og lögð yfir til næsta þings til endilegra úrslita.

Næsta atriði á dagskrá var lesbókin fyrirhugaða. Voru settir í nefnd til að íhuga það mál þeir: Richard Beck, H. S. Bardal og Finnur Johnson.

Álit þeirrar nefndar leggur fastlega með því, að lesbók, er tæki við af stafrófskveri og sniðin sé eftir þörfum og skilningi vestur-ísl. barna, sé samin og gefin út eins fljótt og kringumstæður leyfa, og sé stjórnarnefndinni falin framkvæmd í málinu.

Umræður urðu eigi miklar um þetta atriði, og var nefndarálitið samþykt eins og það lá fyrir.

*Útbreiðslumál.* Nefnd var kosin í það mál, þeir prestarnir: Jónas A. Sigurðsson, Stgr. N. Thorláksson og Guðm. Árnason. Lagði nefnd sú fram álit sitt síðasta þingdag. Urðu um það talsverðar umræður. Þóttu sum atriði þess ekki nógu ákveðin. Tók nefndin þær athugasemdir til greina og breytti lítið eitt orðalagi álitsins því samkvæmt. Aðalatriðin eru þessi:

1. Að lög og iðgjöld fél. hafi einkum tillit til útbreiðslu þess.

2. Að blöðin séu hagnýtt til útbr. félagsmála, og á ritstj. sé skorað að ljá félaginu fylgi sitt.

3. Að fyrirlestrar og samkomur séu haldnar víðsvegar um bygðir Íslendinga, félaginu til eflingar og útbreiðslu.

4. Að félagið stofni og styðji íslenzkt söngfélag.

5. Að félagið styrki kenslustarf í íslenzkri tungu og bókvísi eftir megni, og

6. Að þingið feli næstu stjórnarnefnd framkvæmdirnar samkvæmt þessum fyrirmælum, og á þann hátt er félaginu sé fyrir beztu.

Var nefndarálit þetta rætt og samþykt lið fyrir lið.

Íslenzku kensla var næst tekin til umræðu.

Séra Guttormur Guttormsson, Miss Hlaðg. Kristjánsson og G. J. Húnfjörð voru skipuð í nefnd til að íhuga það mál. Lagði sú nefnd fram álit sitt síðasta þingdag, og er það þess efnis, að nefndin álítur að kensla sú er félagið hefir haft með höndum, hafi borið svo góðan árangur, að hún leggur eindregið með því að stjórnarnefndinni sé falið að halda því starfi áfram á næsta ári og fjölga kennurum ef ástæður leyfi, og hvetja fólk alment til samskonar starfsemi sem allra víðast.

Nefndarálit þetta var samþykt óbreytt.

Þá kom til umræðu útgáfa Tímaritsins. Í nefnd voru skipaðir: Ásm. P. Jóhannsson, Friðrik Guðmundsson og Ásgeir Í. Blöndahl. Lögðu þeir til að sama tilhögun væri höfð og að undanförnu, sami ritstjóri væri ráðinn og útgáfa þess að öðru leyti í höndum nefndarinnar. Var það samþykt athugasemdarlaust.

Samvinna við Ísland og manna skifti: Urðu um það langar umræður, með og móti möguleikum þess. Voru séra Rögnv. Pétursson, Sveinbjörn Árnason og Friðrik Guðmundsson skipaðir í

nefnd til að íhuga málið og gera tillögur í því. Lagði nefndin til að þingið feli stjórnarnefndinni að hrinda þessu máli í framkvæmd. Þannig að komið sé á skiftum námsmanna í milli háskóla Íslands og háskóla hér í álfu, á líkan hátt og nú á sér stað í milli háskóla Norðurálfunnar, og að skorað sé á nefndarmenn Eimskipafél. Íslands, að flytja það mál á Eimskipafélags fundi, að slíkum stúdentum sé veitt ókeypis far báðar leiðir með skipum félagsins. Var nefndarálit þetta samþykt eftir alllangar umræður.

Næst var tekin til umræðu sjóðstofnun til íslenzkunáms. Var það rætt frá ýmsum hliðum og að lokum settir í nefnd séra Rögnv. Pétursson, Ólafur Bjarnason og Kristján Vopnfjörð. Lögðu þeir fram stutt nefndarálit er bygðist að nokkru leyti á umræðunum:

1. Nefndin ræður fastlega til að slíkur sjóður sé stofnaður.

2. Að kosin sé þriggja manna milliþinganefnd, er hafi málið með höndum, semji reglugerð fyrir væntanlegt samþykki næsta þings.

3. Veiti móttöku og safni gjöfum og peningaloforðum í sjóðinnn á árinu.

Var nefndarálit þetta samþykt, og í milliþinganefndina kosnir þeir séra Rögnv. Pétursson, Séra Steingr. Thorláksson og Árni Eggertsson.

*Ný mál.* Talað var um rétt erindisreka frá deildum og að lögin því viðvíkjandi væru ekki fullskýr. Ennfremur um ferðakostnað slíkra erindsreka frá deildum og að lögin því viðvíkjandi væru ekki fullskýr. Ennfremur um ferðakostnað slíkra erindsreka. En með því að lagabreytingar þarf við í báðum þessum atriðum, voru engin ákvæði tekin, en nefndinni falið að gera sitt bezta í þessu máli.

Ásgeir Í. Blöndahl bar upp tillögu til þingsályktunar, er hljóðar svo:

"Það er eindregin ósk þingsins, að íslenzkir prestar vestan hafs beiti áhrifum sínum hver í sínum söfnuði til þess að fá vakið almennari áhuga fyrir nytsemi þjóðræknisstarfsins á meðal vor, og hlynni að útbreiðslu félagsins af fremsta megni."

Tillagan var samþykt.

Ásgreir Í. Blöndahl gerði viðaukatillögu við 2. gr. III. kafla grundvallarlaganna. — Viðbótin komi á eftir orðunum: "Heiðursfélaga skal kjósa eftir verðleikum," og hljóðar svo: "og sé ekki fleiri en einn heiðursfélagi kjörinn ár hvert, skal stjórnarnefndin ákveða hver fyrir því verður, ef um fleiri en einn er að ræða." —

Klukkan 3 á föstudaginn fóru fram embættismannakosningar og urðu þessir fyrir kosningu:

Forseti: séra Jónas A. Sigurðsson.

Vara-forseti: Árni Eggertsson.

Skrifari: Gísli Jónsson.

Vara-skrifari: Ásgeir Í Blöndahl.

Féhirðir: Ásm. P. Jóhannsson.

Vara-féh.: Ólafur Bjarnason.

Fjármálaritari: Friðr. Swanson.

Vara-fjárm.ritari: Friðr. Guðmundsson.

Skjalavörður: Finnur Johnson.

Yfirskoðunarmenn: Jónas Jóhannesson, H. S. Bardal.

Stungið var upp á fleirum fyrir varaforseta og fjármálaritara, en allir þeir er á þingi voru afsökuðu sig, og var því öll nefndin kosin gagnsóknarlaust.

---

Að kvöldi hins fyrsta þingdags kom fjölmenni saman í G. T. salnum og hlustuðu á langt og snjalt og mælskuríkt erindi forsetans, séra J. A. Sigurðssonar, um þjóðræknismál vor. Stóð erindið yfir frá 8,30 til 10. Verður hér ekki reynt að gefa útdrátt úr því. Umræður urðu langar, en fyrirlesar-

anum var þakkað með dynjandi lófaklappi.

Á fimtudagskvöldið hafði deildin "Frón" fjölmenna samkomu með hljóðfæraslætti, söngvum, ræðum, kvæðum og veitingum. Forseti deild. Frón, hr. Páll S. Pálsson setti samkomuna með snyrtilegri inngangsræðu. Í skemtunum tóku þátt: Prófesssor Sveinbjörn Sveinbjörnsson, með frumsamdri "Rapsódíu" og Jónas Pállsson með pianóspili. Þrjú frumsamin kvæði voru flutt eftir St. G. Stephansson, séra Eyjólf Melan og Richard Beck, Mrs. S. K. Hall, Mrs. Alex Johnson og H. Thorólfsson sungu einsöngva á ísl. eftir þá prófessor Sv. Sveinbjörnsson, Jón Friðfinnsson o. fl. Ennfremur sungu 8 konur og karlar fjórrödduð lög undir stjórn hr. Davíðs Jónassonar. Þá flutti og séra Guttormur Guttormsson langt erindi um viðhald íslenzks þjóðernis. Var að þessu öllu gerður hinn bezti rómur, og stóð samkoman langt fram á nótt.

Síðasta kvöldið var komið enn saman fjölmenni í G. T. salnum. Voru þar lesnar upp og samþyktar allar þingfundargjörðir. Var þá gengið um salinn og meðlimir teknir í félagið.

Næst las hr. Guðb. Jörundsson upp frums. kvæði. Þá söng Gísli Jónsson tvö ný lög eftir Þórarinn kaupmann Jónsson, Dísarhöll og Sumarlok; var þeim tekið með lófaklappi. Næst hélt séra Albert Kristjánsson þingm. langt og gagnort erindi um viðhald íslenzks þjóðernis í þessu landi. Var því mjög vel tekið, og honum greitt þakklætis atkvæði fundarins. Á eftir því sungu ungfrúrnar Hermannsson og Reykdal og þeir herrar E. Ísfeld og D. Jónasson lagið "Heim til fjalla" eftir píanókennara Jónas Pálsson, og fengu hina beztu áheyrn.

Þakkaði þá forseti öllum viðstöddum, og öllum er stutt höfðu að málum félagsins á árinu og sagði síðan þingi slitið.

*G. J.*

---

## *LEIÐRÉTTINGAR.*

Smávillur hafa slæðst inn í ritgerðir í Tímaritinu frá ári til árs—auk prentvillanna. Eru sumar meinlegar, svo að þær valda skekkju í frásögninni og rugla á stöku stöðum hugsana samhengi. Einkum er það, þegar orð eða nöfn hafa fallið burtu við *leiðréttingar* á próf-örk, og eigi verið athugað fyrr en um seinan. Þannig hefir fallið úr í ritgjörðinni "Þjóðræknissamtök Íslendinga í Vesturheimi", í I. árg., bls. 120, fremra dálk, nafn *J. Ásgeirs J. Líndals,* er taldir eru stofnendur "Menningarfélagsins" í Dakota 1888. Ónákvæmni er það í frásögninni, að stofnendur eru fleiri taldir en voru *(8)*, en það er skuld höf., er eigi hafði annað fyrir sér en fundarbók félagsins. Í sömu ritgerð, III. árg., bls. 106, hefir fallið burtu nafn *Stephen Thorsons* úr tölu nefndarmanna, er stóð fyrir samskotunum til minnisvarða Jóns Sigurðssonar. Í II. árg., bls. 66, síðara dálki, 19. línu að ofan, í ritgerð Percy Graingers, hefir fallið burtu orðið *"eigi"*. Setningin hljóðaði upphaflega: "Nái *eigi* hinir drengilegu" o.s.frv. Þetta eru lesendur beðnir að athuga, auk fleira, er til mætti nefna, en þykir eigi þýða að telja upp.

*—Ritstj.*

# Auglýsingaskrá.

---

Þessi skrá hér að ofan sýnir, hve margir auglýsa í riti þessu. Eru það 91 stærri og smærri verzlunar. iðnaðar og fésýslu félög hér í Vesturlandinu. En skráin ber með sér fleira og meira en þetta og sem ekki er með öllu þýðingarminst. ef nær er litið oss Íslendingum. Hún sýnir hversu þjóðræknisviðleitni vorri er tekið, bæði meðal verzlunarmanna vorra sjálfra og hinna hérlendu. Það er einkennilegt. að flestöll hin meiri verzlunarhús. og iðnaðarfélög innlend, hafa frá því fyrsta að ritið hóf göngu sína, af fúsum og frjálsum vilja auglýst í ritinu. Sýnir það afstöðu þeirra gagnvart Þjóðræknisfélagi Íslendinga og gagnvart Íslendingum í heild. Sýnir það álit það, sem þau hafa á þjóðflokki vorum í viðskiftalegu tilliti. Og það, sem summum kann að hafa yfirsézt með það, sýnir, að þjóðarviðhald vort í álfu þessari er alls eigi litið óvildar eða ömunar augum af þeim og þeirri stétt í landinu, sem þau heyra til.

Væri nú til ofmikils mælst, að Íslendingar yfirleitt létu félög þessi og verzlanir njóta viðskifta sinna? Væri ekki sanngjarnt, að þeim væri sýndur sami vinarhugur á móti? Og þá væri gott, ef þess væri getið um leið, að eftir því væri tekið, hverjir virtu í verki og orði þjóðflokk vorn. Það er hægt að gjöra það án alls smjaðurs. Missir þá virðing beggja málsparta eigi neins í við það. Þá mætti og geta Tímaritsins í því sambandi. Það bæri stóran árangur í framtíðinni fyrir það og félagsmál vor öll. Vilja nú ekki félagsmenn og lesendur sinna þessum bendingum?